# TILRAUN

til

skiljanlegrar útleggingar

# Opinberunar Jóhannis,

samin af

**Jóni Espólín**

fyrrum sýslumanni í Skagafjarðar sýslu,



en nú útgèfin af syni hans

**Hákoni Espólín**

presti til Stærraárskógs safnaðar í Eyjafjarðar sýslu.

**Akureyri.**

Prentuð í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins, af H. Helgasyni.

1 8 5 5.

## Til lesarans.

Mjög svo efablandinn legg eg hönd á að rita nokkur formála-orð fyrir Ritgjörð þessa, er þar til fyrsta orsök sú, að höfundurinn telur það lítt hæfa Rits undirlagi sínu, hitt annað, að hann ætlar að verk sitt þetta sè ei til annars enn að það væri umsteypt af öðrum þeim, er meiri hefði lærdóm, túngumálastyrk og hjálparmeðöl enn hann; af mèr er þó sízt að ætlast til nokkurs slíks. — Nú eru bráðum 19 ár liðin síðan höfundurinn lagði síðast hönd á verk þetta, og hefir enginn, svo eg viti, síðan tekist á hendur að umbæta það, veit eg og óglöggt hver hèr á landi er til þess fær, en stöku afskriftir eru þó til. Straumur tímans hefir síðan fært ýms atriði framm á skoðunarpláz heimsins, og varla lítur út fyrir staðfasta rósemi að sinni í Norðurhálfunni. — Í síðustu grein ritgjörðarinnar færir hann nokkur rök fyrir tilraun sinni og fyrirtæki, og æskir þar þeirrar leiðrèttíngar, sem fróðleiks- og kærleiks - ríkur andi gèti veitt, en alls ekki þeirrar aðfinnslu, sem sprottið gæti af nokkurri efasemd um spádóminn, eður hans uppfyllíngu á sínum tíma. Þó vèr vildum leiðbeina hinum fáfróðari alþýðumönnum í því, hvornig spádómurinn kèmst saman við merkistilburði í heiminum, þá er það ekki hægt í stuttum formála, sízt svo ljósara verði enn höfundurinn hefir sjálfur gjört í útleggíngar tilrauninni.

Mèr virðist, að fyrir þá lesendur ritgjörðar þessarar, sem ekki eru vel færir um að bera hana saman við Veraldar-

sögu-atriði þau, sem kristna kyrkju snerta, sè einkum verðt að leitast við að festa sig á þeim hlutum í lýsíngu spádómsins, sem bersýnilega tala um það efni, sem fram hefir komið á vorum dögum, til dæmis: Engillinn með það æfinlega evangelíum til allra þjóða, kynkvísla og túngumála, sem fór skyndilega miðt í gègnum himininn, er boðskapurinn fyrir biblíufèlög og trúarboða um heim allan næstliðin 50 ár, síðan 1804, að hið enska biblíufèlag og annað þar að lútandi skyndilega hófst miðt í vantrúarinnar þáverandi straumi — og fram leiðist þetta eptir sjónina á lambinu (Kristó) og þeim, sem með því stóðu á Zíonsfjalli, nefnilega sannkristnum, því boðskapurinn kom á eptir trúarendurbótinni, og að nokkru leiti frá sömu rót. — Hèr á eptir á að koma önnur kènníng, — annar engill, sem boðar, eður leggur út af mikillri umbyltíngu í hinum papisku löndum, — og þar á eptir hinn þriðji — eður þriðja kènníng — sem varar stránglega við þá uppkomnu kristinndóminum mjög óvinveittu, en voldugu, ríki í sömu löndum á spilltri öld; en þeir, sem færir eru að rekja fleirislags tímareiknings ferla, finna þá líka miða á seinni hluta 19. aldar og hina 20. þetta er miðandi til að vekja almennan og guðrækilegan athuga manna á hinni komandi tíð og hennar tilfellum. það eru ótal röksemðir að finna í Opinberunarbókinni, sem með áþreifanlegu móti sanna hennar guðdómlegu fyrirsagnir, þó verður þetta allra ljósast fundið af þeim, sem með sannleikselsku og virðíngu fyrir spádómunum, sameina djúpsæran lærdóm og sagnafræðisþekkíngu. Spádómarnir eru, einsog höfundurinn segir, ekki gèfnir til að svala mannlegri forvitni, heldur til huggunar og styrkíngar Guðs trúuðum og útvöldum, einkum þá þeir, eður kristin kyrkja, er í nokkurri hættu eður vanda stödd, til merkis um, að Jesús hafi ekki yfirgèfið kyrkju sína í óvissu. Spádómurinn fylgir fast atriðum kristinnar trúar; og enn fremur vildi eg

í tilliti þeirra, sem efast um að Opinberunarbókin sè ekta spádómur, vísa til þess, sem Es. Fleischer segir í bók hans: Jesu Kristi Religions Sandhed §. 316 — 318 inclusive, og hrekur sá maður þar með skírum rökum slíkar efasemdir. Samt má út af þessari bók og öllum spádómum finna, að varað er sterklega við afguðadýrkun og allsháttaðri misbrúkun kristins lærdóms; að leitað er vandlega Guðs dýrðar og sýnt framm á, að tilfelli landa og ríkja, já, gjörvalls heimsins, standi undir stjórnun Drottins; að Drottinn umlíði að sönnu um stund og tíma mótmæli og mótföll móti kyrkjunni og orði hans; en hann hafi þó ákvarðað þann tíma, hvað lengi slíkt skuli umlíðast eður ei. Í Spádómsbók þessari stendur, að vitnisburðurinn um Jesúm sè andi spádómsins. Það er með öðrum orðum: að jafnóðum og sá gèfni spádómur fram komi — sem strax í upphafinu er nefndur Jesú Kristí opinberun — skuli allt af smámsaman hverri tíð færast heim sannur um það, hvílíkur Jesús Kristur sè, sem á fornum öldum hafi allt þetta fyrirsagt, en einkum og allraberlegast þar, sem spádómurinn tiltekur eitthvað mjög greinilega og nákvæmlega, sem þá bókstaflega uppfyllist. Það er og eitt af einkènnum bókar þessarar, að hún talar þess ljósar um hlutina, sem lengra kèmur fram á tímann, og í raun rèttri helzt um það áríðandi, sem enn er óframkomið, þvert á móti eðli allra mannlegra ágètskana, og sýnist þetta með vilja gjört, svo enginn gèti sagt, að slíkt sèu neinar mannasmíðar. Því framar þess vegna, bræður! sem vèr sjáum epttektaverðar og mikilvægar tíðir færast yfir heiminn, því framar — látum oss hafa gát á stefnu þeirra, en einkum ef nokkuð það sjest fram koma, sem Opinberunarbókin bendir til að skè muni ekki laungu eptir þessa tíma.

Að öðru leiti hefir Rithöfundurinn, að minni ætlun, sagt svo glöggt frá öllu því, sem sagt verður enn nú, á meðan

fortjald tímans ekki lyptir skýlunni betur frá, að mèr er litlu eður engu fært þar við að bæta. Þær mjög fáu athugasemdir, sem eg hefi gjört, hefir eg einkènnt með þessu orði: afskrifarans athugasemd. Þareð komið virðist næstum að hinum markverðustu tíðum, að svo má kalla, kèmur bók þessi í ljós ekki á óhentugum tíma, bæði hèr og í Danmörku; hversvegna svo virðist sem menn ættu að veita henni ljúfar viðtökur.

Hèr við hefir eg þá fáu að bæta, utan að óska lesaranum allrar sannkallaðrar blessunar, sáluhjálplegra nota og andlegrar upplýsíngar af lestri útskýríngar þessarar.

Stærraárskógi, þann 13. apríl 1855.

**H. Espólín.**

# TILRAUN
# nokkurs tillags[1] til skiljanlegrar útleggíngar Opinberunar Jóhannis.

## Undanfarandi grein.

Formála rita eg engan; sumpart sýnist mèr það lítt hæfa rits undirlagi mínu, sumpart verður þetta verk mitt varla til annars, enn að það framar fullkomnast mætti af þeim einhverjum, er meiri hefur túngumála-styrk, meiri guðfræði og fleiri hjálparrit við hönd, enn eg, og má sá þá setja formála til ef vill. Eg vil vera sem fáorðastur og framsetja allt í Paragraphum (aðskildum deildum klausum) sem eptirfylgir:

§. 1.

Hvert mikilsverðt umtalsefni verðskuldar ransókn; enginn sannleikskjærleiki stenzt án hennar — en að vita hvert ein ritníngarbók er sönn eður uppdiktuð, hlýtur að vera í mesta lagi áríðandi; — sè hún diktuð og þó sönn haldin, spillir hún grundvelli ritníngar allrar og sannleika, en sè hún sönn, og diktuð haldin, verkar það óseigjanlegt spillíngarrugl í trúarbrögðunum, og hyrði manneskjan ekkèrt um hvort sönn sè eða ósönn, sýnir það afsökunarlaust jafngildi (skeytíngar-

[1]) Þó þessi Titill sè af ofmikilli hlífni einhverri annari ritgjörð gèfinn, sýnist mèr hann hèr þó hæfa, bæði í tilliti hins háa, myrka og mörgum efamálum undirlagða efnis, og híngaðtil gjörðra tilrauna, sem sumpart hafa verið óheppnar, sumpart ófullkomnar, og hèr eptir verður heldur ei von til að nái neinum algjörleik, fyrr enn tíðin gjörir allt ljóst, og mun enn þá all-lángt eptir því að bíða, eptir því sem líkindi eru til.

leysi) um Guðs tilgáng. Nær því eins mikið ríður á, eða lítið minna, að vita hvort hún er canonisk, þ. e.: af trúarreglubókum ritníngarinnar, eður ei. Þessvegna, sè ei bókin opinberun frá Guði, og þó haldin spádómur, ætti að reka hana með röksemdum, ef hún á ei að verða í mesta lagi skaðleg; en að þetta bæði gètur skèð og mun skè (ef hún ógild er), verður Guðs vísdómur og almætti borgun fyrir. Tilgángslaus væri hún, ef ei mætti prófast, til að skilja hana, bæði til að þekkja það skèð er, og varast hið ókomna. Af öllu slíku er auðveldt að þreifa á, hve skeytíngarlaust, óafsakanlegt og dárlegt það er, að hæða tilraunir til að útskýra Opinberíngarbókina, og halda það sè frekjutrú (Sværmerie), sem endilega hljóti að orsaka trubl; og hversu lítið slíkt er svaraverðt; einúngis kynni maður að minna slíka rángsýna menn á það Kristur sagði við Phariseana: þèr, hræsnarar! gètið dæmt um himinsins útlit; því dæmið þèr ei teikn þessarar tíðar [1].

## §. 2.

Það orð: teikn tíðarinnar, er annars harla misbrúkað á vorum dögum, menn kalla svo hverja smámuni. hverja smábreytíngu í aldar þánkafari; hefi eg sèð í sumum ritum, að það er kallað tíðar-teikn, þegar ein eður önnur vantrú, ein eður önnur hjátrú, hefir aukist. Við hjátrúna var ósamkvæmast að kalla vissar smágreinir hennar teikn tíðarinnar; hún er allt of almenn, og hefir of opt og of lengi verið í heiminum til þess, að þvílíkt gèti einkènnt vissa tíð; heldur gjæti vantrúin gjört það, þó einúngis slík vantrú, sem er ný, eður ó-

[1]) Hafi Guð opinberað eitthvað, er það víst ei skèð forgèfins, og það er óefandi, að Guðs orð fær eilíflega sigur yfir öllum manna meiníngum. En að hann hafi opinberað það, sem mennirnir gátu vitað af sjálfum sèr, og varað við því, sem þeir hefðu varast sjálfkrafa, trúi eg ekki. Það er annars kunnugt, að menn skipta annaðhvort ár um allt umdæmíngarálit sitt. En þó mun hèr að ofan, að minni meiníngu, rètt frammleidd þánkaröð, rèttlæta fyllilega (fyrir mèr) hverninn eg hefi álitið, allt þartil, er annað ljósara verður sýnt og sannað, og einninn þá ætla eg að það mitt álit muni standa í höfuð-atriðinu; hvar um síðan.

venjuleg (að minnsta kosti í samanburði við upplýsínguna), framar enn nokkru sinni áður. Eiginlegast eru tíðar-teikn saman í eitt komandi undirbúníngs-atvik til stórtíðinda, annaðhvort í Guðs andlega eður veraldlega ríki á jörðunni, sèrdeilis einsog samstemmir spádómunum. Hvort þvílík finnast ei á vorum dögum, vil eg fyrst um sinn eptirláta hverjum einum sjálfum að hugleiða.

§. 3.

Engin bók hefir komið undir svo mikla umþrætni sem Opinberíngarbókin; hinir lærðu hafa á öllum tíðum deilt um, hvort hún væri villumanna ritgjörð, eða reglu (canonisk) -bók ritníngar, rituð undir Guðs óbrigðullri leiðsögn, eður og ekki reglubók, en þó skráð í góðum tilgángi og að nokkru leiti grundvölluð á öðrum spádómum, og þá ekki prettandi; eður loksins ei nema guðrækilegt afmálunarkvæði (bílætamál) í von um gyðíngatrúar og heiðinndóms steypíngu undir kristinndóminum. Einasta ein af þessum meiníngum gètur rètt verið, því sannleikurinn er ei nema einn, og hinar hljóta að falla af sjálfum sèr.

§. 4.

Hin fyrsta meiníngin, að bókin sè villumanna ritgjörð, einkum eptir Cerinthus, kann helzt að hafa orsakast af því hatri, allir rètttrúar-menn svo kallaðir, forðum og einkum á miðöldum höfðu á því svo nefnda þúsund ára ríki, sem hún talar um, því þetta á að vera Cerinthus lærdómur. Menn vita enga aðra röksemd enn þessa sögn, að eg trúi, fyrir því, að Cerinthus hafi ritað hana, eður nokkur annar villumaður — og hversu öldúngis ónýtist ekki þetta, gjæti maður að eins að, að skèð gat, að Cerinthus, þó villumaður væri, hefði trúað um þetta hinu sama, sem aðrir í hinni fyrstu kristni, og líka að þessarar óvissu þarf alls ekki, því sumpart veit enginn glöggt hvað Cerinthus kènndi, eður hvort hann hefir nokkurntíma hugsað til þúsund ára ríkis á þann hátt, sem Opinberíngarbókin; svo hèr er ekki minnsta sanninda skin —

ei að tala um, að síðan eg, eptir mitt fyrsta rit í þessu efni, fyrir nokkrum árum, las í útskýríngu hins lærða og guðrækna Bengels (sem rèttilega segir, að bókin eigi að heita Jesú Kristí opinberun, einsog hún kallar sig sjálf — ekki Jóhannis, sem ei var nema verkfæri til að útbreiða hana, og sè sjálfs Jesú orð), að hann rekur til fulls þá óvizku ætlun um Cerinthus, og sýnir ofaná, hvornin á því stendur, að þúsund ára ríki Krists var rengt, eður aflagaðar gátur um það, seinna á hinum fávísu miðöldum, af rángskilníngi og hjátrú, einsog nú af vantrúarfrekju; þar með er öllum auðfundið, að engin spor af gnostika eður annara villumanna lærdómi finnast í bókinni; hefir því þessi meiníng fyrir laungu misst allt gildi sitt.

## §. 5.

Sú meiníng, að bókin sè guðrækilegt kvæði í bílætum, í von um gyðíngatrúar og heiðinndóms steypíngu, hefir ekki betri fætur á að standa; því auk þess hún hefir hvorki meðhald af kyrkjufeðrunum, eður nokkurri fornaldar sögn, og er því einúngis grundvallarlaus nýsmíðuð gáta; þá hefði það verið sú óafsakanlegasta dirfska af nokkrum kristnum, að setja fyrir sjónir Guðs engla og Krist sjálfan, sem talandi og fullvissandi, himinsins lofsaungva og aðra svoddan háa hluti, einúngis eptir sínum skálda-innföllum; hverrar dirfðar engin dæmi eru í fornöld, þó á seinni tímum hafi sumir að nokkru leiti breytt svo fávíslega; og ásamt er það ógrípanleg heimska, að ímynda sèr öll þau sjónarspil í reglu, sem fyrirkoma i bókinni, án nokkurrar vissu um ókomna tilburði. Þar hjá vita menn ekkèrt dæmi uppá þvílíka saungva, því allir saungvar hinna fornu spámanna, sem þó ekki nærri svo ljóslega og fullvissandi framsetja sitt máls innihald, hafa þó í sèr verulegar fyrirfram-sagnir þeirra hluta, er einföldum mönnum var ómögulegt að gèta sèr til af eiginn vísdómi. Hvað þarf meira til að reka þá meiníngu, sem ekkèrt er annað enn líkindalaus gáta? Ekki um að tala, að það hefði verið Guðs forsjón óverðugt, ef menn annars trúa, að hans forsjón nái til gèfins opinberaðs lærdóms hreina viðhalds, að líða það slík heimsku-

leg skáldmæli yrði haldin guðdómlegur spádómur í gègnum allar aldaraðir kristninnar; slíkt skáldmæli, sem þar fyrir utan hefði verið öldúngis tilgángslaust og ónýtt, þar Kristur sjálfur hafði nógu greinilega fyrirsagt fall gyðíngatrúarinnar og heiðinndómsins.

§. 6.

Að bókin sè ekki canonisk (reglubók ritníngar), en þó rituð í guðrækilegum tilgángi og að nokkru leiti grundvölluð á öðrum spádómum, og því ekki prettandi, kann máskè Luther hafa ætlað; en víst er það, að Michaelis hefir haft þann þánka; mèr sýnist að það sè ein í ráðaleysi nýsmíðuð útflugt, og smakki af líkindaleysi hinnar fyrri meiníngar; þar hjá finna menn, að Michaelis, sem einsog Newton sýnist hafa viljað halda bókina ritaða í Nerons tíð, og útleggur það, sem hann ætlar vera einslags spádóma, um Jerúsalems og gyðíngadómsins eyðileggíngu, kèmst þess vegna opt í villtan efa, og nærri því mótsögn við sjálfan sig; því hafi maður fyrst tekið þessa meiníngu í höfuð, og leiði annað út af henni, flækir maður sig fyrst í þeim ólíkindum, að einn sannkristinn maður hafi verið nógu dirfðarfullur til að kalla það vera spádóm guðlegan, sem hann vissi ei var svo (því að ákafur frekjutrúarmaður gètur þó aldrei vel verið sannkristinn, sízt ef hann uppdiktar sem horfir í Guðs nafni); þar næst yrði sá, sem svo óáreiðanlega ritað hefði, að hafa þó varðveitt svo óaðfinnanlega reglu alla bókina til enda, að menn gèta ei annað sagt, enn að hann hafi niðursett bæði Daníels og Krists spádóma, hvern á sínum rètta stað, sem er þvert á móti eðli frekjutrúar; og loksins mun það sýna sig, hvað opt ,sem til er reynt, að hver, sem fylgir þeim útleggíngar-grundvelli, finnur aldrei samanhángandi veg í Opinberíngarbókinni, miklu síður nokkurn niðurröðunar-grundvöll (Plan).

§ 7.

Það er þess vegna bæði sannað af hinum fornu kyrkjufeðrum og líka nú á dögum eptir miklar þrætur, loksins al-

fallist á af þeim lærðu, að Opinberíngarbókin sè canonisk (reglubók ritníngar) og rituð af Jóhannesi postula (hvers vegna hann kallast í yfirskrift hennar Theologus (hinn guðfróði) meiga aðrir eptirgrenslast), og það á dögum Domitiani keisara, og eptir Jerúsalems eyðíngu. þetta er nóg röksemd fyrir því, að hún sè guðdómleg vitran, að hún eptir allar ransóknir hefir fundist svo ásigkomin, og þar hjá ekki án forsjónarinnar stjórnar, hefir orðið Nýa Testamentisins og allrar ritníngarinnar endalokabók og innsigli, sem ei verður annað enn sèð, ef að menn eru innteknir af sannkjærleika;

*a*) hugsa eptir, að hún er rituð af þeim lærisveini, sem Jesús elskaði, og um hvern hann sagði: „ef eg vil hann blífi til þess eg kèm," m. m., og þanninn hefir á tvöfaldan hátt uppfyllt þessa sína sögn, með því, að láta hann bæði lifa Jerúsalems eyðíngu, og sjá í anda kyrkjunnar ókomnu forlög og sína aðra tilkomu; samt að þessa lærisveins orðatiltæki er þekkjanlegt í bókinni, einúngis stíllinn miklu hærri enn venjulega, og það í hans háu elli, sem er óbrigðult kènnimerki óvenjulegrar andagiptar eður sálar-upplyptíngar;

*b*) aðgjæta bókarinnar orðatiltækja guðdómlegu hátign, sem yfirgengur allt hvað finnst í ritníngunni, og forsjónin gat ekki leyft neinum frekjutrúarmanni eða falsara að taka sèr í munn og kalla guðdómlega spádóma, nema Guð hefði viljað neyða kristnina til að trúa lygum;

*c*) minnast þess, að eins og menn hafa ritníngarinnar guðdómlegu frásögnum að þakka fyrir mannkynsins fyrstu upprunalegu sögu, að því leiti hún hefir tillit til Guðs andlegu ráðstjórnar, svo leiðir nær því af sjálfu sèr, að þær einninn skulu upplýsa oss um hina síðustu tilburði, einkum þar það varla hefði verið sæmilegt fyrir Krist, að eptirskilja sína stríðandi kyrkju undir ofsóknum í óvissu um allar ókomnar tíðir. þetta sýnir þó nokkrar afleiðíngar hverja af annari, og nokkurn (en ekki samkvæmt vorra vitrínga tilgátum) glansa af Guðs vísdómi;

*d*) vita, að allir merkilegir spádómar hafa tekið enda með þessari bók, sem kórónu allra annara ritníngarbóka, hvað eð

er þvert á móti eðli allrar frekjutrúar (Sværmeries), er plagar að aukast því meir, sem hún hefir lengur og fleiri forgaungumenn; — og loksins:

*e*) taka eptir þeirri guðdómlegu hótun, sem stendur í seinasta kapítula 18. og 19. versi, þvílíkri, sem enginn frekjutrúarmaður, svikari, villumaður, dreymari eður diktari frá veraldar upphafi hefir dirfst eður dirfast mun að álykta með sjónir sínar eða spár, og sem staðfestir bókarinnar og ásamt allrar ritníngarinnar myndugleika, svo að það fyllilega sýnir ramskakkt álit, ef nokkur hneixlar sig á því — beri menn þó saman þar við Matt. 10, 23. Mark. 16, 16. Matt. 5, 19. 1. Kor. 16, 22.

## §. 8.

Við þessar með skynsemi ómótmælanlegu röksemdir fyrir bókarinnar innvortis gildi, kynni menn enn framar að bæta niðurröðunar grundvellinum (Plan) í spádóminum, sem hann þekkjanlega með sèr ber. Allar þessar röksemdir eru fyrir mig sannfærandi, og að því eg hygg, fyrir hvern sannleiks kjæran — hverju er þá þó tapað, þótt eg trúi þeim? Guð hefur þó með engu gèfið mèr orsök til annars, eða hans forsjón hindrað það; ei heldur gètur nokkur viðvörun í mínum trúarbrögðum verið í móti því, þar eg á þó spádómunum að trúa. En, hvílíkur háski, ó Guð! hafi Jesús í raun opinberað sig, og fullvissað um sannleika spádómsins, að neita honum þá, eða efast um hann? Ein hin allra sterkasta af áðurnefndum röksemdum sýnist mèr þó sú vera, að rètt strax eptir þessa bók þraut eður tók fyrir alla spádóma; og finnist það, að Krists kyrkju tilfelli komi fram í bókinni, samkvæmt því, sem reynst hefir, er sjón allri sögu ríkari, svo ómögulega verður efast lengur. Það gæti þó enganveginn skèð, að nokkur stjórnarvizku-maður, villumaður, draumamaður, eða nokkur nokkurslags manneskja, heimsk eða hyggin, fengi samsett forspár, hversu tvíræðar sem væri, og framfært þær í þeirri röð, að þær hefðu orðið einasta líklega þýddar uppá samanhángandi tilburðaröð um mörg hundruð ára; miklu síður,

að þeir tilburðir hefði kunnað sýnast að koma svo fram í tiltekinni eður ákveðinni stjórn, t. d.: í kyrkjunni, hverrar tilfelli og breytíngar eru þær allra óvissustu og fjærlægustu mannlegum þánkagángs-myndunum; því fullreynt er það, að þess lengra maður freistar af eigin mannlegri skynsemi að skygnast fram í tíðina, þess meir smá-fjærlægist hann samhenginu í hlutanna gángi, svo að um síðir hlýtur gátan að verða öldúngis ólík því, sem í raun fram kèmur. Þar á móti verður spádómurinn efalaust að vera guðdómlegur (og allt annað er óþenkjanlegt), ef hann samstemmir því nákvæmlegar hinu ókomna, sem skèður, sem lengra kèmur fram á tíma. Þurfa menn þó ei þess að vænta, að nokkuð verði fullskilið eða útlagt af Opinb. bókinni, sem óframkomið er enn; því af henni er að sjá sem hið mikilvægasta sè ósèð; eigi heldur meiga menn ætla, að hún segi fyrir stjórnarbyltíngar, herskap og annan gáng veraldarinnar, hvað sèr í lagi, eður öðruvísi, enn að því leiti það hángir saman við kyrkjunnar og hins sanna kristinndóms innvortis ástand.

§. 9.

Hèr af munu menn sjá meiga, að ekki trúi eg á nokkra spádóma síðan opinberunarinnar tími var, og er viss um, að allir eiginlega kallaðir spádómar lyktuðust með henni; en svo er ekki með útleggíngu spádómanna; mun eg seinna sýna, að menn hafa til, að vænta þessara síðarnefndu framar hèr eptir enn híngað til. Menn munu sjá, að þó eg ekki með öllu neiti mögulegleika þess, að guðlegri forsjá hèr eptir þóknast kynni að gèfa einhverjum spádómsgáfu í því tilfelli, að það fèngi orðið hinni sönnu kyrkju til sèrlegra nota á hinum allra vandræðafyllstu tíðum; svo hygg eg þó, að ei yrði það öðruvísi, enn einsog útleggíng (stjórnuð af andanum, og vissari enn vorar nú um stundir) og nákvæmari ákvörðun þess, sem allareiðu er fyrirsagt af Kristi og í Opinberunarbókinni. Þvílíka enn óséða spámenn sýnist bókin sjálf að fyrirsegja 14. kap. 8, 9. v. Þar á móti útskúfa eg með öllu og forsmái alla pólítiska (stjórnarbyltíngar áhrærandi) spádóma, sem lát-

ið er sèu meira enn mannlegir, er hèr eptir kunna upp að koma, og alla aðra svo kallaða andlegri um veraldarinnar undirgáng og annað, sem eigi hafa sinn útþrykkilegan grundvöll í ritníngar spádómunum.

## §. 10.

En — segja menn — hví eru þessir spádómar svo myrkvir, og undir þvílíkum bílætum? Guð hefði gètað gjört þá enn þá nytsamari og haganlegri, með því, að gjöra þá vissari og ljósari, helzt öldúngis ómisskiljanlega, þar hann veit þó allt fyrirfram skírt og nákvæmlega, þá hefði mennirnir líka orðið betur varaðir við. Hèr upp á er hægt að svara mörgu með rökum. Myrkleikinn í spádómunum á að upphvetja kristna til að gjæta þeirra opt og nákvæmlega og bera þá saman, og þannig gjöra sèr alkunnugt það opinberaða orð og hafa sína lystíng í því. Láti þeir þetta ransóknar ómak fráfæla sig, hljóta þeir að vera yfrið skeytíngarlausir um Guðs orð, einkum þar manneskjurnar finna helztu ánægju í því, að uppgötva með fyrirhöfn, og skèrpa sinn eptirþánka með ransókn, og mundu lángtum minna virða ritnínguna, ef hún væri allstaðar auðskilin fyrir hverja heilbrigða manns skynsemi, án alls ómaks eður eptirleitni. Þær mundu ekki einusinni líta við henni, og enginn mundi álíta hana fyrir Guðs opinberun, hvað mèr sýnist ogsvo hún væri þá ekki. En þegar maður uppgötvar smámsaman með viðleitni og reynslunni háa og djúpa hluti, sem enginn maður gat gètið uppá af sjálfum sèr, og það reynist ásamt, að þau uppgötvuðu sannindi verða ei rekin eða felld, neyðast menn til að virða hana, og leggja sig eptir hennar lestri með eptirþánka. Einninn kann, vegna þess henni er þannig varið, sèrhver upplýstur kristinn að fá því betra tækifæri að styðja þann miður upplýsta; en allir kristnir hafa þar fyrir utan nógu greinilegt í ritníngunni, hvað til þeirra sáluhjálpar þarf. Að spádómarnir væri svo ljósir, að ei yrði þeir misskildir, væri annars berlega stríðandi í móti Guðs vísdómi og öllum mögulegleika. Þá hefði fyrir þá sannleikskjæru ekkèrt verið til

að ígrunda og uppspora, ekkèrt, sem festi þá, einsog vera ætti, við prófun ritníngarinnar, við aðhaldið til Guðs, og viðleitni að þóknast honum líka í því, að ransaka hans orð á freistíngatímanum; fyrir þá veiku og óttagjörnu hefði þá einkis verið að vænta, sem ei hefði legið í skírum spádómi. Hugsið einusinni hverju það kynni ollað hafa hjá margra handa manneskjum, ef allir hefði vitað, að á þeirra og þeirra barna dögum öllum óumflýanlega skyldi koma hið allrahræðilegasta ástand yfir veröldina! þeir óguðlegu og andvaralausu mundu máskè (og líkast) ekki trúa því, hvað ljós, sem spádómurinn væri, og þó þeir trýði því, mundu þeir ekki forðast glæpina fyrir það, og því síður af kjærleika til Guðs, sem er það einasta frelsis meðal; heldur hæða og lasta meira, og gjöra sig enn straffssekari með því, að forsmá það þeim væri svo ljóslega fyrirsagt. það samstemmir og enganveginn Guðs vísdómi, að manneskjan skuli hlýða honum einúngis af ótta, eður eigi gèta öðruvísi. Og nú — það, sem mótsegir sjálfu sèr. Ein manneskja skal ljóst vita fyrirfram alla ókomna hluti, og gjöra þó í móti vitund sinni; hlutir skulu verða fyrirsagðir með vissu, og þó verða hjákomist, og spádómarnir þessvegna ekki koma fram, þar það mótsegir sjálfu sèr, að Guð hafi vitað þann hlut fyrir með vissu, sem aldrei skèður. Annars er það ómögulegt fyrir skammsýnar manneskjur, að upptelja allar þær íllu afleiðíngar, sem af því hefði flotið, ef spádómarnir hefði verið ómisskiljanlegir. Látum blífa við engilsins orð, Dan. 12, 20.: „hinir óguðlegu munu ei skeyta þar um, en hinir skynsömu (það er þeir, sem óttast Guð) munu gjæta þess,“ og í 14. v.: „á síðustu tímum munu margir finna þar í mikinn vísdóm.“

## §. 11.

Spádómarnir eru þá eiginlega ritaðir til þess, að skiljast á vissum tíðum, þegar mannkynið hefir þess mesta þörf, og þó af þeim einum, sem vilja skilja þá sèr til gagns. þannig skildu valdensar með sannfæsíngu (vissu) sèr til ómetanlegrar styrkíngar, hvað hóran var; og á sínum tíma munu

sannkristnir með enn meiri vissu skilja — hvað dýrið af afgrunninum er; og hvers þeir meigi vænta sèr eptir þess fall; en hvorki páfinn, eða dýrið, eða þess áhángendur, hafa lyst til að skilja þessa spádóma, hversu ljósir, sem þeir sýnast meiga, og gèta það þessvegna ekki. Það er þannig til nytsemdar fyrir Guðs útvalda, að spádómarnir þèna, en ekki til að skèmta mannlegri forvitni; þeir gèta líka þènað hverjum einum til varúðar, sem vill virða þá, og leiðbeint hverjum, sem vill finna sig í Guðs stjórnun, og komast hjá því, sem miðar til spillíngar Guðs kyrkju.

§. 12.

Þó nú Opinberunarbókin sè óneitanlega canónisk og guðdómlegur spádómur, eru menn þó ei öldúngis samþykkir um, hvort hennar fyrirsagnir ná einúngis til Constantínus's daga, þá heiðna ofsóknarmenn kristninnar þraut, eða jafnvel til tímans enda. Hin fyrri meiníngin hefir við sig nær öll hin sömu vandræði, sem um er talað í 6. §, og þar fyrir utan sýnist uppfundin af óhreinum tilgángi, og hálfvegis til að takmarka Guðs alvizku um seinni tíðirnar, og vera þannig til engra annara nota, enn að neita spádóminum um lángan varanlegleika, sem vorra tíða manneskjum sýnist ekki æskilegur; jafnvel þó að sömu guðdómlega alvizku þyrfti á Jóhannesar dögum til að fyrirsegja kyrkjunnar ástand til Constantíns tíma, sem til heims enda. Hin önnur hefir þess meiri líkindi fyrir sèr, því á þann hátt verður ritníngin hin fyrsta og síðastu frásögn um Guðs hússtjórn yfir mönnunum; á þann hátt yfirgèfur Kristur sízt sína kyrkju í óvissu; á þann hátt vegsamast Guðs forsjón og dýrð mest, og allt hvað, sem þar til þènar, gèta menn haldið röksemd fyrir sjálfsögðum sannleika; og á þann hátt verður öll bókin auðveldast útlögð, án þess menn þurfi að komast í vandræði með tilburðanna röð, og aptur og aptur blanda saman því fyrsta og síðasta.

Víkjum nú til bókarinnar sjálfrar.

# Byrjun útskýríngarinnar.

## Fyrsta Deild.

§. 13.

Byrjun þessarar ritníngarinnar síðustu bókar, og, að minni ætlan, allrar Biblíunnar innsiglis, hljóðar þá þannig: *)

### 1. kapítuli.

„1. vers: þessi er opinberan Jesú Kristí, hverja Guð gaf „honum til að sýna þjónum sínum þá hluti, er skè skulu „innan skamms, og hann útskýrði það, með því, að hann „sendi boð með engli sínum, Jóhannesi, sínum þènara.“

§. 14.

Útskýríng á þessu er ekki vönd; Jesús Kristur hafði enn nú aldrei sem þekkjanlegur Guðs sonur opinberað af himni söfnuði sínum, hvað fyrir honum lá; það gaf Guð honum nú. það sýnist nauðsynlegt, að svo hafi orðið að vera. Hann átti kyrkjuna og var hennar hyrðir, því sýndist sem hann ætti ekki að láta hana vera í æfinlegri óvissu um það fyrir henni lagi, jafnvel undir stærstu freistíngum, nú þegar hans mannlega náttúra var af nákvæmustu sameiníngu við guðdóminn, alvís; sterk röksemd er það fyrir bókarinnar guðdómlegleika. Varla hefði neinn vogað að dikta þessu eður nokkru öðru í henni, og enn síður hefði Guð liðið, að slík ósönn sögn um hans verk skyldi sífeldlega viðhaldast, án þess að sýna hver hún var. Opinberanin er gèfin sem Jesú sjálfs orð, hvar engillinn og Jóhannes voru alleina verkfæri til að kunngjöra hana Krists þjónum, ekki Jóhannesi einum, en enganveginn hinum óguðlegu, hvað innan skamms skyldi skè. Um það hefir Michaelis gjört ýmsar athugasemdir, og því eigi trúað, að bókin væri canónisk, enn síður skrifuð eptir Nerons daga, eður tæki lengra enn til Jerúsalems eyðileggíngar,

*) Allstaðar í bók þessari er textinn settur dálítið innar enn útskýríngin, og tilvitnunarmerki sett fyrir framan hann og aptan, til aðgreiníngar.

að það átti innan skamms að skè. En hvað marklaus sú hans röksemd er, sjá menn ei alleina þar af, að postularnir köll-uðu innan skamms, og á síðustu tímum, hvað, sem átti að skè á kristinndómsins tímabili, einkum þángað til kristinndóms-ins óvinir fèlli; heldur og, hvar til hèr er sèrílagi bendt, tóku spádómarnir að uppfyllast mjög stuttu eptir postulanna daga. Jafnvel þeir allsháttaðir kristinndómsins óvinir, sem bókin tal-ar um gjörvöll, tóku allareiðu að sýna sig á annari Krists öld.

§. 15.

„2. v.: Hver vitnað hefir um það Guðs orð, og vitnisburðinn „Jesú Kristí, og um það, hvað helzt hann hefir sèð.“

Hèr skil eg ekki betur enn að postulinn Jóhannes einkènni sig á sinn venjulega kyrrláta hátt og með því orðatiltæki hann plagar.

§. 16.

„3. v.: Sæll er sá, sem les, og þeir, sem heyra, spádómsorð-„in, og varðveita þá hluti, sem skrifaðir eru í honum, því „tíminn er nálægur.“

Hafi Kristur og hans postuli sagt, að sá væri sæll, sem læsi og heyrði spádóminn, og legði hann sèr á hjarta, því tíminn væri nálægur, nefnilega: þegar allrahanda kristinndóms óvinir mundu sýna sig, hvað og ætíð hefir viðhaldist, og tíminn er þessvegna ætíð öllum kristnum nálægur: — þá verða þeir að ljúga, sem ekki vilja lesa Opinberunarbókina, og ekki ran-saka hana, og ráða frá því öðrum. Bengel, sem eg fèkk að sjá, laungu eptir það þetta var ritað, hefir vel sýnt ofaná, hvað afsökunarlaust og óguðlegt slíkt hyrðuleysi er, og hvert skynsemdarleysi, og að jafnvel látaláta-hlífni þeirra, sem telja sèr ófært að prófa svo háa hluti, jafnvel þegar mest áríður og hafna þanninn sjálfs Jesú innboði í helgidóminn, er fásinna grundvallarlaus, Hèr um meira síðan.

§. 17.

„4. v.: Jóhannes heilsar þeim 7 samkundum, sem eru á Asíu;

„náð sè með yður og friður af þeim, sem er, og þeim, „sem var, og þeim sem kèmur, og af þeim sjö öndum, sem „eru fyrir hans stóli.“

Michaelis hefir að vísu furðað sig yfir, að Jóhannes skrifaði ekki heldur til Rómverja, sem opinberunarinnar innihald gjæti þókt enn nákvæmlegar viðkoma; en eg sè ekkèrt í því. Hinir seinni Rómverjar, sem spádómurinn gat viðkomið, ef Michaelis hefði trúað hann næði svo lángt, gátu ekkèrt meira lært af því, þó hann hefði verið tilskrifaður forfeðrum þeirra. er hann kom ekki eiginlega við, enn Asíu mönnum, því bókin varð bráðt almenn í kristninni; og þarmeð var Jóhannes umsjónarmaður við hina asiatisku söfnuði, ekki í Róm.

Sitt brèf byrjar hann einsog hinir aðrir postular, þvínær með sömu orðtækjum; en þá sjö anda fyrir Guðs hásæti, hverjum hann eignar guðdómlega dýrð, mun aldrei nokkur skynsamur maður álíta fyrir annað enn þann á margan hátt verkandi heilaga Anda; mèr sýnist orðatiltækið hátignarfullt, og ekki svo undarlegt, nema maður vilji kalla sjötalið svo, sem er heilög tala, og eiginlega viss í stað óvissrar, og þýðir það, sem margt er. En af því hún fyrirkèmur opt í þeirri guðdómlegu tíðar ákvörðun, og einkum í þessari bók, verður hún ásamt að álítast að benda til kristinndómsins hvíldar, og Krists sèrdeilis stjórnarárs. Það, sem útgengur af Guðs veru, er náttúrlega afmálað, að sè fyrir hans hásæti.

## §. 18.

„4. og 5. v.: Og af Jesú Kristó, sem er sá trúfasti vottur, „hinn frumgètni af framliðnum, og herra jarðarinnar kon„únga, þeim, sem elskaði oss, og þvoði oss af vorum synd„um með sínu blóði.“

Aptur, einsog Pálus og aðrir postular, óskar hann friðar af Jesú Kristó strax eptir Guð, einsog af manni hluttakandi í guðdóminum. Allt hvað hann segir um hann, samstemmir nákvæmlega með því, sem postulinn Jóhannes segir í öðrum stöðum; orðtökin eru hin sömu, og finnast varla hjá öðrum enn

honum. Einúngis herra jarðarinnar konúnga er hèr viðbætt, vegna þess tilefnis, sem síðan kèmur fyrir í bókinni.

§. 19.

„6. v.: Og hann hefir gjört oss að konúngum og prestum „fyrir Guði og sínum föður; honum sè dýrð og kraptur um „alla eilífð, Amen!"

Að hann hefir gjört oss að konúngum og prestum fyrir Guði, kann hver útleggja sem líkar; sú andlega meiníng þar í er auðskilin; en hvað framar, er enn ókunnugt; samt hefir bókin vissulega tillit til enda síns. Hvort nú Jesú hèr er eignuð dýrðin og krapturinn, eða Guði föður, svo að þau orð bendi til hinna næst undanförnu, verður allt hið sama. Enginn nema Guð, eða sá, sem verkar í sameiníngu með honum, gètur gjört oss að konúngum og prestum fyrir honum, og það er hèr sagt, að Jesús hafi gjört, svo það fellur eiginlegast, að honum sè hèr eignuð dýrðin.

§. 20.

„7. v.: Sjá! hann kèmur með skýunum, og hvert auga mun „sjá hann, og þeir, sem hann í gègnumstúngu; og allar „kynkvíslir jarðarinnar munu æpa: „„já, Amen!""

Samlíkíngarnar eru teknar af ritníngunni um Krists dóm; þeir, sem í gègnumstúngu hann, eru ei einúngis þeir, sem krossfestu hann líkamlega, heldur allir þeir, sem hann hæða; þessir finnast meðal allra jarðarinnar kynkvísla, sem Dankell rèttilega grein á gjörir, og kallast allstaðar jarðarinnar fólk, og einkum í þessari bók, óguðlegar, jarðlega sinnaðar manneskjur. Allt hefir þekkjanlega lengra tillit enn til Gyðíngalands. „Já, Amen!" en hèr væntanlega ekkèrt annað enn: þetta er óbrigðult.

§. 21.

„8. v.: Eg er alpha og omega, upphaf og endir, sá, sem er, „og sá, sem var, og sá, sem kèmur, hinn almáttugi."

segir Drottinn Guð, stendur í sumum textum, það er sjálfsagt,

er hèr framber engillinn Guðs Sonar orð, því fellur um sjálft sig það, sem Michaelis segir, að hans guðdómlega náttúra sè aldrei nefnd í bókinni; hèr stendur það, og í 6. versi, og, sem mèr sýnist, gègnum alla bókina. Vèr fáum að sjá, hvort það ekki enn fyrir kèmur nógu greinilega.

§. 22.

„9. v.: Eg Jóhannes, sem einnig er yðar bróðir, og hlut-
„takari í fángelsinu og ríkinu, og í þolinnmæði Jesú Kristí,
„var á eyu þeirri, sem kallast Pathmos, fyrir Guðs orð,
„og fyrir Jesú Kristí vitnisburðar sakir."

Allt vel skiljanlegt, og samstemma með sögnunum um ofsóknina, þegar Domitianus var keisari.

§. 23.

„10. v.: Eg var í anda á Drottins degi, og heyrði að baki
„mèr rödd mikla, sem einnar básúnu."

Ekkèrt verður móti haft, að sönn og þekkjanleg opinberun frá guðdóminum kunni þannig að byrjast. Opinberist Guð fyrir nokkrum, gjörir hann það víst, svo auðsýnilega, að það verður ekki efað, en í holdlegu ásigkomulagi gètur manneskjan þá ekki verið; sá partur hennar, sem er andi, hin innsta grundvallarvera í henni, hlýtur þá verulega að sjá, en ekki það, sem útvortis er af líkamlegum augum; eður mun ekki hin skírasta og greinilegasta sjón vera inni í sálunni sjálfri? Annars veit eg ekki hvort manneskjan í þessum líkama gètur sèð andlega og ókomna hluti nema í bílætum, og máskè það sè orsökin, hvar fyrir opinberanir eru á þann hátt skènar, að hinn jarðneski líkami hindri öðruvísi sjón. Af þessari bílætasjón hafa menn nokkur spor í draumunum, og við fleiri náttúrleg tækifæri; einasta með þeim mismun, að hún er þar trubluð; en vilji Guð opinbera nokkuð, svo er allt greinilegt, þekkjanlegt og óefanlegt, að það er frá honum.

Mannsins náttúra gètur þar fyrir af sjálfri sèr tekið á móti slíkum sjónum, ef Guð vill, að hann sjái þær. Sú meiníng, sem þar er á móti, hefur enga röksemd nema þessa:

hvað eg skil ekki, gètur ei, þó Guð segði það, verulegt verið, og Guð gètur heldur ekkèrt opinberað, fyrst eg skil ekki mátann þartil. Eg veit þó hvað Guð gètur og gètur ekki!!

§. 24.

„11. v.: Hún sagði: eg er alpha og omega, hinn fyrsti og „síðasti, og það, sem þú sèr, það skrifa þú í eina bók, og „send það til þeirra safnaða, sem eru á Asíu, til Ephe- „sus, og til Smyrna, og til Pergamus, og til Thýa- „tíru, og til Sardes, og til Philadelphíu, og til Laó- „díceu."

Titillinn, sem Kristur gèfur sèr (því strax eptir sèst, að hann er; sem talar), er hèr fullkomlega guðdómlegur, öðruvís enn Michaelis hefir sagt; hann ákvarðar, til hverra safnaða opinberanin skuli sendast, sumpart af því þeir komu Jóhannesi við, og að sumu leiti, sem sýnist, að þeir eptir þeirri röð (sem — hvað sèrlegt er, ekki fylgja venjuröð landaskipunar — að mælt er), í hverri þeim var tilskrifað, voru í þáverandi ástandi hentugar fyrirmyndanir tímabilanna í kristninni. Meðan þessi brèf voru í burtsendíngu og tilbúin, þurfti Jóhannes engar bílæta hugmyndir að sjá, því á meðan var ei um að gjöra fjærlæga ókomna hluti, heldur opinberaðist Kristur honum á þann hátt, er hann fann haganlegan.

§. 25.

„12. v.: Og eg snèri mèr við, til að líta eptir þeirri raust, „sem til mín talaði; og þá eg snèri mèr, leit eg sjö ljósa- „stikur gullnar."

Þessar skyldi merkja söfnuðina.

§. 26.

„13. v.: Og miðt í meðal þeirra sjö ljósastjaka nokkurn, er „líkur var einum mannsins syni, og var klæddur síðum kyrtli, „og girðtur kríngum brjóstið gullnu belti."

Bílætið er mjög samkvæmt þeirri mynd, undir hverri sá hafði opinberast á gamla Testamentisdögum, sem haldinn var Guðs sonur; beltið virðist merkja konúngstign.

§. 27.

„14. v.: Og hans höfuð og hár voru hvít sem ull, sem snjór, „og hans augu sem eldslogi.“

Michaelis furðar sig á, hví hár hans fyrirkèmur sem gamals manns; en fyrir utan um að tala, að ef hann þá tíð hefði lifað á jörðunni, hefði hann verið all gamall, hvað vekja mátti hina nálægustu tilhugsun, þá merkir hið hvíta hár: sakleysi, tign og vísdóm, er víst verður helzta orsökin, hvar fyrir hann sýndi sig þanninn. Muldum ísi eður silfursandi er og gamals manns hár líkara enn ullu eða snjó. — En að hans augu voru sem eldslogi, þykir nefndum Michaelis enn sèrlegra, og ei samkvæmt ljóma hans andlitis, er síðan talast um; þó skyldi hann aðgjætt hafa, að hèr er talað um blossa logans og ekki eiginnlega lit hans, því þó hitt annað andlitið skini sem sólin, mátti eigi samlíkja hentuglegar augunum að hvassleikanum til við neitt heldur enn blossa eldsins; ljómi þeirra hefir ei þarfyrir verið minni enn andlitsins, en öðruvísi; varð við ekkèrt líkt meira skínandi enn sólina, og þó hefir Jóhannes gætt augnanna, en fundið ekki mannleg orð til að útmála þeirra eiginlega lit. Þetta er og því síður undraverðt, að menn vita, að sjáaldrið í augunum er ekki svo hvítt sem andlitið, þó skjærara sè og þó á annan hátt.

§. 28.

„15. v.: Og hans fætur voru sem fagurt látún glóandi í ofni, „og hans rödd sem margra vatna hljóð.“

Útleggíngar hèr yfir eru margar heppilega gjörðar, en allt er hátignarlegt, og líkt þvílíkum sjónum á dögum gamla Testamentisins.

§, 29.

„16.v.: Og hann hafði sjö stjörnur í sinni hægri hendi og þar út„gèkk tvíeggjað sverð af hans munni, og hans ásjána var „sem sólin, þá hún skín í krapti.“

Sjö stjörnur merkja marga lærendur, helzt í þeim tilteknu sjö söfnuðum; sverðið er Guðs orð.

§. 30.

„17. v.: Og sem eg sá hann, fèll eg niður fyrir hans fætur
„sem dauður, og hann lagði sína hægri hönd á mig og sagði
„til mín: hræðst þú ekki; eg er hinn fyrsti og hinn síðasti.“
Tilburðirnir eru einsog við fleiri þvílíkar háar sjónir; og titillinn, sem Kristur tilleggur sèr, er guðdómlegur.

§. 31.

„18. v.: Og sá lifandi, og eg var dauður, og sjá! eg lifi um
„alla eilífð; og eg hefi helvítis og dauðans lykla.“
Auðskilið.

§. 32.

„19. v.: Skrifa þá hluti, sem þú hefir sèð; þá hluti, sem eru,
„og þá hluti, sem eptir þessa skulu skè.“
þeir hlutir, sem eru, viðkoma aðvörunum þeim, er Jóhannes skyldi söfnuðunum gèfa, en þeir, sem skè skyldi; til spádómsins um eptirkomandi tíðir.

§. 33.

„20. v.: Sá leyndardómur þeirra sjö stjarna, er þú hefir sèð
„í minni hægri hendi, og þeirra sjö gullnu ljósastjaka, þær
„sjö stjörnur eru þeirra sjö safnaða englar, og þeir sjö ljós-
„astjakar eru þeir sjö söfnuðir.“
Leyndardómur var við stjörnurnar, þær verða þá að teikna nokkuð meira enn einúngis þá umtöluðu safnaðaengla. þeirra næsta merkíng var að sönnu afmálan þessara, en nokkuð meira verður þar að vera undirfólgið, annars væri það enginn leyndardómur; hvað gæti það þá verið annað enn ýmisleg tímabil í kristninni, sem líktist þessum englum og þessum söfnuðum, og samstemmdi þeim eptir þeirri röð, sem þeir eru taldir í? Michaelis hefir neitað þessu, þó að margir útleggendur hafi samþykkst því, en mèr sýnist það orsakalaust; enda er hann óheppnari í sinni útleggíngu yfir Opinberunarbókina, enn á nokkrum öðrum stað, og það vegna hleypidómsins, sem hann hafði í móti hennar spádómi, hvarfyrir hann heldur ekki get-

ur komist út af henni. Mèr sýnist ekkèrt á móti, að ástand þeirra sjö safnaða sè á undann sett, sem inngángur bókarinnar, og fyrirmyndun tímanna í kristninni; fyrir það, að það verður lángtum samkvæmara regluundirlagi, að bókin sè skrifuð til þeirra; en þará móti hefði það orðið ólaglegur eður miður hæfandi samsetníngur af tveimur ólíkum efnum: aðvaranir fyrir safnaðina á Asíu fyrir utan nokkurt tillit til eptirfylgjandi spádóms, og spádómurinn sjálfur; og bókin hefði þá haft miklu minni undirlagsreglu, og minni samstemmu við sjálfa sig. Að það í raun sè svo, að safnaðanna ástand bendi til seinni tíða, verður þar að auki sannað með því, sem tíðirnar hafa sýnt með reynslunni; en að brèfin hafi þarhjá sèrdeilis tillit til safnaðanna egin ástands, neitar enginn.[1] Safnað-

---

[1]) Eptir það eg hafði ritað fyrsta uppkast þessarar tilraunar, svo vel, sem mín gèta leyfði, og að eg hèldt, með viðleitni til Guðs dýrðar, og ekki ósamkvæmt sjálfu sèr, hugleiddi eg, að öll mín stuðníngsmeðöl þartil höfðu verið: það, sem eg mundi af Newton, Dankell, Guldbergs Nýa Testament og minn eginn eptirþánki, má og nefna einn vissan, í mínum þaunkum æði frekutrúarsaman (Sværmersk) Kelber; og þá mèr var þarhjá kunnugt, að Newton og sjálfur Dankell hèldu ekki eitt með mèr um höfuðknút bókarinnar, og vissi af því, að einn eður annar, sem lesa kann mína tilraun, og þó ekki er eða vill vera vantrúaður, kynni óska að sjá fleiri lærðar útleggíngar enn mína (sem varla getur svo heitið), og hvers í þeim er tilgetið, bæði til að gjöra sig efalausa um hvað vissast eða meðtækilegast væri og líka finna hver merkilegur mismunur í álitinu þaraf kynni fljóta, þá hefi eg ekki einungis álitið slíkt hrósverðt, heldur einnig til að fullnægja þeirra manna eptirlaungun, beðið lærðan vin um, og fengið hjá hönum þekkíngu um þær helztu útleggíngar, sem var að fá, og þær innhentust mèr í upphafi ársins 1831, hvaraf það helzta er ágrip af Thómasi Williams í hans Biblíu-útleggíngu prentaðri 1827, sem og þarí er merkileg, að þessi lærði maður talar um þá fleiri útleggjara Opinberunarbókarinnar, sem hann þekkir, svo að trúlegt er, að enginn sè fjöldi þeirra, sem ekki hneigjast að einhverri þeirri meiníngu, mèr nú er orðin kunnug. — Williams og þeir honum fylga, sýnast annars að miklu leiti fylgja vissum fyrir laungu kunnugum flokki, en þó með nokkurri varfærni, og án þess það rekið sè; og þar nú þessir lærðu menn, og þeir ensku yfirhöfuð,

annaengla útleggur Michaelis fyrir þeirraboðbera eða djákna, heldur enn eginnlega lærendur, hver einn mun sjá með hvað gildri röksemd; en um það skipti eg mèr ekki, það kèmur ekkèrt við minni tilætlun.

---

mismuna nær því ekkert í grundvellinum frá mínu áliti ; allt að því tímabili, þá kèmur til um dýrið af afgrunninum, get eg verið fáorður í þeim samanburði, af hverjum eg vil seinna meir smámsaman í þessum bókstafasettu athugasemdum framsetja það helzta. Hèr vil eg einúngis minnast á, að Williams skiptir bókarinnar kapítulum í Lectionir (lestra), og í fyrstu Lection af 1ta kapítula, áhrærandi Kristí þar umtalaða guðdóm, kèmur okkur að öllu saman. Í hinni annari nefnir hann Fullers meiníngu, að Opinberunarbókarinnar innihald byrjist frá Kristí upprisu; hvað að sönnu er eintóm gáta, er eg hyggst vera búinn að vísa á rèttari veg, en breytir þó engu í minni tímabils ákvörðun í 69da §. hèreptir, þó það væri satt, því mest kèmur upp á þeirrar tíðar enda. En það, sem að því hnígur, að rithöfundurinn (Williams) heldur ei áreiðanlegt, að brèfin til þeirra sjö safnaða merki sjö mismunandi tímabil í kristninni, helzt þar seinasta söfnuðinum sè verst lýst, í staðinn fyrir, að þá verði það sæla þúsund ára ríki (sjá! í þessu vanda atriði eru þó allir hinir ensku mèr samþykkir), þá hefir eg, laungu áður enn eg sá þennann fyrirslátt, greinilega svarað honum í áðurnefndum 33ja §., og svara honum framvegis, allt til hins 63ja, og sèrdeilis í þeim síðastnefnda, ásamt með þeirri athugasemd, að hversu nákvæmlega, sem brèfin svara til tímabila kristninnar, gèta þau þó, sem inngángur til spádómsins eintómur, ekki náð lengra fram í tíman með sínar fyrirmyndanir, enn safnaðanna ástand, sem þau sèrdeilis viðkoma, leyfði, allra síst til þúsund ára ríkisins, hverju enginn af þeim asiatisku söfnuðum var líkur, og hvert í sjálfu sèr ekki heldur verður líkt neinni annari tíð í hinni stríðandi kyrkju. Eg hefir aldrei uppástaðið, að brèfin væru partur af sjálfum spádóminum, heldur alleinasta í nákvæmasta sambandi við hann, og finn þarfyrir ekkèrt framar verðt á að minnast, um þessar, að mínu áliti, ómerkilegu mótsagnir. Samt, þá eg laungu seinna fæ Bengel að sjá, merki eg, að hann er ogsvo á þessu máli, að brèfin til safnaðanna hafi ekkèrt tillit til tímabila kristninnar, og ræður það af nokkrum röksemdum, sem mèr sýnast lítt merkilegar; held eg því allsvegna við það eg hefi áður sagt, og meina mig það einninn fullsannað hafa í 47. §, og með mörgum líkindum, sem fleiri munu og fundið hafa, og allir historíufróðir enn finna.

## 2. kapítuli.

§. 34.

Áður eg hræri við hinum öðrum kapítula og brèfunum til safnaðanna, verður nauðsynlegt að minnast á, að Dankell hefir útlagt opinberunina á mjög sèrlegan hátt, nefnilega þanninn, að innsiglin, sem fyrirkoma í henni, englarnir, sem básúna, og brèfin til safnaða englanna, hvar af hvert um sig er sjö að tölu, gèngur allt samsíðis hjá honum; og á þann máta, sem þó mun hafa kostað hann mesta ómak að uppfinna og heimfæra, kèmst hann furðanlega vel út úr flestum tilburðum í kristninni, og sumpart samstemmandi spádóminum. Samt, jafnvel þo lèttara kynni sýnast að sameina tilburði með spádómum einhvernveginn, þegar svo breiður vegur er valinn, að gjöra þrennslags útfærslur samsíða (sem hann þó ekki hefir gjört í þeim tilgángi, að lètta sèr ómak, heldur fallið uppá það af þeirri samstemmandi sjö tölu), þá sýnist þó, að hann sumstaðar hafi orðið að grípa til allt of smámunalegra meiníngadeilda, til þess, að þær líklega gjæti verið málaðar í svo miklum og merkilegum spádómi, og fleiri slags, einúngis andlegra, heimfærsla, enn þörf var á, til þess hann gjæti náð sínu augnamiði; enn þótt forþènustu hans, og ástundun í að útleggja Opinberunarbókina, sè ei að misvirða. Newton hefir gèngið meira beint til verks, og að ótaldri þeirri orsakalausu gátu, að byrja með spádómsins uppfyllíngu strax eptir Nerons daga, og ýmislegum, heldur veraldlegum, útleggíngum, brotið allvel ísinn í mörgu tilliti. Báðir fara þeir án efa skakkt, einsog allir aðrir eldri útleggjarar, í því, að heimfæra spádómsins seinni part einúngis uppá páfann og páfadóminn; en Guldberg var það geymt, að uppgötva þann mikla mismun í milli páfadómsins og dýrsins af afgrunninu. Eg gèt ekki haldið með Dankell í því, að láta þrennslags undirstöðudeildir gánga samsíðis, og fylgi heldur þarí öðrum, því hversu myrk, sem bókin er, ætla og þó að hún gángi einfaldlegar framm enn svo — einúngis skeniskt, eður með atriðum eins og Guldberg segir — en að hún fari svoleiðis

yfir sömu tímana optar undir ýmsum blæum eður mismunandi, trúi eg ei; og vil sjá til, hvort hún gètur ekki gengið fram reglulega, og þó sagt fyrir tilburðina í tímaröð, og það þanninn, að flestir verði þeir merkilegri og verðugri til að segjast fyrirfram, enn smá-þrætur í kyrkjunni. Lukkist það, gèta menn sèð, að það er ekki af hendíngu, að tímarnir fylgja hver öðrum á þann hátt, jafnvel þó bókin ekki sýnist að hafa mikið að segja um miðaldirnar frá sjöttu til fimtándu aldar, utan sem ágrip, sem ei var heldur von, um svo myrkar og verkunarlitlar tíðir í tilliti kristninnar, þá allar umbreytíngar í hennar ástandi skorti. Það einúngis verður maður að hafa sèr geymt, að útleggja í atriðum (flokkum tilburða) t. d.: gánga á einstöku stöðum, þegar nýtt efni kèmur, sem heimtir það, nokkuð til baka í tímanum, til þess að byrja nýtt atriði, þegar hið fyrra er úti; því hafi bókin framgángsrök með spádóminn (Plan), verður hún að vera eins í því og mörg vel skráð historíurit, að binda sig ekki ofríkt við áraraðir, því við það blandast tilburðirnir saman, og vefjast hverjir í aðra, jafnvel þó sèu af ólíku eðli, og sýnist það jafnvel vera enn óviðurkvæmilegra í spádómi enn sögu. Vèr víkjum nú fyrst til brèfanna, sem eg kalla inngáng og fyrirmyndun alls spádómsins, í gègnum flest, en þó ekki öll, kristninnar historíu-tímabil.

## §. 35.

„1. vers.: Og englinum safnaðarins í Ephesusborg skrifa „þú: þetta segir sá, sem heldur þeim sjö stjörnum i sinni „hægri hendi, sá sem gèngur miðt í meðal þeirra sjö gullnu „ljósastjaka."

„2. v.: Eg veit þín verk, og þitt erfiði, og þína þolinmæði, „að þú kannt ekki að umlíða hina vondu, og freistaðir „þeirra, sem segja sig að vera postula, og eru það ei, og „þú hefir fundið, að þeir voru lygarar."

„3. v.: Og þú hefir liðið og iðjað fyrir míns nafns sakir, og „þreyttist ekki."

„4. v.: En eg hefi þetta í móti þèr, að þú hefir yfirgèfið „hinn fyrsta kjærleika."

„5. v.: Minnst á hvar frá þú ert fallinn, umvend þèr og „gjör hin fyrri verkin; ef ekki, mun eg bráðlega koma til „þín, og burt flytja ljósastiku þína úr sínum stað, ef þú „umvendist ekki."

„6. v.: Það hefir þú, að þú hatar verk þeirra Nicólaíta, „hver eg einnig hata."

„7. v.: Hver eyru hefir, hann heyri hvað Andinn segir sam„kundunum; hverjum, sem yfirvinnur, þeim vil eg gèfa að „eta af lífstrènu, sem er miðt í Guðs Paradís."

Merkilegt er hèr meðal annars, að Jesús hrósar þess þolinmæði, sem ekki kann að umlíða þá vondu, m. m., það gètur þá ekki verið rèttskikkuð þolinmæði, að vera jafngildur í tilliti þeirra og falslærdóms. Annars er hægt að koma þessum versum saman við fyrsta innsiglið, einsog Dankell gjörir, af því brèfið, þó það eiginlegast eigi við söfnuðinn í Ephesusborg, kèmur allvel saman við hið fyrsta tímabil kristninnar, hvar til eg hefi áður sagt orsökina. Menn þurfa ekki lengi að aðgjæta hinna fyrstu kristnu framferði, líðanir, kyrkju-aga og þá spillíngu, sem innlæddist í annari og þriðju öld, fyrr enn maður finnur líkínguna, jafnvel þó þetta heyri ekki til hins eiginlega spádóms í bókinni, nema sem formáli.

## §. 36.

„8. v.: Og samkundunnar engli í Smyrna skrifa þú: þetta „segir sá hinn fyrsti og síðasti, sem var dauður, og er „orðinn lifandi."

„9. v.: Eg veit þín verk, og þreyngíngu og örbyrgð, (þó ertu „auðugur) og lastan þeirra, sem segja sig vera Gyðínga, „en eru þó ekki, heldur eru þeir sötnuður satans."

„10. v.: Hræðstu ekki þá hluti, sem þú átt að líða, sjá! „djöfullinn mun kasta nokkrum af yður í dyblissu, uppá „það þèr verðið reyndir, og þèr munuð hafa þreyngíngu í „10 daga; vertu trúr til enda, þá vil eg gèfa þèr lífsins kórónu."

„11. v.: Hver, sem hefir eyru, sá heyri hvað Andinn segir „söfnuðunum; þann, sem yfirvinnur, skal ekkèrt íllt skè af „hinum öðrum dauða."

Hinn fyrsti og hinn síðasti hèr í 8. v. og annarstaðar, verður einúngis sagt um hinn eilífa Guð, og er skírt sagt um Jesús.

Hvað í 9. v. fylgir, má, einsog það eptirkomandi, nákvæmast hafa komið við söfnuðinum í Smyrna, en hversu samkvæmt er það ekki líka allri kristninni í þriðju öld? þá lètust og margir vera kristnir, sem voru kristinndómsins sanna mótstandara söfnuður; því þessir sjálfhyggnu villumenn gjörðu honum ekki litla hneixlun og óorð. Mundi Kristur ekki finna marga þvílíka nú í kyrkjunni? Hið 10. vers kèmur mjög nærri ofsóknunum á þeim dögum, og sèrílagi þeirra 10 daga þreyngíng samstemmir hinni síðustu 10 ára ofsókn, sè dagur tekinn fyrir ár, sem spádóms-venja er.

## §. 37.

„12. v.: Og safnaðarins engli í Pergamó skrifa þú: þetta „segir sá, sem hefir það hvassa tvíeggjaða sverð;

„13. v.: eg veit þín verk, og hvar þú býr, þar sem satans „hásæti er, og þú heldur fast við mitt nafn, og afneitaðir „ekki minni trú, einnig á þeim dögum, þá Antípas minn „trúr vottur var, sem var deyddur hjá yður, þar satan býr."

„14. v.: En eg hefir nokkra fáa hluti á móti þèr, að þú hefir „þá þar, sem halda fast við lærdóm Balaams, er kènndi „Balak að kasta hneixlun fyrir Israels börn, að eta af- „guða-offur og fremja hórdóma."

„15. v.: Líka hefir þú og þá, sem halda fast við Nicóla- „íta lærdóma, sem eg hata."

„16. v.: Umvend þèr, en ef ei, þá mun eg skjótt koma til „þín, og berjast við þá með sverði míns munns."

„17. v.: Hver, sem hefir eyru, sá heyri hvað Andinn segir „söfnuðunum — hverjum, sem yfirvinnur, þeim vil eg gèfa „að eta af hinu fólgna manna, og eg vil gèfa honum góð- „an vitnisburð, og með honum nýtt nafn, skrifað, sem eng- „inn þekkir nema sá, sem meðtekur það."

Allt hlýtur væntanlega nákvæmast að eiga heima hjá söfnuðinum í Pergamus, en hinnar fyrstu aldar kyrkjusaga er með öllu ófullkomin, fráteknu fyrsta hluta af athöfnum postul-

anna. Það á líka ágjætlega heima hjá tímabilinu milli 314 og 476, þá hið vestlæga rómverska ríki gèkk til grunna, og máskè enn lengra ofan í tíðirnar. Satans hásæti var í hinu heiðna rómverska ríki meðan ofsóknirnar vöruðu, og á Júlíanus dögum, og smámunalega hvassorðir, ókristilega þenkjandi hárklofníngamenn, er villumenn kallast, hèldu áfram að vekja óróa og þrætur; en rèttkristnir hèldu við trúna. Antípas gètur merkt rèttskikkaða lærendur, sem þá voru ofsóktir og sumir drepnir; en Balaams lærdómur hinn andlega hórdóm, hjátrú og afguðadýrkun á helgum mönnum og helguðum hlutum, er þá tók að læðast inn; og Nicólaíta lærdómur klerkdómsins vaxandi sjálfhelgi, hofmóð, og ógipta og sumpart óskírlífa stand; — „hver, sem hefir eyru að heyra,“ er Kristí eiginn talsháttur, sem aðrir, er prèdika sinn eiginn vísdóm, hafa ekki minnsta rètt til að taka sèr í munn.

§. 38.

„18. v.: Og skrifa þú til safnaðarins-engils í Thýatíru: „Þessa hluti segir Guðs sonur, sá augu hefir sem eldsloga, „og hans fætur sem skjært látún.“

„19. v.: Eg veit þín verk, þinn kjærleika, þiónustu og trú „og þolinmæði, og hin síðustu verkin meiri enn hin fyrstu.“

„20. v.: En eg hefir nokkra fáa hluti á móti þèr, að þú „lætur þá konu Jessabel, sem segir sig vera spákonu, „kènna, og villa mína þjóna hórdóma að drýgja, og eta „afguðafórnir.“

„21. v.: Og eg hefir gèfið henni tíma, að hún skyldi umvenda „sèr frá hennar hórdómum, og hún hefir ekki umvendt sèr.“

„22. v.: Sjá! eg kasta henni í rekkju, og þeim, sem með „henni hórdóm fremja, í mikla þreyngíngu, ef þeir ekki „umvenda sèr frá þeirra verkum.“

„23. v.: Og hennar börn vil eg dauða deyða, og allir söfn„uðir skulu meðkènna, að eg er hjartna og nýrna rannsakari, „og eg vil gjalda hverjum einum af yður eptir yðar verkum.“

„24. v.: En yður segi eg, og hinum öðrum, sem eru í Thýa„tíru, sem ekki hafa þennan lærdóm, og ekki hafa þekkt

„djúp satans (sem menn segja), ei vil eg öðrum þúnga „kasta á yður."
„25. v.: Þó hvað þèr hafið, haldið þèr því, þartil er eg kèm."
„26. v.: Hverjum, sem yfirvinnur, og varðveitir mín verk „allt til endans, þeim vil eg gèfa vald yfir heiðnum „(þjóðunum)."
„27. v.: Og hann skal stjórna þeim með járn-valdsprota, „og sem pottamakara-kèr skal hann sundurbrjóta þá."
„28. v.: Eins og eg af mínum föður hefi meðtekið; og eg vil „gèfa honum morgunstjörnuna."
„29. v.: Hver, sem hefir eyru, sá heyri hvað Andinn segir „söfnuðunum."

Að þetta eigi sèrdeilis heima hjá Thýatíru-söfnuði efa eg ekki, en það samstemmir einninn einkar vel tímarúminu milli 476 eður 500 til 774, þá páfinn var veraldlegur stjórnari, eður og til 800, þá Karl hinn mikli varð keisari, hvarum eg hlýt að auka nokkrum orðum.

## §. 39.

Vitnisburðurinn í 19. v. er mikið samkvæmur vandlætíngu þeirra kristnu á þeim dögum í því, að hreinsa grundvallarlærdómana, og því, sem nokkrir rèttsinnaðir lærendur útstóðu; þó á það enn betur heima við seinna hluta hins fyrra tímabilsins, þar þessa tímabils kristinndómur var of almennt spilltur; hvar fyrir hver, sem vill, gètur gjarnan látið tímabil (þetta) byrja strax á Constantínus's eður Júlíanus's dögum. Að hið fyrra tímabil yrði þá mjög stutt, ríður á engu verulegu, það hafði verið því merkilegra; einkum þar þessar heimfærslur brèfanna eru engin eiginlega viss tímarúm í spádómstíðinni, en einúngis gèta komist til samlíkíngar við eina tíð eptir aðra, að svo miklu leiti þær gèta saman komið við hið eiginlega ástand safnaðanna á Asíu. Þanninn sýnist 24. versið einkum hafa átt heima hjá Thýatíru-mönnum, jafnvel þó það kunni líka að heimfærast uppá seinni safnaði; en hvernveg hið 20. til 23., og þau þrjú samlögð, gèta eins

vel náð til hins fyrstnefnda safnaðar, sem til seinni tíða, held eg sè ókunnugt.

§. 40.

Hvað sú kona Jessabel hefir gètað verið hjá Thýatíru-mönnum, er mèr óþekkjanlegt; en hvað hún er í hinni miklu seinni tíðar kyrkju, liggur varla undir nokkrum efa, einkum þar hún í safnaðarörðinni útmálast nærst eptir áður umtalaða byrjaða hórdóma, en opinberanin seinna málar eina miklu hóru. Jehú kallaði hina fornu Jessabel hóru, einkum í tilliti hennar afguðadýrkunar, hver alla ritnínguna í gègnum nefnist hórdómur. Þvílík er og svo þessi, ein tælandi afguðadýrkunar kyrkja, í kyrkjunni (kristninni), hvar í helzt síðarmeir sú rómverska kyrkja hafði afburð; henni sýnist og bezt til heyra, að hún lèzt vera spákona, því hún vildi álítast óbrigðul; henni varð gèfinn umvendunartími, og hún sýktist, og hennar áhángendur liðu þreyngíngar, þá Gotar og Lángbarðar, og enn þar eptir yfirgángur Serkja og fleiri óhamíngjur, þjökuðu henni.

§. 41.

Í 23. v.: eignar Jesús sèr enn þá eiginlegleika, sem eru Guðs eins. Menn sjá hèr ásamt, hversu öldúngis ógild er þeirra ástæða, sem vitna um það til ritníngar-orða, að Guð vilji dæma hvern eptir verkum sínum, en ekkèrt eptir falskri trú; því hèr, einsog á fleirum stöðum, kallar Kristur vantrú, hjátrú og íllan tilgáng eins vel verk, sem útvortis lesti. Annars vill hann hlífa þeim, bæði í Thýatíru, og síðar meir í villtri kyrkju, sem vegna þeirrar afvegaleizlu, er þeir gátu ei mótstaðið, eru orðnir hjátrúarsamir í söfnuðinum og þekkja ekki satans djúp, gátu ekki vitað hversu háttað var ránglátra og rángjarnra biskupa og páfa íllsku, líta á þá í einfeldni sinni, meðan þeir ei höfðu gjört sig berari, og hèldu þá jafnvel Krists umboðsmenn, en þó í öðru óttuðust Guð.

§. 42.

Hið 26., 27. og 28. v. gèt eg ekki skilið að eiginlega hafi átt heima hjá Thýatíru-mönnum utan að því leiti, að allar guðhræddar manneskjur kunna vænta náðarlauna af Guði í eilífðinni; en þau hafa þekkjanlega tillit til komandi síðustu tíða, þá sannleikans trúir áhángendur skulu fá andlegt vald yfir heiminum, með því að taka hlutdeild í síns konúngs mikla sigri yfir því honum á móti uppreistarsama veraldarfólki, á hvað og svo margir spádómar benda; þeir skulu þá ríkja með krapti, og þeir óguðlegu og frásnúnu í sinni munu sundurknúsast af þeim krapti, bæði að því, sem áhrærir allar þeirra ástæður, sem kollsteypast skulu, og gètu þeirra eða megn til að setja sig á móti sannleikanum; þá skal þeim trúu kristnu gèfast morgunstjarnan, það er hinn mesti ljómi og vegsemd í kènnenda-valdinu, sem mun formyrkva allar heimsins pretta-vísdóms greinir og gjöra þær svívirðulegar [1].

## 3. kapítuli.

§. 43.

„1. vers: Og skrifa þú engli safnaðarins í Sardes: þetta „segir sá, sem hefir þá sjö Guðs Anda, og stjörnurnar sjö, „eg veit þín verk, að þú hefir það nafn, að þú lifir og ert „(þó) dauður."

„2. v.: Vertu vakandi, og styrk aðra hluti, sem deya ætla, „því eg hefir eigi fundið þín verk fullkomin fyrir Guði."

„3. v.: Minnstu þarfyrir á, hvernig þú hefir meðtekið og „heyrt, og varðveit það, og vend þèr um. Því ef þú vilt

[1]) Í þriðju Lection sinni yfir þennan kapítula afmálar áðurnefndur enskur rithöfundur Williams núverandi ástand þeirra safnaða, sem þessi brèf eru tilskrifað, einsog uppfyllíngu hótana þeirra, er brèfin hafa í sèr, og er það líka all-undarlegt, og sýnir með öðru bókarinnar guðdómlegleika. En annars mótmælir höfundurinn mèr hèr hvergi, ei heldur nokkurstaðar í 3., 4. og 5. kapítulum allt til enda; heldur samsinnir mèr í öllu, nema þeirri ómerkilegu gátu, sem áður er gètið, og þó eptir Túller, og búið er að sanna merglausa, og enn framar skal sanna að svo sè.

„ekki vaka, skal eg koma yfir þig sem þjófur, og skaltu „ekki vita á hverri stundu eg mun koma yfir þig.“

„4. v.: Þú hefir líka fáein nöfn í Sardes, sem ekki hafa „saurgað sín klæði, og þeir munu gánga með mèr í hvít„um klæðum, því þeir eru þess verðugir.“

„5. v.: Sá, sem yfirvinnur, skal með hvítum klæðum klæddur verða, „og eg mun ekki afmá hans nafn af lífsbókinni, og eg vil „játa hans nafn fyrir mínum föður og fyrir hans englum.“

„6. v.: Sá, sem hefir eyru, heyri hvað Andinn segir söfn„uðunum.“

Fyrir utan hvað þetta á sèrílagi heima hjá söfnuðinum í Sardes, viljum vèr enn framar sjá, hvern veg það samsvarar kristninnar tímabili frá 800 til 1517.

## §. 44.

Á þessu tímarúmi var það nákvæmlega satt, sem stendur í 1. versi. Kristinndómurinn var kallaður að lifa, en var þó dauður; viðvörunin í hinu 3. er og eins þekkjanlega mátaleg, svo að hún enganveginn gat betur, og ekki nærri eins vel, heimfærst uppá nokkurn hlut í heiminum, sem þá uppá hann. Höfðu menn meðtekið þann veg Guðs orð og heyrt það frá upphafi, að þeir skyldi offra Kristi líkama og blóði á altari einu, tilbiðja dauða, helga menn, bílæti og krossa, lifa ógiptir, píska sig, fara pílagrímsferðir, sækja aflát til páfans, og annað fleira þvílíkt? Í 4. versinu er talað um, að þó væri þar nokkrar ósaurgaðar persónur. Hvenær hefir slíkt verið svo auðþekkjanlegt, sem undir páfans yfirdrottnun? Munu það hafa verið þeir á þeim tímum fyrir Manichæa villu úthrópuðu Paulicianar, Waldensar, Wiclifítar og Hússítar? Skyldi menn nú þurfa meira til að sanna, að þessi brèf ná til seinni tíða, þá gæti menn tilfært Kristí úthrópun seinast í hverju þeirra: hver, sem hefir eyru að heyra; sá talsháttur hans hefir tillit til allra tíða manna og ekki einúngis safnaðanna á Asíu. Í 5. versi ssgir hann, að hann ekki vilji afmá (útslètta) áður nefndra meðkènnenda nöfn af lífsins bók; mun það ekki samstemma öldúngis því, sem hann segir hjá guðspjallamanninum Jóhannesi: „eg

gèf það eilífa líf"? Og hans talsháttur hèr í 5. versi, því, sem hann segir hjá guðspjallamanninum: „mannsins sonur mun meðkènna hann fyrir Guðs englum"? Sannlega mjög mörg af hans orðtökum hjá guðspjallamönnunum, en allra helzt hjá Jóhannesi, fyrirkoma tíðt í þessari bók framar enn nokkurstaðar.

§. 45.

„7. v.: Og skrifa þú safnaðarins engli í Philadelphíu: „þessa hluti segir hinn heilagi, hinn sanni, sá, sem hefir „Davíðs lykil, sem lýkur upp og enginn lokar aptur, sem „apturlokar, og enginn lýkur upp."

„8. v.: Eg veit þín verk. Sjá! eg lèt fyrir þèr opnar dyr „og enginn fær þeim aptur lokað; því að þú hefir lítinn krapt, „og hefir varðveitt mitt orð, og afneitaðir ekki mínu nafni."

„9. v.: Sjá! eg gèf nokkra af satans söfnuði, sem segjast vera „Gyðíngar, og eru ekki, en ljúga. Sjá! eg vil gjöra þeim, „að þeir skulu koma og tilbiðja fyrir þínum fótum, og þeir „skulu þekkja, að eg hefir elskað þig."

„10. v.: Með því þú hefir varðveitt mitt þolinmæðisorð, „mun eg einninn varðveita þig á freistíngartímanum, sem „koma mun yfir allt jarðríki, til að freista þeirra, sem á „jörðu búa."

„11. v.: Sjá! eg kèm snarlega; haldtu við það þú hefir, svo „enginn taki þína kórónu."

„12. v.: Þann, sem yfirvinnur, mun eg gjöra að stólpa í „musteri Guðs míns, og hann skal ei meir útgánga og á „hann vil eg skrifa nafn Guðs míns, og nafn borgar Guðs „míns hinnar nýu Jerúsalem, sem kèmur ofan af himni „frá Guði mínum, og mitt hið nýa nafn."

„13. v.: Hver, sem hefir eyru, heyri hvað Andinn segir „söfnuðunum."

Þar brèfið sèrdeilis viðkèmur söfnuðinum í Philadelphíu, þó nú ekki auðveldt sè að heimfæra mikið af því uppá hann, kynni það máskè ekki eins fyllilega og hin fyrri, að samstemma framhaldi fjærlægra seinni alda; þó, ef þau öll skulu benda nokkuð til þeirra, svo lengi, sem Asíu safnaða tala

gat hrokkið til að berast saman við mismunandi tímabil hvort eptir annað í kristninni, viljum vèr líta eptir, hvort það er mögulegt, að svo miklu leiti samstemma orðið gètur við nokkurn einstakan söfnuð á Asíu, að þessi í Philadelphíu hafi nokkra lýsíngu við tímabilið frá 1517 til enda seytjándu aldar, eða lengra, eða styttra, sem hverjum sýnist rèttast. Það er líkindalaust, að vænta samstemman finnist alltaf eins mikil, ella hefði náttúran orðið að umskapast, og vandhittast yrði það ætíð að verða, að hinir seinast nefndu safnaðir hitti fyrir sèr líka tíð sèr á seinni öldum, og það seinast í aldaröðinni. Láta má maður sèr nægja, ef ekkèrt mjög stórum ólíkt fyrir kèmur þar við.

## §. 46.

Í 7. versi afmálar Kristur sig sem manneskju með guðdómlegri makt, og í 8. segir hann, að hann hafi gèfið sínum þjónum opnar dyr, sem enginn gat apturlokað; að hann hafi gjört það fyrir söfnuðinn í Philadelphíu vita menn ekkèrt um; þó verður það að hafa verið svo, en, að því eg ætla, í því, sem lítið var nafnkènnt, fyrst það er gleymt; en fyrir Jóhann Húss og hans eptirkomendur, einkum Lúther, og eg þori líka segja Zwingli, hefir hann efalaust gjört það; svo nú meiga menn upphrópa með furðu: hvað! samstemma ennþá nafnkènndustu tilburðir í tímaröð brèfunum í þeirra röð? Og það verður ekki annað enn sannað. Eptir kríngumstæðum sýndist sem ekkèrt nema guðdómlegur máttur gjæti gjört ómögulegt að loka þeim dyrum, sem hann upplauk fyrir þeim. Guðs orðs þekkíngardyr voru áður svo opt apturluktar, og þó sýnist sem hinir fyrri sannleiksjátendur (Waldensar og Hússítar) fái hèr fyrirheitið, einsog hann hefði sagt: sá sannleiki þèr fylgið, skal vissulega sigra þegar eg lýk dyrunum upp fyrir alvöru, og þeim skal ei verða lokað aptur; því til þeirra yfirhöfuð talar hann seinna, þar hann segir: þú hefir varðveitt mitt orð, o. s. frv. Þarámóti varð lokað dyrum fyrir hinum, sem þá vildu ekki meðtaka sannleikann. Vèr sjáum þessvegna, að hið helzta af brèfinu

til safnaðarins í Philadelphíu á nákvæmlega heima í áðurnefndu tímarúmi, og verður í sjálfu sèr einn af hinum allramerkilegustu og sèrlegustu (fráskildum) tilburðum, eins og áðurnefnt brèf er sèrílagi, og hvorki líkt því, sem undan fer eða eptir kèmur. Og þó Michaelis trúi ekki, að brèfin bendi til tíma í kristninni eptir röð, og máskè síst þetta, sýnist það vera ein hin mesta óheppni hans í útleggíngu þessarar bókar. Eptir hans áliti verða þá öll brèfin nærri tilgángslaus fyrir seinni tíðir, og bókin sjálf án samstemmu og samanhengis, samanstandandi af fjærstæðum efnum, nefnilega einsömlum samlíkíngafullum hyrðara-brèfum og spádómssjónum, sem þeim eru öldúngis óviðkomandi; og þetta í móti bókarinnar eiginn vitnisburði, sem kallar stjörnurnar og ljósastjakana leyndan dóm, hvað öldúngis væri ósatt, ef þau hefði ekki tillit til neins annars enn safnaðanna í Asíu; hèr við bætist, að undarlegt mætti sýnast, að Kristur er sagður að halda þeim sjö stjörnum í hendinni og standa í milli sjö ljósastjaka, ef það ekkèrt annað skyldi merkja enn þá asíatisku söfnuði; því hann hafði marga aðra og ætlaði lengur að vera kristninnar herra enn þeir safnaðir vöruðu við. Þarámóti þegar stjörnurnar og ljósastikurnar merkja ásamt sjö tímarúm í kristinndóminum, verður allt skiljanlegt, sb. spádómsins tvöföldu merkíngu kap. 17, v. 9. Margir útleggjendur eru mikið fyrir að gjöra sem minnst mögulegt er úr spádómanna meiníngu; en á þann máta fá þeir ekki annað út, enn að ekkèrt verður samstemma hjá þeim. Því meira og vigtugara augnamið þarámóti, sem þeim er ætlað, þess þekkjanlegar uppfyllast þeir, sem von er, þar Guð fyrir segir enga smámuni. Það er sjálfsagt, að útleggjandinn má aldrei missa sjónar á því, sem saman á.

## §. 47.

Að ýmislegir íllir og rángsnúnir spillendur trúarumbótarinnar, sem þó lètu af, kunni að virðast afmálaðir í 9. versi, er þó ei neitandi; maður kynni nefna hina fyrstu endurskírara og aðra uppreistar- og frekjutrúarmenn; en eg ætla þó, að

þessi grein hafi sèrlegasta tillit til sjálfs Philadelphíu safnaðar, jafnvel þó maður gèti ei, vegna sagnaskorts, sagt meira þar um.

§. 48.

Í 10. v. fá hinir trúu áhángendur sannleiksins fyrirheiti um, aldrei til fulls að eyðast af vantrúnni; eigi jafnvel þá, þegar dýrið af afgrunninu upprís; hver tíð verður að vera hin mikla freistíngartíð, sem kèmur yfir allt jarðríki.

§. 49.

Þau orð: minn Guð, sem opt fyrirkoma í 12. versi, eru Jesú eiginn talsháttur; „eg fer til míns Guðs og yðar Guðs" segir hann hjá guðspjallamanninum; og á hversu mörgum stöðum í þessari bók finna menn ekki Jesú eiginn talshætti; einkum þá, sem Jóhannes í guðspjalli sínu hefir uppteiknað, samt þessa postula orðtak, Jóh. 1., o. s. frv., vilji menn að eins ekki lykja aptur augunum.

§. 50.

Þar eg stend ei uppá, að þetta rit sè neitt fullkomið verk, yfirlæt eg öðrum, sem lærðari eru og áhöld hafa betri, að útlista smáatvik þau og talshætti í spádóminum, sem eg kèm ei við.

Textinn skal samt innfærast hèr heill.

§. 51.

„14. v.: Og engli safnaðarins í Laódíceu skrifa þú: Þetta
„segir (sá sem heitir) Amen, sá trúfasti og sanni vottur,
„upphaf skèpnunnar Guðs."

„15. v.: Eg veit þín verk, að þú ert hvorki kaldur nè heit-
„ur; æ! að þú værir kaldur eða heitur."

„16. v.: En af því þú ert volgur, og hvorki kaldur nè heit-
„ur, skal eg útspýta þèr af munni mínum."

„17. v.: Þú segir: eg er auðugur og hefi öldúngis nóg, og
„þarf einkis; og þú veizt ekki, að þú ert vesæll og snauð-
„ur, blindur og nakinn."

„18. v.: Eg ræð þèr til, að þú kaupir gull af mèr, það í
„eldi er reynt, svo þú auðugur verðir, og hvít klæði, að
„mega klæðast í, svo að blygðun þíns nakleika verði ei
„opinber; og smyr þín augu með augnasmyrslum, að þú
„megir sjá."

„19. v.: Þá, sem eg helzt elska, straffa eg og typta; svo ver
„þú nú vandlátur og umvend þèr."

„20. v.: Sjá! eg hefi lengi staðið fyrir dyrum, og klappa á
„þær; ef nokkur vill heyra mína rödd, og uppljúka dyr-
„um, til hans vil eg inngánga, og halda kvöldverð með
„honum, og hann með mèr."

„21. v.: Þeim, sem yfirvinnur, vil eg gèfa að sitja með mèr
„á mínu hásæti, einsog eg hefir yfirunnið, og setti mig
„hjá mínum föður á hans hásæti."

„22. v.: Hver, sem hefir eyru, heyri hvað Andinn segir
„söfnuðunum." [1]

Þetta kann nú alltsaman nákvæmast heima að eiga hjá söfn-inum í Laódíceu; vèr viljum þó nú sjá, hvort það ekki líka, einsog allt hið undanfarna, gètur, að minnstakosti að miklu leiti, komið saman við eitt tímabil í kristninni, t. d.: í 18. öld, og svo lángt ofan í tíðina, sem hver vill gjöra sèr í hug.

## §. 52.

Jafnvel þó það nú sýnist mèr, sem eg hafi ekkèrt of-aukið í samlíkíngunum (samanburði) híngaðtil, já, þó líkíng-arnar í mínum þaunkum sýnist enn stærri enn eg hefi talið, og meir enn venjulega í spádómum, líkt einsog í Daníels spá um ægyptsku og sýrlendsku konúngana, eða því nær; þá mun þó þessi samlíkíng og spádómsins uppfyllíng ætíð fá mótmæli af nokkrum, einúngis af því, að þeim er óviljugt, að það skuli svo vera. Þeir mótmæla þá, þó þeir hafi allt í móti sèr, en ekkèrt fyrir sèr nema þetta: eg trúi því ekki, það gètur ekki verið svo. Vissulega voru ekki margir spádómar

---

[1]) Hvað merkileg og aðgjætsluverð eru þessi brèf, þau einustu sönnu himnabrèf frá Jesú í hans hátign!

sjáanlegar uppfylltir á Kristó á hans holdsvistardögum, enn mèr sýnast þessir í veröldinni, og þó heimti hann með miklum rètti, að Gyðíngar skyldi prófa þá, og meðtaka þá sem uppfyllta. Teiknin ein voru þá ljósast framkomin af þeim um hann, og svo allir vissi. það er ogsvo hættulegt, að setja sig prófIaust á móti spádómum í fyrstunni; því allir spádómar eru þess eðlis, að þeir uppfyllast minnst þekkjanlega (fyrir almenníng) í byrjuninni, en síðan æ augljóslegar, þó svo, að laung millibil innfalla, til þess þeir verða öldúngis ljósir fyrir öllum sannsýnum; en á meðan hefir vantrúin svo vaxið hjá þeim, sem í fyrstunni höfðu hleypidóm í móti þeim, að þeir gèta ekki lengur sèð við bjartasta ljós. Um þvílíka röksemdalausa neitendur gètur maður ei annað sagt enn þetta gamla: sjáandi sjá þeir ekki, og heyrandi heyra þeir ekki, af því þeirra hjarta er forharðnað.

§. 53.

þar er varla nokkur efi, að helzta orsökin, hvar fyrir svo margir neita, að spádómar samstemmi með seinni tíðar gángi, liggi í brèfunum, er, að þeir vilja ekki kannast við, að sú eða sú siðferðis afmálun safnaðanna eigi heima hjá þeim og þeirra tíðar mönnum. þeir segja líklega sem hinir Gyðíngar: við viljum ekki vera þessara eða þessara lagsmenn, ekki erum við einsog þeir; en þeir þenkja þó að öllu leiti eins. Jeg er ekki Photiníani, ekki Sociníani, hugsar uppklárunarmaðurinn, eður máskè rèttara ratiónalistinn (svo kallaður skynsemdartrúarmaður), og látum skynsaman heiðíngja, sem er hlutdrægnislaus, dæma um, hann mun varla finna tvö egg hvort öðru líkara; jeg er ekki heiðíngi, segir deistinn, og hann er enn meira vantrúaður enn margir góðir heimspekíngar meðal heiðíngja, og ósamlíkjandi að guðhræðslu við hjátrúargjarnan almúga þeirra, hverjum hann ei vill heldur líkjast, og sè þetta ekki sagt til að dæma um allt hans framferði; síðan skal gètið verða, í hverju hann gètur verið dygðugur. það er einasta til að upplýsa nokkuð eðli þeirrar vantrúar, sem heldur vill dirfast að neita einhverju, án þess að gèta sannað,

að Guð hafi það ei opinberað, enn að meðtaka það, hversu auðsýnilegt, sem það er, þegar það ekki fellur vilja mannsins.

§. 54.

Ærið er það furðanlegt, að nær því til vorra daga höfuðtilburðir og þánkafars einkènni kyrkjunnar skuli tímaköflum saman hafa verið álík safnaðanna þánkafari og líferni í brèfunum, og miklu undarlegra fyrir það, að ástand safnaðanna gat ei eptir eðli sínu verið eiginleg eða fullkomin spá um seinni aldir. Sýni menn mèr nokkurt dæmi til, að mannleg hyggindi eður forspá hafi hitt svo á ígègnum aldaraðir, eður nokkurn annan stað í nokkurri ritgjörð, sem þanninn hefir gjört einasta mögulegt (líklegt þarf ei að segja), að heimfæra sig svo um 1700 ára tímaröð; eður sýni mèr nokkra útleggíngu, sem eins náttúrlega gètur heitið brèfanna hulda meiníng, hverra efni bókin sjálf kallar leyndan dóm.

§. 55.

Nú er náttúrlegt heimt sè af mèr, að ef sex brèfin hafa gètað komið saman við kristninnar tímabil, að eg skuli þá sýna, hverninn hið sjöunda gèti það eins. Eg svara, að þó menn gèti varla vænt þess, að samlíkíng gèti alltaf haldið áfram, jafnvel í millum þess einstaka síðasta brèfs og tíðarinnar, sem kom eptir trúarendurbótina, þar þó brèfin eru ekki spádómurinn sjálfur; vil eg þó prófa það, og spyr (ef eg gèt sýnt þar nokkra líkíng): eru menn þá nokkru nær enn áður, að trúa því, að í brèfunum liggi huldir spádómar, sem inngángur til bókarinnar?

§. 56.

Eg mætti spyrja: þekkja menn ekkèrt af vorrar tíðar eiginlegleikum í þessu siðasta brèfi? Ekki sèrílagi seinustu helftar 18. og fyrsta hluta 19. aldar, og jafnvel enn verandi tíðar kènnimerki í tilliti fjöldans? Söfnuðurinn er í Laódíceu; þeirri stjórn eða fèlagi, sem hrósar sèr af sjálfgjörfum almenníngskjærleika, og hvar menn stóla uppá sitt eig-

ið, ekki á hærri máta annarstaðar að — nefnilega frá Guði, alls góðs gjafara — tilfèngið rèttlæti, þvílíkt fèlag ber með sanngirni það nafn. Sá trúfasti og sanni vottur talar til safnaðarins; hann vill þessvegna leiða hann til hins rètta sannleikskjærleika, og sannleikurinn er ei nema einn. Hefði manneskjan gètað vitað sannleikann af sjálfri sèr í nærverandi synduga ástandi, var óþarfi að Guð opinberaði neitt, því síður sendi henni sinn son einúngis til að kènna. Svo burt með alla yfirnáttúrlega opinberaða þekkíngu á Guði! og þetta mundu mennirnir helzt vilja, einkum á vorum dögum nokkrir vitríngar, sem þó eru skírðir uppá Kristum. Socrates vænti þó af Guðs gjæðsku, að hann mundi opinbera nokkuð um sig, og flestir heiðíngjar hafa leitað forlíkunarmeðals.

§. 57.

Hverninn Kristur er Guðs skèpnu upphaf, kèmur eiginlega ekki mínum ásetníngi við að tala um; ritníngin segir, að allt sè skapað við (fyrir) hann; látum þar við blífa; hinn frumgètni gètur hann kallast í fleiru, eður jafnvel öllu, tilliti. Sá, sem er fæddur frá eilífð, er líka eptir sinni hærri náttúru sá sanni frumgètni af öllum verum; en í tímanum sem maður, er hann frumburður svo sem sá fyrsti heilagi og sem kyrkjunnar upphaf, ásamt sem sá æðsti af öllum skèpnum, þar hans lægri náttúra er sameinuð Guði sjálfum; líka er hann sá frumgètni af hinum dánu manneskjum, sem upprisu; því hann reis upp af eiginn mætti, og svo vítt menn vita, fyrstur af öllum, til eilífs lífs.

§. 58.

Í 15. v. segir hann; „þú ert hvorki kaldur eða heitur.“ Eru margir kaldir eða heitir á vorum dögum? Er ekki sálarinnar andlega upplyptíng til Guðs, upplyptíng vegna Guðs kjærleika í Kristó, hans pínu og forlíkunar, nærri því bannfærð, og nefnist jafnvel ýmislegum athlægilegum nöfnum (Sværmerie, mysticisme etc.)? Kulda er ekki heldur svo mikið af; menn láta einsog þeir hati ekki kristin trúarbrögð; heldur

virði þau. Ekki þurfa menn að bera það í móti þessu, að óguðleiki og hyrðuleysi í trúarbrögðum hafi á öllum tíðum verið. Víst var kristinndómurinn svo að segja dauður eina tíð, einsog brèfið til Sardes bendir til, og af þeim eiginlegleika hafa flestar tíðir haft nokkuð; á öllum tímum hefir hann og verið órèttilega skilinn af fjöldanum, þó ekki á þann hátt, sem rationalistarnir vilja halda, að hann eigi að innihalda höfuð grundvallarástæður, sem hann inniheldur ekki; en helzt í því, að menn hafa ímyndað sèr dauða trú og lauslegt ángur fyrir syndirnar að vera sáluhjálplegt — og var það nær kuldanum. — En hvenær hefir þarámóti þvílíkt ljós verið í trúarbrögðunum (almennt) sem á vorum dögum? svo margir uppfræddir þar í? svo vel kunnugir öllum þeirra kènníngarhætti? og þó svo mikill fjöldi í samanburði við tölu þeirra rètt upplýstu, af þeim, sem hvorki eru kaldir nè heitir? Hvenær hafa menn verið jafn-skeytíngarlausir um lærdómskjarnann, sem nú, einkum nær enda aldarinnar? En máskè enn önnur líkíng við söfnuðinn í Laódíceu falli betur í augu.

## §. 59.

Þú segir það, eg er auðugur, vel að merkja orðinn auðugur, og hefi einkis þörf. Hvenær hafa mennirnir stólað meira uppá sjálfbyrgíngsskap og ætlað sig síður þurfa Guðs andlegu náðar, enn á vorum dögum? Þó maður gègnumlesi alla historíu, jafnvel páfadómsins myrkvu tíða, þá menn pískuðu sig og leituðu afláta, jafnvel heiðninnar, þá menn grátandi tilbáðu afguði, eður og svo Ísraelítanna forntíða, þá menn voru svo hræddir við guðdóminn, að ekki þóttust gèta hreinsað sig nóg útvortis. Aldrei hefir almennt, helzt í samanburði við þekkínguna á Guði, sem mest ætti að uppvekja sannan virðíngarótta fyrir honum, verið svo lítill virðíngarótti. Hugsa menn ekki: eg er nógu góður, ef eg ekki með rökum verð ákjærður af mönnunum; að Guð fordæmi mig er ei hætt við; eg gèt þá vel staðist með mín verk; Guð fyrirgèfur ófullkomleikann; framandi endurlausnar þarf eg ekki, hún gètur ekki hjálpað mèr? Hefir Guð ekki gèfið skynsemina?

Hún gètur frelsað mig nóg; hans yfirnáttúrlegu náðar þarf eg ekki? Kènna menn ekki líka þessvegna, að sjálfselskan sè einka grundvöllur allrar skyldu? Trúa menn ekki, að þetta sè útveguð þekkíng af tíðarinnar upplýsíngu? Hafa ekki Guðs orðs þènarar kènnt opinberlega þanninn á vorum dögum, svo að það eru ekki einúngis nokkurra óguðlegra eður óupplýstra innföll? Og hvenær hefir kristinndómurinn fyrri verið svo ásigkominn? Er það ekki að segja: eg er orðinn auðugur, og hefi einkis þörf? Menn segi þó á hverri annari tíð: sú afmálun átti betur við hið almenna.

§. 60.

En Kristur segir til þvílíkra: „þú veizt ekki, að þú ert vesæll og snauður, blindur og nakinn.“ Vesælir eru þeir, þar þeir eru huggunarlausir í dauðanum; snauðir, því þeir fá ekki staðist fyrir Guði með sínum verkum, og eru af honum álitnir að hafa enga forþènustu; blindir, af því þeir þekkja ekki sitt sanna ástand, og þar fyrir utan er Guðs anda meiníng þeim heimska, sem þeir alls ekki gèta skilið, einsog Faríseunum, við hverja Jesús sagði: en fyrir því að þèr segið: vèr sjáum, þá blífur yðar synd, nefnilega: þeirra vantrú, því ótal aðrar syndir höfðu þýngt þá einsog aðra menn, þó þeir hefðu ekki innbyrlað sèr, að þeir sæi (væri öðrum visari); og naktir eru þeir, vegna þess þeir hafa ekkèrt að skýla sèr með fyrir Guði, sem þekkir þeirra hjörtu, þar þeir ekki meðtaka hans ráð til mannanna frelsunar nè elska hann þarfyrir, hvaraf þeirra vilji mundi hneigjast eptir honum, og þeirra syndir afmást í eilífðinni. Þessum ræður Kristur til að kaupa gullið, sem í eldsglóðum er smelt og reynt, það er: hina sönnu kristnu trú, verkandi fyrir sterkan kjærleika til Guðs og síns endurlausnara, hver og verður einasta rètta uppspretta til sannarlegs mannkjærleika. Þessi trú er reynd í ofsóknum og allrahanda freistíngum, sem rationalistarnir mundu ekki standast, og deista lærdómur enganveginn gánga undir. Að sönnu hafa manneskjur orðið píslarvottar fyrir dáraskap sinn; en að verða píslarvottur fyrir kjær-

leika til endurlausnarans og sannleikann, er bæði miklu almennara, þegar nokkurt vandlæti fylgir kristinndóminum (og til vandlætis upphvetur Kristur engilinn í Laódíceu), og svo óendanlega miklu ágjætara, sem Guð er dáraskapnum; en þó samt sjálfir þeir, sem píslarvottar hafa gjörst fyrir dáraskap, hafa nokkuð ágjætara með sèr — nefnilega hugstyrkinn — enn hinir sjálfhyggnu og eigingirndarfullu Farisear, af hverjum ekki nokkur einn mundi verða píslarvottur fyrir sinn lærdóm, hver þeir þó láta sem sè trúarbrögð og kristinndómur [1].

---

[1]) Enganveginn var það mín meiníng, þá eg ritaði þessa útskýríngar-tilraun, að veröldin rètt nú, þá þetta er skrifað, sè verri enn ætíð áður; svo fávitur er eg ekki; ekki heldur sú, að afsaka umlíðunarleysið (Intoleranceen), eður halda það, þegar það er í æsíngi sínum, betra enn mesta skeytíngarleysi, sem enn hefir sýnt sig á nokkru landi (undanteknu máskè Frakklandi í skèlfíngartíðinni, hvar þó þá ásamt var umburðarleysi), mèr er nær að trúa, að veröldin máskè aldrei, þá allt er samanborið (víst ekki í einstökum svoköllu ðum upplýstum löndum), hafi verið betri enn nú sem stendur. En þarámóti óttast eg fyrir, að þegar umburðarlyndið (Toleranceen) er ekkèrt annað enn byrðulaust jafngyldi og vanvirða á Guðs opinberun, en ef á betra veg er fært, máskè einsaman aldarháttarlinka; þá er það í Guðs augum fullt svo íllt sem óskynsamlegasta vandlæti fyrir Guðs málefni; og að vèr höfum allareiðu sèð allt það versta, sem trúaræsíngur hefir af stað komið (í ransóknarrèttinum og fleiru), en hvergi nærri. þær skèlfilegu afleiðíngar enn þá, sem skeytíngarleysi, og sú rationalista kènníng, er mótmælir Guðs orði, mun hafa með tímalengdinni, fái það yfirhönd. Skèlfíngartíðin franska sýnir að eins nokkuð af því. Og þegar eg aðgæti, hversu skèlfilegar afleiðíngar Guðs orðs umsnúníngur, manna setníngar grundvallaðar á manna drambsemi og öfug vandlætíng fyrir Guðs málefni, hefir haft, sýnist mèr það bæði líkindalaust og Guðs rèttlæti óverðugt, að umsnúníngur á hans orði með vilja gjör, ellegar útskúfun þess, og forsmán höfð á hverjum, sem heldur sèr við það, og þetta á meðan menn ennþá hafa orðsins sannfærandi krapt hjá sèr, og reynslu allrar historíu um þess sælu verkanir, og þaraðauki hafa svarið sig undir þess hlýðni, að þetta skyldi með tímanum hafa minna skèlfilegar verkanir. Ekki um það að tala, að hverninn, sem veröldin er ásigkomin í öðrum hlutum, sýnist hún aldrei að hafa elskað meira sældarlíf og eigingirni, eða verið samvizkulausari í samanburði við sína þekkíngu, enn rètt nú, og þetta

§. 61.

Í 19. og 20. v. lokkar Kristur mjög kjærlega hinar sjálfhyggnu manneskjur til að fallast á hans lærdóm; hvar fyrir skyldi hann þanninn gjöra sèr ómak fyrir að ávinna þá, sem með meiri mótþróa enn heiðíngjar, er aldrei hafa um hann heyrt, útskúfa honum, eður þó lítilsvirða? Lángtum öðruvísi var Ísraelítunum gjört, þá þeir brutu lögmálið; ekki nærri svo kjærlega er söfnuðurinn í Sardes lokkaður. Hvað gètur verið orsök til þess? Eg veit það ekki; en leyfast mætti mèr að ágètska, að það sèu einkum þrír hlutir; það fyrst, að Guð ann iðjusemi og upplýsíngu jafnvel í náttúrlegum efnum, mannúðlegri umgengni og útvortis góðleik, sem hann finnur hjá mörgum af þessum, í anda fráleitu, framar enn hjá fyrritíðarmönnum, og vill því heldur frelsa þá. I öðru lagi veit hann að þeir hafa yfirmáta miklar tælíngar af heimsaldar andanum og holdinu til sinna afvega, og það framknýr líka þá guðdómlegu gjæðsku hjá honum á vorum dögum, að láta svo yfirfljótanlega frambjóða oss sitt orð, og brýna það fyrir oss á kjærlegasta hátt, svo það samsvarar líka Jesú kjærlegu aðferð við engilinn af Laódíceu. Og í þriðja máta er honum ekki ókunnugt, að þeir munu með sínu þversnúna þánkafari, en fegraða atferli, leiða yfir sig og sitt afkvæmi þær

---

eru lestir þess eðlis, sem eptirdæmin sýna, að ekki svo auðveldlega útrýmast einsog villusiðir og hjátrú; því þeir nærast og alast óaflátanlega af mannlegum hofmóð, girndasýki og sældarlyst, þremur hinum óstýrilátustu, ævarandi, saman í eitt komnu, sinnis-sjúkdómum, og rètt fyrir þessa sinnis-sjúkdóma, að framfylgia þeim, iðjar rationalista lærdómurinn. Mèr sýnist aldeilis ólík grundvallar ástæðum hins evangeliska Guðs orðs, sú ákafa sókn, sem nú er eptir frelsi — optast taumlausu sjálfræði — hversu mikið gott, sem af frelsi þvi kynni orsakast í því, sem til stjórnarhags heyrir. Ó! að þó ekki hver maður yrði með tímanum eins sjálfræðisgjarn (liberal) í kristindóminum, og vèr fengjum millíónir (ótölulegan fjölda) af samvizku-drottnum, í staðinn fyrir einn, sem er rètt kjörinn; sèrhvert band, eður taumur, verður þó hatað af Liberalistunum (þeim, sem sækja eptir taumlausu frelsi).

allra stærstu ólukkur, og allrahræðilegasta straff eptirleiðis, sem hann gjarnan vildi afstýra. Þannig sjáum vèr, að áður enn Gyðínganna stærsta óhamíngja gèkk yfir þá, voru þeir mest og kjærlegast aðvaraðir. Í 21. versi er og svo fyrirheitið hinum stærstu launum þeim, sem halda við sinn frelsara á þeim háskamestu tímum. Sýnist nokkuð í þessum tveimur paragraphum á undan enn þá ekki trúanlegt, munu menn finna fleiri rök fyrir því seinna. Að allir taki móti þeim, vænti eg ei eptir, en krefst, að ef nokkuð er sagt þeim berlega í móti, sannist það með öðru enn neitun eður meiníngar umsnúníngi. Vilji nokkur bera það í móti, að á vorum dögum, sem hèr eru nú haldnir líkir Laódícea söfnuðinum, taki nú sannur kristinndómur að sýna sig meir enn máskè nokkurntíma áður, þá minnist menn fyrst þess, að brèfanna sèrdeilis tillit er til sjálfra þeirra nefndu safnaða, en með tímalengdinni benda þau til mesta hluta kyrkjunnar lengsta partinn af hverju tímabili, en ekki til þeirra manna, sem máskè um stutta tíð sýndu hèr og hvar á sèr kristinndómsins krapt. Þar fyrir utan gjæti núverandi trúarboðar og aðrir Guðs menn álitist sem eptirleif af þeim um er talað í 3. kap., 7—10. v., ellegar forfeður þeirra, sem hèr eptir stríða við dýrið, hverjir og seinna fyrirkoma í spádómi útaf fyrir sig. Í brèfinu til engilsins af Laódíceu gat tilbendíng til þvílíkra ekki komið fyrir, því það flýtur af sjálfu sèr, að ekki utan einslags hópur, nefnilega sá stærsti, verður samlíktur Laódíceu söfnuðinum; að tveir ólíkir hópar gèti samlíkst svo hálfvolgri kyrkju, væri móti sjálfu sèr. Og hefði ekki verið í Sardesborg (sjálfri) nokkrar guðhræddar sálir (sem engar sýnast verið hafa í Laódíceu), mundu þær ekki hafa verið nefndar í brèfinu til sardiska engilsins, hvað margar ósaurgaðar, sem seinna hefði orðið til í páfadómstíðunum; hèr (í Laódíceu) samstemmdi söfnuðurinn og seinni tíðin að öllu leiti.

§. 62.

Hver má nú ekki furða sig á brèfunum til safnaðanna og þeirra samstemmu við eptirkomandi tíðir! Þó þau ekki

kjæmi við þær í öllu saman, hefði ei verið undarlegt, þar þeirra eiginlegasta takmark voru sjálfir söfnuðirnir; en svo nákvæmlega hafa þau málað kristinndóms-tímabilanna einkènni, að þau kunna að álítast fyrir það skiljanlegasta af Opinberunarbókinni, hvar fyrir og svo margir hafa skygnst nokkuð inní þeirra útmálun tímanna, sem enga útleggíngu hafa verið færir um að gjöra yfir sjónirnar eða spádóminn sjálfan, hvern þó verður hægra að skilja vegna brèfanna. Menn fá að sjá, hvort ekki hvað kèmur til að samstemma öðru.

## §. 63.

En — kynni menn segja — hafi brèfin málað kristinndómsins tímabil, og eru ekki nema sjö, og sjöunda tímabilið ætti að hitta á oss, yrðum vèr að lifa á kristinndómsins seinasta tíma; já, svo er að sjá, en ekki öðruvísi enn seinna kèmur fyrir í bókinni, um sjö höfuð á dýrinu, sem bar hóruna, sem líka á vorum dögum eru komin nær endalokum. Vèr gètum þó hvorki vitað hvað lengi sjöunda tímabilið varir, ei heldur kunnum vèr að ætla, að brèfin nái með afmálunum sínum til þess tíma, þá dýrið af afgrunninu ríkir; þá verður ekki að tala um kristna söfnuði, heldur einúngis einstaka undirþrykkta kristna; en undireins og Krists kyrkja hefst aptur til safnaðar og verður síðan ríkjandi á jörðunni, er hin samanhángandi tíð áður sundurslitin, og þareptir sýnist að hússtjórn Guðs verði nokkuð umbreytt. Nú viljum vèr hèreptir sjá, að dýrið af afgrunninu, samkvæmt spádómunum er ekki komið ennþá[1].

---

[1]) Ekki í útleggíngu nokkurs bókarinnar orðs í 2., 3., 4, og 5. kapítula (sem eg hefi sagt í nótunni á bls. 35), eru hinir ensku rithöfundar í minnsta máta ósamþykkir mèr, en þó í tilliti þessarar ætlunar í § hèr að ofan, þar hann kèmur við þeirra höfuð-ástæðu og höfuð-knút bókarinnar; eg verð því nokkuð fyrirfram að tala um þetta atriði, og framsetja það, sem á að vera í móti mínu áliti þessu efni viðkomandi. Fyrst tilfærir Williams í athugasemd eptir Dr. John Gvise hvað talað er um syndarinnar mann 2. Thess. 2.; hann segir, tèður lærði maður, að merki menn hvern eptir annann (eður stand), en engan einstakan mann, og færir nokkurnveginn rök fyrir því, sem eg hyrði þá ei heldur um að mótmæla; þó gètur mað-

Jafnframt hjálpa þessi brèf, sem eptir mínum þaunkum vafalaust hafa með ágripi lýst kyrkjunnar ástandi til vorra daga,

---

ur ei fastráðið af röksemdum hans, að ekki kunni neinn einstakur að meinast sèrílagi, þó að heil stètt, eður maður eptir mann, væri þar máluð. Að hann og bæði hefir trúað því, og það er af mörgum í einu hljóði viðtekið, að vald hins rómverska keisara hafi verið það, sem hèldt þessum syndarinnar manni aptur, kann vel að hafa sínar röksemdir; þó gjæti maður líka hugsað (ef þessi maður væri annað enn páfinn) til hverrar annarar veraldlegrar yfirmaktar í leifum hins rómverska ríkis. Sè það hann (páfinn), sem Guldberg sjálfur sýnist að hafa trúað í sínum athugasemdum við 2. Thess. 2., meinast keisaaravaldið sjálft víst. En Guldberg trúir þó ekki, að dýrið af afgrunninu sè páfinn, eða neinn hans fylgjari. Hvað eg á þar um að sagja, er ekki vel skírt fyrir mèr; en það sè eg, að postulinn segir um syndarinnar mann, að Drottinn með krapti síns anda múni taka hann burt í sinni tilkomu; að hann villi þessvegna, að manneskjurnar ekki hafi mektekið kjærleika til sannleiksins; og að hann eptir hans (postulans Páls) meiníugu sýnist að vera sá eiginlegi Antikristur, fullkomlega samstemmandi því litla horni hjá Daníel; hvað að vísu allt hefir stuðt að því, að páfinn, sumpart af því menn þekktu engan verri, og sumpart vegna þess menn hèldu veraldar endi væri nálægur, varð almennt álitinn að vera þessi maður syndarinnar. En hvað fyrsta kènnimerkið áhrærir, þá er trúlegt, að páfinn allareiðu verði burtu nokkru fyrir Krists tilkomu; hvað hinu öðru viðvíkur, gèta menn ekki svo eiginlega sagt, að manneskjurnar hafi einkum verið blindaðar af skorti sannleikskjærleika, framar enn endrarnær, þann tíma páfinn kom upp, eður á þann hátt, sem þeir mundu verða, er af skeytíngarleysi og hatri á hinu opinberaða orði, kynni afneita því, hvað nú er framar líklegt enn ómögulegt að á sinni tíð komi fram um mikinn fjölda. Og í tilliti til hins þriðja, mun ein stjórn eða þjóðarandi, sem hafnar og stríðir í móti kristinndómi, og sem ei er óþeinkanlegt, miklu líklegar meiga haldast hinn eiginlegi Antikristur, enn sjálfur páfinn; ekki að tala um að Paulus sýnist að gèfa til kynna, að þessi syndarinnar maður opinberist fyrst stuttu fyrir Drottins tilkomu, hvað varla verður sagt um páfann — þó afgjöri eg hèr ekkèrt — vil samt framvegis leitast við að sanna, að hvort sem þessi maður syndarinnar er dýrið af afgrunninu (sem sýnist) eður ei, þá er áðurnefnda skèffilega dýr ekki komið enn; því sú útleggíng, að það sè hið sama dýr, sem hóran sat á, og þènti henni, stenzt ekki; og Bengel, af

að sínu leiti til, að bókin sè ekki margorð í að framsetja spádóminn um þann þarfyrir utan í öllu tilliti ómerkilega miðaldur. Vèr viljum nú víkja til að aðgjæta hana sjálfa og sjónirnar, sem allar leiðast fram í atriðum, svo að hvert atriði (scena) færist út til enda áðurenn hið annað byrjar, þó

---

mèr síðar sèður, neitar því líka. Við þetta tækifæri verð eg og svo minnast á, að Williams nefnir ýmsa upplýsendur spádómsins, hverjir flestir halda við það gamla, að páfinn og páfadómurinn einúngis sè bókarinnar höfuðknútur; en, eg gèt ei mikið sagt um þá, þarþær ástæðu - niðurskipanir, sem þeir fylgja, afmálast ekki ljóslega. Þó sè eg, að einn baptisti (einn þeirra, er ei skíra börn úng) hefir haft þá ætlun, að drekinn í Opinberunarbókarinnar 20. kap. merki hið þýzka ríki, og vottarnir í 11. kap., borgaralegs og trúarbragða-frelsis talsmenn, sem er af þessháttar útleggíngum, er engri skoðun taka. Towers nokkurs ástæður hefi eg ekki sèð, því síður hans röksemdir, utan hvað af hendíngu kann hèr fyrirkoma af útreikníngum. Faber nokkur hefir haft sjálffundna ímyndun, og haft ei einúngis eptir öðrum eldri, tjáist og hafa gèfið snjallar röksemdir fyrir því, að hvorki dýrið af afgrunninu nè syndarinnar maður sè páfinn (skaði, að eg ei hefi sèð þær), heldur guðleysisstjórn á Frakklandi. Samt kynni eg ætla, að nokkuð djarflegt væri að ákveða svo víst, þó sýnast mætti, að það sè sumra enskra þánkaháttur; en þó neita eg ekki, að mèr finnst sem mörg líkindi mæli fyrir því, að rótin til þess umtalaða skrímsliskraptar hafi uppruna sinn frá því ríki — að fullyrða svo berlega og skjótt, treystist eg ei til. Að annars Williams og annara meiníng, sem haldið hafa dýrið af afgrunninu yrði papiskt ríki, orsakar mikið rugl í útleggíngunni og vandræði, mun sjást seinna. Líka hafa meiníngar um, að páfinn væri Anti-Kristur, og einkum einhver viss papiskur drottnari á órèttum tíma, orsakað hjá frekjutrúarmönnum og fleirum, uppreistir og óskipun, hvað og Bengel játar í sinni ágjætu ritgjörð um von á Kristí komu. En að halda guðleysisríki fyrir Anti-Krist og guðlausa lærendur fyrir falsspámanninn, gètur ekkèrt rèttilega íllt af sèr leiðt. Flestra fornra útleggjenda og líka Bengels meiníng, að afgrunnsdýrið sè hinn veraldlegi páfadómur svo kallaður og allar þar á byggðar tímareiknings tilgátur, virðast mèr við þessa mína athugasemd veiktar, einsog þær hafa engum vel tekist; og vanmáttur þessarar útleggíngar mun enn framar verða sýndur og sannaður í nærverandi ritgjörð minni.

það stundum taki fyrri til í tímanum enn hitt var fullendt; þarhjá fyrirkoma einstök höfuðatriði (Hoved-scener), í hverjum önnur smærri og nákvæmlega útfærð eru svo sem undirlögð þeim, og má nokkuð óhætt finna á samanburðinum, hverninn það kèmst heim.

---

Önnur Deild.

---

## 4. kapítuli.

Undirbúníngur sjónanna.

§. 64.

„1. vers: Eptir þessa hluti sá eg, og sjá! dyr lukust upp á „himni, og hin fyrsta rödd, er eg hafði heyrt sem básúnu „við mig tala, sagði: stíg upp híngað, eg vil sýna þèr þá „hluti, sem hèreptir eiga að skè."

„2. v.: Og þegar var eg í anda, og sjá! hásæti var sett á „himni, og á hásætinu sat nokkur."

„3. v.: Og sá þar sat, var eins til að sjá, sem sá steinn „Jaspis og Sardis, og regnbogi var kríngum hásætið, „líkur að sjá sem Smaragðus."

„4. v.: Og allt í kríngum hásætið voru tuttugu og fjögur há„sæti, og á þeim hásætum sá eg sitja tuttugu og fjóra öld„únga, klædda hvítum klæðum, og höfðu á þeirra höfðum „gullkórónur."

„5. v.: Og af hásætinu útgengu eldíngar, þrumur og raddir, „og sjö blys með eld brunnu fyrir hásætinu, sem eru sjö „andar Guðs."

„6. v.: Og fyrir hásætinu var glersjór, einsog christall, og miðt í hásætinu og kríngum hásætið fjögur dýr (lifandi) „full augna í bak og fyrir."

„7. v.: Og hið fyrsta dýr (lifandi) var einsog ljón, og hið „annað dýr einsog kálfur, og hið þriðja dýr hafði ásjónu sem „manneskja, og hið fjórða var einsog fljúgandi örn."

„8. v.: Og hvert þeirra fjögra dýra (lifendra) hafði sex vængi

„umhverfis, og (þau) voru að innan full augna, og höfðu
„enga hvíld dag eða nótt, segjandi: heilagur, heilagur, heilag-
„ur, Drottinn Guð hinn almáttugi, sá, sem er, og sá, sem
„var, og sá, sem kèmur."
„9. v.: Og þá dýrin (þau lifendu) skyldu gèfa honum dýrð
„og lof og þökk, sem sat á hásætinu, þeim, sem lifir um
„alla eilífð;"
„10. v.: þá skyldi þeir tuttugu og fjórir öldúngar falla fram
„fyrir honum, sem á hásætinu sat, og tilbiðja þann, sem lifir
„um alla eilífð, og fleygja sínum kórónum fram fyrir há-
„sætið, segjandi: Drottinn!"
„11. v.: þú ert verðugur að meðtaka lof og dýrð og krapt-
„inn, því þú hefir skapað alla hluti, og fyrir þinn vilja urðu
„þeir og eru skapaðir."

Um þennan heila kapítula vil eg ekki mikið tala; hinir gömlu hafa leitast við að útleggja eitt og annað af því, sem þarí er, þó ósamanhángandi, og meint sig finna þarí nokkra leyndardóma, hvað líklegt er að sè; en ei þvílíkir leyndardómar, sem hèr sè um skrifað til þess, að manneskjan í nærverandi ástandi skuli þekkja þá. Öldúngarnir afmálast seinna í bókinni sem sèrlegir útvaldir menn, en dýrin hafa sumir ætlað merkti Guðspjallamennina; hvað ei er líklegt. Guldberg kallar þau lifendur, hvert orð eg þarfyrir hefi innilukt striki hèr við textann; og heldur, að þau, samkvæmt þeirra óteljandi augum, það er, hinum allramest útbreidda og dýpsta vísdómi, merki óvenjulega háar verur af engla flokkinum, er vèr þekkjum ekkert til. þetta er ekki ólíklegt, en verður ei framar upplýst, þar bókin gjörir það ekki. Annars er í öllu, sem hèr er afmálað kríngum Guðs hásæti, enginn spádómur, heldur er það talið á undan, til að vegsama Guðs hátign, sem drottnar yfir öllum eptirkomandi tilburðum, en nú vill uppbyrja að opinbera þá.

## 5. kapítuli.

§. 65.

„1. vers: Og eg sá í hægri hendi þess, sem á hásætinu sat,

„eina bók, skrifaða utan og innan, innsiglaða með sjö inn-
„siglum.“

2. v.: Og eg sá sterkan engil prèdika með mikilli röddu:
„hver er verðugur að uppljúka bókinni og brjóta hennar
„innsigli?“

„3. v.: Og enginn á himnum eða jörðunni, nè undir jörðunni
„gat upplokið bókinni, ei heldur sèð í hana.“

„4. v.: Og eg grèt mjög af því, að enginn varð fundinn verð-
„ugur að ljúka upp bókinni, eða lesa, eða sjá í hana.“

„5. v.: Og einn af öldúngunum sagði til mín: grát ekki, sjá!
„ljónið hefir unnið, sem er af ætt Júda, Davíðs rót, að
„opna bókina, og brjóta hennar sjö innsigli.“

„6. v.: Og eg sá, og sjá! miðt í meðal hásætisins og þeirra
„fjögra dýra (lifendra), og miðt í meðal öldúnganna, stóð eitt
„lamb, eins og slátrað, sem hafði sjö horn, og sjö augu,
„hver að eru sjö andar Guðs, útsendir í öll lönd.“

„7. v.: Og það kom og tók bókina af hægri hendi þess, sem
„á hásætinu sat.“

„8. v.: Og þá það hafði tekið bókina, fèllu þau fjögur dýr
„(lifandi) og þeir tuttugu og fjórir öldúngar fram fyrir
„lambinu, og hver hafði hörpu, og gullskálar fullar rey-
„kèlsis, sem eru bænir heilagra.“

„9. v.: Og súngu nýan saung og sögðu: þú ert verðugur
„að taka bókina, og brjóta hennar innsigli, því þú ert slátr-
„aður, og keyptir oss til handa Guði með þínu blóði af
„öllum kynkvíslum og túngum og fólki og heiðíngjum.“

„10. v.: Og hefir gjört oss að konúngum og prestum fyrir
„Guði, og vèr skulum stjórna yfir jörðunni.“

„11. v.: Og eg sá og heyrði margra engla rödd kríngum
„hásætið, og kríngum dýrin og öldúngana, og þeirra tala
„var tíu þúsundsinnum tíu þúsundir, og þúsundsinnum
„þúsundir“,

„12. v.: sem sögðu með mikilli röddu: lambið, sem er slátr-
„að, er verðugt, að meðtaka vald og ríkdóm og vísdóm og
„styrkleika og dýrð og lof og blessun.“

„13. v.: Og hver skèpna, sem er á himnum og á jörðunni,

„og undir jörðunni, og í hafinu, og allir hlutir, sem í þeim
„eru, (það allt) heyrði eg segja: þeim, sem situr á hásæt-
„inu og lambinu (sè) blessun og dýrð, og lof og kraptur
„um alla eilífð.“

„14. v.: Og þau fjögur dýr (lifandi) sögðu: amen! og þeir
„tuttugu og fjórir öldúngar fèllu fram og tilbáðu þann, sem
„lifir um alla eilífð.“

Líka þessi kapítuli er eintómis undirbúníngur einasta með þeim mismun, að hèr meðtekur sonurinn eptir sínum manndómi dýrðina af Guði, og er síðan lofaður af skèpnunni. Fyrst er þess eilífa Guðs hátign fyrir sjónir sett, og þar næst þessi hátign meðtekin af Kristó sem manni, hvað í sinni röð. Svo fjærlægt er allt álitið allri frekjutrú, óreglu og óskipun. Annars verður þessa kapítula efni og orðatiltæki nokkuð meir um að talast.

§. 66.

Bókin, sem umtalast í fyrsta versi, er forlög tíðarinnar, sem hinn almáttugi og alvísi Guð faðir hefir sett í sína eigin hönd; hennar innihald í innsiglunum er í spádóminum fyrir sjónir sett, eptir því, sem innsiglin eru brotin upp, og skiptist eptir þeim í sjö tímabil, sem meðal annars ljóslega sýnir, að básúnurnar ekki eiga að vera samfara innsiglunum, einsog Dankell meinar; því öll sú ókomna tíð er innifalin einúngis undir þeim sjö innsiglum, og því verða þær sjö básúnur að vera undirdeildir undir sjöunda innsiglinu, einsog Guldberg og fleiri útleggendur hafa nákvæmlega sýnt. Þessa örlaganna bók, sem máluð er undir mynd rollu nokkurrar, einsog fornmenn rituðu bækur á, gat engin skèpna á himni eða jörðu opnað (augljósa gjört). Syninum Jesú Kristó, eptir hans manndómi, var það einum gèfið.

§. 67.

Í 6. versi fyrirkèmur lambið (eitt bílæti Jesú Kristí, sem á vorum dögum ekki hefir sèrlegt meðhald, síðan menn tóku til að vilja reka, að honum væri offrað fyrir syndina,

en sem Jóhannes skírari þó brúkaði, og Jóhannes guðspjallamaður uppskrifaði eptir honum, og sjálf þessi himneska sýn sannaði rètt að vera) einsog það, sem hásætinu nær enn nokkuð annað; þessi sjö horn sýna þess margfalda vald, og þau sjö augu margháttaðan vísdóm, og þessi vísdómur, sem Jesús hefir, að því leiti hann er maður, er innifalinn í heilags Anda ótakmarkaðri íbúð; allt eru það fjærstæðar hugmyndir Gnostíka og annara svokallaðra villumanna, en öldúngis samkvæmar öðrum ritníngarinnar vitnisburðum.

§. 68.

Hið síðasta af lofsaungnum í 9. versi sýnist eiginlega undirtakast af öldúngunum, sem efalaust verða að vera manneskjur. Ef að þessi orð: keypt oss Guði til handa með þínu blóði, eiga líka að heimfærast til þeirra fjögra dýra (lifendu), yrði þau líka að vera af mannkyninu; en það sýnist, eptir því, sem þeim er lýst, ekki líklegt; og er það ofurgèfið hinum lærðu að ransaka.

Ná koma hèr á eptir bílætin eður spádómurinn sjálfur.

## Fyrsta höfuð-atriði í bókinni,

um þeirrar undirþrykktu kyrkju eður þeirra heiðnu ofsókna tíðir og kristinndómsins sigur.

### 6. kapítuli.

§. 69.

„1. vers: Og eg sá, að lambið opnaði eitt af þeim innsigl-
„um og heyrði eitt af þeim fjórum dýrum (lifendum) segja
„sem þrumurödd: kom, og sjá!"

„2. v.: Og eg sá, og sjá þú! hvítan hest, og sá, sem sat á
„honum, hafði boga; og honum varð gèfin kóróna, og hann
„fór út, og hafði sigur, og hann átti að sigra."

Newton, sem heldur, að Jóhannes hafi sèð þessar sjónir á Nerons dögum, og fyrir Jerúsalems eyðíngu, gjörir úr þessum sigurherra Vespatíanana, sem líka útfærðu Guðs dóm yfir Gyðíngum; en það er nokkurnveginn sýnt, að

sú tíð var liðin, þegar Opinberunarbókin var skrifuð. Guldberg og margir aðrir halda það sè Kristur sjálfur, en Dankell efar það, af því þessi ekki einsog Kristur brúkaði sverð síns munns, heldur boga, og segir hestar finnist í spádómsstíl að merkja ráðgjafa eður aðstoðarmenn. þetta hefir álit; en þegar eg aðgjæti, að heiðnir keisarar, sem Dankell hèr vill undirskilja, og gengu í móti kristninni, voru ekki sèrlegir ofsóknarar hennar á nærsta mannsaldrinum eptir Domitíanus, þó Trajanus lèti tæla sig þar til, svo þá þyrfti þanninn að mála sèrílagi, og þar fyrir utan höfðu þeir ekki sigur með ofsóknum sínum, og enn síður áttu að sigra; þá er líkast að trúa Guldberg og hans meðvitnum, einkanlega þar vèr fáum seinna að sjá i bókinni Kristum sjálfan í raun og hans heilaga sitjandi á hvítum hestum, til þess að gjöra enda á því stríði, sem hèr byrjaðist. Hestarnir merkja þá ekki allstaðar ráðgjafa, heldur framsetjast að nokkru leiti til þess að gèfa sigurherrum tignarlegt útlit. Menn kynni og segja ef menn vildi, að Kristur sjálfur sè hèr ekki eiginlega málaður í persónu, heldur hans lærdómur, og þá gátu þeir, sem útbreiddu hann um veröldina, kallast hestarnir. En það er máskè hèr ekki ætlað svo nákvæmlega til um hestana; hitt er víst, að Krists lærdómur fór út (fram) í veröldinni undrunarlega sigursæll á dögum keisaranna Nerva, Trajans, Hadríans og Antoníns hins góða, og vel að merkja, ei alleina hafði sigur, heldur og átti að sigra framvegis, sem ei verður sagt um ofsækjendur hans; hann varð þá kórónaður, og boginn gètur merkt hans fljóta framgáng og lánga yfirflog; svo Bengel, sem eg seinna hefi sèð, finnst mèr með engum líkindum gèta heimfært þetta uppá sigursældir Trajans keisara í Austurvegi, eður aðrir, sem því fylgja; því eg veit víst, að Opinberunarbókin ekki er að lýsa veraldlegum stjórnendum, eiginlegleikum þeirra eða athöfnum, hvorki í þessu innsigli, nè hinum nærstu, og hvergi. Vigti menn röksemdirnar hvorutveggju. Enn þá til staðfestíngar, þá er þessi fyrsta spádóms-sjón í bókinni viðkomandi hinni stríðandi kyrkju, og hin síðasta er Kristur, líka svo á hvít-

um hesti, sem bókin sjálf skýrir, svo hann jafnvel verður hèr á þann hátt bæði hinn fyrsti og síðasti. sèrleg samstemma! — Menn sjá djúpa heilaga undirstöðu og niðurskipun í öllu, sem enginn frekjutrúarmaður hefði nokkurntíma gètað hugsað svo reglulega, og aldrei hefir hugsað frá veraldar upphafi, því síður haldið við það alla bókina til enda; fyrst og seinast er Kristur sá, sem stríðir fyrir kyrkjuna; fáir hafa einusinni, eptir það þeir hafa þó sèð og lesið spádóminn, hitt á þennan háa þánka, varla sjálfir hinir lærðustu (og mèr eigna eg hann ekki nema að því leiti Guldberg vekur mig), og hverninn átti þá Jóhannes, eða nokkur annar, að gèta komið fram með hann, miðt undir dýpstu frásèrnumníngum, hvert þær væri sannar eða ímyndaðar og haldið við hann til enda, og það án þess að taka eptir því? Ekki að tala um að fyrirsegja það, að kristinndómurinn skyldi sigra fyrst og seinast; hver gat það nema Guð? [1]

§. 70.

„3. v.: Og þá það (lambið) lauk upp öðru innsigli, heyrði „eg hið annað dýr (lifanda) segja: kom og sjá!"

„4. v.: Og þar gèkk út rauður hestur, og þeim, sem sat á „honum, varð gèfið að taka friðinn burt af jörðunni. og að „þeir skyldi slátra hver öðrum, og honum varð gèfið sverð „mikið."

Látum oss nákvæmlegar aðgjæta:

§. 71.

Einsog Kristur sjálfur var hinn fyrsti í stríðinu móti óvinum sinnar kyrkju, og verður hinn síðasti, koma nú fram hans herar til að typta þá mótþróanlegu; það eru óhamíngjur, sem fljóta af sjálfu sèr, og ei verða umflúnar, hvar sem hans sanni lærdómur er vanvirðtur. Guldberg, sem ekki vill

---

[1]) Williams og hinir ensku ætla um þessa sjón sama og eg, og hafa hverngir tekið það eptir öðrum; einasta er þeirra hugmynd miklu flóknari, og eg held rugluð, sem bráðlega mun sýnast.

heimfæra uppá neitt ákveðið, og gjörði án efa þarí vel í sinni stöðu, jafnvel þó meira sè með, enn í móti, heimfærslum í tilliti umliðinna tíða, þegar þær sanna sífeldt spádóminn, og allrahelzt þegar háski nálægist, útleggur þó þetta um herskáar tíðir, helzt innbyrðis, og Newton mun útleggja það sæmilega líklega. þarámóti verður Dankell, vegna síns þúnga fyrirtækis, að láta básúnurnar verða samfara innsiglunum, neyddur til að teygja þessa innsiglis tíma allt ofan til hinnar þriðju aldar, og eins lengja þau, sem þareptir koma, hvar við útleggíngin verður þekkjanlega ósamkvæmari þeim tíðum, sem hann tekur til; og þetta þènar, meðal annars, til að sanna spádóminn, að hver misleikur í tímareikníngnum gjörir hann óskiljanlegri. Hið vissasta mun verða, að venda augunum til tímarúmsins frá dauða Antoníns hins góða til einveldis Severuss. Á Antoníns dögum var svo ríkur friður, að aldrei hefir þvílíkur verið á jörðunni. Í 24 ár var engin styrjöld, sem sagnafræðin veit af, frá Ganges fljóti vestur til Herculis stólpa, og frá Saharu eyðimörk til elfar norður; þvílíkt verður ekki sagt um Augustus's beztu tíðir, en eptir hans dauða á dögum Marcus's Aurelius's hófst ofsókn móti kristninni, og undir eins urðu Rómverjar yfirfallnir af sextán þýzkum, sarmatiskum og norðurlenzkum þjóðum og þúngri drepsótt, einninn styrjöld milli keisarans Partha og Avidiuss's Cassius's, er þá kom upp; og litlu síðar varð hin mesta innbyrðis styrjöld í milli Severus's og hans meðbiðla um ríkið. Friðurinn veik burt af jörðunni með Antoninusi góða, og kom aldrei aptur, allt til vorra tíma, slíkur, sem á hans dögum var.[1] Hver gat um æfinlega tímaröð fyrirsagt þetta nema Guð?

---

[1]) Hvað þetta innsigli áhrærir, heldur Williams ekki nauðsyn að fara eptir hans fyrir sig tekinni meiníngu (að spádómurinn byrji skömmu eptir Kristi daga) svo nákvæmlega, að menn reikni innsiglin fyrir tímabil slík, að hvert fylgi fast eptir öðru, ætlar þó að þetta komi við tilburðunum við Jerúsalems eydíngu, og talað sè um burttekníngu friðarins milli Rómverja og Gyðínga. Menn dæmi hlutdrægnislaust, hvort ekki mín ná-

§. 72.

„5. v.: Og þá það (lambið) lauk upp þriðja innsigli, þá heyrði „eg hið þriðja dýr (lifanda) segja: kom og sjá! og eg sá, „og sjá þú! svartan hest, og sá, sem sat á honum, hafði „met (mundáng) í hendi sèr."

„6. v.: Og eg heyrði rödd eina, meðal þeirra fjögra dýra „(lifendra), einn mælir hveitis fyrir einn peníng (denaria) og „þrjá mæla byggs fyrir einn peníng (denaria), og þú skalt „ekki gjöra olíu og víni skaða."

Hèr eru aptur mismunandi útleggíngar, jafnvel þó bæði hið undanfarna og eptirkomandi sýni hverri tíð það tilheyrir.

§. 73.

Dankell, sem eptir sínu undirlagi, teygir þetta og heimfærir til daga Constantínus's og Ariana deilu, útleggur hèr efalaust allt of andlega; því sumpart á spádómur ei einúngis að afmála andlegt ástand, heldur og líka veraldlegt það, sem kyrkjunni viðkèmur og hennar ofsækjendum; sumpart er þetta svo lángt niðursett í tímann til að koma því saman við básúnurnar, að því verður ekki samsinnt. Því með því, að láta ekki básúnurnar vera innifaldar í seinasta innsiglinu, og innsiglin innihalda alla kyrkjunnar stríðstíð, missa menn sjónar á undirstöðu í bókinni; og eptirfylgjandi hlutir, sem finnast í innsiglunum, eru þekkjanlega uppfylltir fyrri enn Constantínus tók ríki. Þar með eru ekki keisaranna persónur afmálaðar, sem nokkrir meina sèu þeir, sem sátu á hestunum, heldur Krists stríðsmenn, sem refsuðu ofsækjend-

---

kvæma heimfærsla uppá tíðir, sem hver er næst annari, og ekki heldur fylgir Bengel í því, að hverfa aptur til Trajans daga, og einkum í tilliti burttekníngar friðarins af jörðunni með dauða Antonins góða, og það æfinlega hefir meiri líkindi fyrir sèr enn annara ætlanir. Fyrir hins nefnda Antoniuss daga var enginn stöðugur friður á nokkru landi, og eptir þá kom hann aldrei aptur, hvorki í kyrkjunni nè í ríkjunum. En þvílík trublun og ósamþykki í ætlunum manna kèmur af fyrirfram innndrukknum meiníngum, sem ekki setja rètt niður þann tíma, sem byrja skal á frá að telja; sem hèr voru Domitíans fráfalls tíðir.

unum, annaðhvort styrjöld, drepsótt eða húngur. Guldberg útleggur þessa sjón beint fram um gróðurleysi og húngursneyð, þá daglaunamaður sá, sem innvann einn denaria á dag, gat ekki hjálpað húsi sínu, þá allt var svo dýrt. Þó menn haldi með Dankell að olían og vínið, sem ekki mátti spilla, eigi að skiljast um Guðs anda gleði og huggun í orðinu, og þessvegna hljóti líka að ætla að kornið sè eitthvað andlegt, sem þó er ei gott að koma saman, þar hèr er ei verið að tala um þreyngíngar kristinna, gjæti maður helzt skilið fyrir brauðið þá almennu Guðs þjónustu, sem varð dýr í eptirfylgjandi ofsóknatíð, en við olíuna og vínið, trúarinnar sanna krapt. En eg vildi gjarnan umflýa slíkar margþýðandi útleggíngar, helzt þar óvíða í Opinberunarbókinni gèfst efni til þeirra; því hún setur optast fyrir sjónir einúngis mikilvæga hluti með sterkum afmálunum; allt tvíræðt og litilvægt er í móti hennar anda. Að hèr þá sè, að minni meiníngu, einn af hinum myrkvari stöðum, kann að koma til af því, að spádómurinn líti hèr meira til að fylgja tímaröðinni, og finni ekki fyrir sèr, í milli hins fyrri umgètna merkilega tímabils og hins eptirkomanda, sem er eins merkilegt, en hann vill ekki blanda saman með öðru ómerkilegu, neitt framar náttúrlegt, að afmála undir þriðja innsiglinu, enn harðinda tíð — heldur enn svo nauðsynlegt þyki að leggja þetta innsigli svo nákvæmlega út; þó sýnist Guldberg hafa þekkt þvílíkt ástand í byrjun þriðju aldar, en hann líka mikill historíumaður. Svo mikið er auðvitað, bæði af því, hvað greinilega hið undanfarna sýnir sig, og svo það, sem eptirkèmur, að þetta innsigli inniheldur fyrra hluta þriðju aldar, og um þann tíma er eg ekki nógu sagnafróður til að útskýra, hverninn spádómurinn allra nákvæmlegast hefir framkomið; samt hljóta efalaust á dögum Severus's keisara og þeirra, sem eptir hann komu, hver tíð mjög var ókyrr, og hafði með sèr bæði styrjöld og ofsóknir, og mjög slæma og plágugjarna stjórnendur, t. d.: Heliogabalus, að hafa verið harðindi og hryggilegar ástæður.

§. 74.

„7. v.: Og þá það (lambið) opnaði hið fjórða innsigli, heyrði
„eg rödd hins fjórða dýrsins (lifanda) segja: kom og
„sjá!

„8. v.: Og eg sá, og sjá þú! bleikan hest, og sá þar sat
„á honum, hèt Dauði og Helvíti (gröfin, djúpið) fylgdi ept-
„ir honum, og honum varð gèfið vald til að deyða hinn fjórða
„part á jörðunni með sverði og með húngri, og með drep-
„sótt, og fyrir (villu)-dýrin á jörðunni."

Látum oss nú sjá, hverninn þetta kèmur heim.

§. 75.

Dankell, sem meir og meir dregur innsiglin oflángt ofan í tíðina, heimfærir þetta til ógna þjóðaflutnínganna og yfirgángs útlendra (barbariskra) þjóða; en þó þær væri ógurlegar, jöfnuðust þær þó ekki að ógnun við hinn seinna helmíng þriðju-aldarinnar, þá þeir vísu heiðnu Rómverjar ofsóktu hið skèlfilegasta kristinndóminn, og Guð aptur straffaði þá svo harðlega, að heiðíngjarnir fundu sjálfir, að guðdómsins þekkjanleg hefnd gèkk yfir þá. Newton hefir allheppilega hitt þetta; þó heimfærir hann ofmjög uppá einstaka menn, og byrjar með keisaranum Maximinusi thraciska; mèr sýnist betra sè, að byrja með tímum Decius's keisara; á nærstu 50 árum þareptir gengu ekki færri enn fjórar eða fimm stór-ofsóknir yfir kristnina; en þá voru jafnframt landskjálftar, svo að margir staðir sukku, hallæri og húngur, óteljandi siðlausra þjóða yfirgángur, Persanna skèlfilegt ofurefli, drepsótt, sem gèkk yfir allt Rómaríki ekki skèmur enn um 15 ár, og svo margar uppreistir, að í senn uppkomu 30 keisarar. Yfirhöfuð var tíðin þanninn, að heiðíngjarnir ætluðu heimurinn mundi kollsteypast; en almennt voru þá kristnir mest fríir frá náttúruumbrotunum og mannmerktu sig með því, að jarða ofsækjendur sína. Það er merkilegt, að þau fjögur dýr (lifendu) kríngum Guðs hásæti, leiðbeindu spámanninum í að sjá yfir ofsóknatíðirnar, og það með ljónsmyndinni sýndi honum sigurinn; það með kálfsmyndinni

slátrið; það með mannsmyndinni þraung og nauð, og það með hræfuglsmyndinni eyðileggíngarnar; svo fagurlega samstemmandi málar bókin allt. Og þar engin tíð er afmáluð svo skèlfilega í þessari bók, einsog sú þetta innsigli ber með sèr, að frátekinni hinni síðustu í afgrunnsdýrsins tímabili, og menn líka vita, að aldrei hafa jafnmargar plágur gengið yfir hið rómverska ríki, sem í seinni helmíngi þriðju aldar, og þarmeð, að nú er maður rètt í tíðar framleiðslu spádómsins,[1] gètur maður ei annað enn samþykkt, að þessa innsiglis forspá er hèr mjög nákvæmlega framkomin. Að fjórði partur jarðarinnar (ákveðin tala fyrir óákveðna) er mikill hluti jarðarinnar, er auðskilið — hver gat í framhaldandi tímaröð sagt þetta fyrir nema Guð?

§. 76.

„9. v.: Og þá það (lambið) opnaði hið fimta innsigli, sá eg „undir altarinu sálir þeirra, sem slátraðir voru fyrir Guðs „orðs sakir, og fyrir þess vitnisburðar sakir, sem þeir höfðu.“
„10. v.: Og þeir kölluðu hárri röddu og sögðu: Þú, sem „ert hinn heilagi og hinn sanni, hvað lengi dæmir þú ekki, „og hefnir vors blóðs á þeim, sem á jörðu búa?“
„11. v.: Og þeim urðu gèfnir hvítir kyrtlar, og sagt varð „til þeirra, að þeir skyldi hvílast enn litla stund, þar til „einninn samþjónar þeirra og bræður kjæmu þar fyllilega „til, sem hèreptir mundu líflátast einsog þeir.“
Hèrvið er mikið að athuga.

§. 77.

Hèr skiptir atriðið um. Ofsóknirnar og plágurnar á þeim þvermóðugu heiðíngjum er að sönnu búið um að tala; en við hina síðustu ofsókn á Diocletianó og hans eptirfylgjenda dögum er kallað, að píslarvottanna blóð hrópi hefnd af Guði.

---

[1]) Williams og hinir Ensku samstemma mèr hèr fullkomlega, þó hvorugir hafi vitað til annara útleggíngar, og eins um 5. og 6. innsiglið; svo ljósir eru allareiðu þessir spádómar orðnir fyrir mörgum. Að Bengel vísar enn þessu innsigli til Trajans daga, sýnist mèr fjarstæðt.

Dankell heimfærir þetta með sinni lengíngu innsiglanna til 5. og 6. aldar, en það kèmst enganveginn heim. Hin tíðin var hin blóðugasta og hræðilegasta fyrir kristna og samstemmir þarmeð framgángi tímans. Þeir, sem ekki taka Opinberunarbókina fyrir fullgilda, einsog Michaelis, eða gjöra hana að kvæðisdikti, eða halda inntak hennar endi, þá heiðnin vanmegnast (undarlegur þánki! rètt einsog Guð vissi fyrirfram eða gjæti opinberað mönnunum hulda hluti þángaðtil, og ekki lengur, og Kristur skyldi láta sína þjóna vera óvissa um allt þaðan í frá), þessir gèta engan veg komist með þennan spádóm, eður neinn, sem þar eptir kèmur. Og þeir, sem ekki virða opinberunina meira enn draum, skilja aldrei eitt orð í henni. Þanninn hefir rángt álit, í samstemmu við það, hvað þess rángsýni er mikil til, ætíð með sèr því svarandi myrkur í skilníngninum (í hverju sem er). Samlíkíngarnar, sem hèr standa, eru þekkjanlega teknar af offrunum, hverra blóð — sem sálin er í — sagði Móses — úthellt var við altarisfótinn; þanninn var nú (í samlíkíngu) píslarvottanna blóð úthellt við Guðs brennifórnar-altari í himninum, af því þeim var slátrað og offrað fyrir Guðs og Krists málefni, og enn voru þeirra morðíngjar órefstir. Þar fyrir er sagt, að blóðið hrópi til Guðs einsog Abels, í móti þeim jarðlega sinnuðu manneskjum. Að þeir sèu allareiðu sælir, og einúngis þeirra blóð hrópi, ekki þeirra eptirlángan, það merkja þeirra hvítu klæði; en þeirra fullkomnu vegsemdar í upprisunni skulu þeir fyrst vænta eptir það, að allra Guðs píslarvottatala er fullkomnuð undir hórunni og dýrinu af afgrunninu, og þeirra ofsækjenda straff mun smámsaman koma.

## §. 78.

Allt þetta er án efa andstæðt álit því, er natúralistar og rationalistar hafa; en vèr skulum á sínum tíma enn framar reka tilbaka þeirra innbyrlíngar-vísdóm, að svo miklu leiti skèð gètur í svo stuttri ritgjörð, bæði af spádóminum og allri annari kènníngu ritníngarinnar, bæði af nátt-

úrunni og reynslunni, og bæði af skynseminni sjálfri, og sjálfra þeirra sjálfsmótsögnum.

§. 79.

„12. v.: Og þá það (lambið) opnaði hið sjötta innsigli, sjá! „þá gjörðist mikill landskjálfti, og sólin varð svört sem „hærusekkur, og máninn varð öldúngis eins og blóð."
„13. v.: Og stjörnurnar fèllu niður á jörðina, einsog fíkju„trè fleygi niður fíkjum sínum ófullvöxnum, þá það hrist„ist af sterkum vindi."
„14. v.: Og himininn veik burt sem bók sú, er saman er „vafin, og hvert fjall og ey hrærðist úr þeirra stöðum."
„15. v.: Og jarðarinnar konúngar og stórhöfðíngjar, og hin„ir auðugu og höfuðsmenn yfir þúsundum, og maktarmenn „og hver þræll og hver frelsíngi, huldu sjálfa sig í hellr„um og í klettum í fjöllunum."
„16. v.: Og kölluðu til klettanna og fjallanna: fallið yfir oss „og hyljið oss fyrir augliti hans, sem situr á hásætinu, og „fyrir reiði lambsins."
„17. v.: Því hinn mikli dagur hans rèiði er kominn, og hver „fær staðist?"

Hèr gèt eg nú hvorki gengið eptir Dankells útleggíngu, sem er orðin mikið oflángt dregin ofan i tíðina, og þarfyrir utan — þó hann hefði ekki óheppilega sýnst að útleggja sólina uppá sannan kristinndóm, stjörnurnar um lærara, o. s. frv., sem formyrkvast mundi við páfadóminn — þó gengur hèr afvega frá bókarinnar tilætlan, sem er, að útskýra Guðs refsidóma yfir hans kyrkju-óvinum; ekki heldur finnst nein umbyltíng við páfadóminn í 7. og 8. öld, sem er lík þessari hèr umgètnu; ekki heldur tekið svörum við forna útleggjendur, sem af þekkíngarleysi þýddu þetta uppá síðasta dóm; hverju mèr með furðu sýnist Bengel hálfvegis hafa samþykkst, þvert á mót allra útleggjenda meiníngu, með því, að taka hèr sól, mána og stjörnur í eiginlegri merkíngu.

§. 80.

Þessi staður er fullkomlega útlagður af Matth. 24, hvar Jesús fyrirsegir með líkum orðtökum Gyðíngastjórnarinnar (máskè líka seinni kristinndóms óvina) eyðileggíngu, samt af þeim fornu spámönnum um Babylon og aðrar stjórnir; og framgángurinn í tímanum sýnir nákvæmlega, hvar þetta á heima. Hin mikla ofsóknarfulla rómverska stjórn fèll um koll fyrst á fjórðu öld fyrir annari kristinni, sem ekki svo mikið sem hafði Róm fyrir höfuðborg, og átti að rísa upp í hinnar stað, og það fullgjörðist ekki fyrir utan marga ógurlega tilburði. Hver gat sèð þetta fyrir í rèttri tímaröð, nema Guð? [1]

## 7. kapítuli.

§. 81.

„1. v.: Og eptir þessa hluti sá eg fjóra engla standa á fjór-
„um hornum veraldarinnar, sem hèldu fjórum vindum jarð-
„arinnar, svo að enginn vindur blèsi á jörðina, ei heldur á
„hafið, ei heldur á nokkurt trè."

„2. v.: Og eg sá annan engil uppstíga af uppgaungu sólar-
„innar, sá hafði innsigli lifanda Guðs, og kallaði hárri
„röddu til þeirra fjögra engla, sem gèfið var að granda
„(jörðunni og hafinu)."

„3. v.: Grandið ekki jörðunni, ei heldur hafinu, ei heldur
„trjánum, þángaðtil vèr fáum innsiglað (markað með inn-
„sigli) vors Guðs þjóna í þeirra ennum."

---

[1]) Eg fæ ei undanfellt að hreifa furðu minni yfir bókarinnar fögru niðurskipun. Heil sex innsigli (tala, sem ætíð endar á ofsóknum, og undirbýr sigur sannleiksins) eru opnuð á meðan kyrkjan er enn undirþrykkt, þanninn, að næsta tíðin spádóminum er mest afmörkuð; en hið sjöunda skal innihalda allt tímabil hinnar ríkjandi kyrkju. En af því að þetta er svo lángt, þá er því aptur skipt í sjö básúnur, til að gèta afmálað það því greinilegar; og þar sjöunda básúnan er sú merkilegasta, skiptist hún aptur í sjö deildir. En þegar þetta þrefalda sjöundar tal er á enda, byrjast Guðs ríki einsog nýr drottinsdagur á jörðunni. Hver gat nú úthugsað þvílíkt, og látið það samstemma tíðinni, og hana því, nema Guð?

„4. v.: Og eg heyrði þeirra tölu, sem innsiglaðir voru, „hundrað fjörutíu og fjórar þúsundir af öllum Ísraels „kynkvíslum.“

„5. v.: Af Júda kyni tólf þúsundir innsiglaðir; af kyni „Rúbens 12 þúsundir innsiglaðir;“

„6. v.: af kyni Gaðs 12 þúsundir innsiglaðir; af kyni Ass-„ers 12 þúsundir innsiglaðir; af kyni Nephthalims 12 „þúsundir innsiglaðir; af kyni Manasse 12 þúsundir inn-„siglaðir;“

„7. v.: af kyni Simeons 12 þúsundir innsiglaðir; af kyni „Leví 12 þúsundir innsiglaðir; af kyni Ísaskars 12 „þúsundir innsiglaðir;“

„8. v.: af kyni Sebúlons 12 þúsundir innsiglaðir; af kyni „Jósephs 12 þúsundir innsiglaðir; af kyni Benjamíns „12 þúsundir innsiglaðir.“

Englar takast í þessari bók, einsog yfirhöfuð í spámanna-stíl, fyrir allrahanda Guðs sendiboða, himneskar persónur, fèlög, sem til hins sama miða, einstakar maktir, náttúrukrapta, sem framfylgja Guðs tilætlun, og fl., eptir því, sem samanhenginu og þeirra sýslunum er varið, og þá öllum útleggjendum kèmur saman um, að þessi sjón hángi af sjötta innsiglinu, þar hið sjöunda er enn ekki opnað; þá gèt eg ekki hèr fylgt Dankell, vegna hans áður umgètnu tímavillu, utan að því leiti, að innsiglunin á líka heima á seinni tíðum, þar Guðs þanninn útvaldi söfnuður átti að viðhaldast framvegis, og því kèmur talan seinna fyrir í bókinni.

§. 82.

Í fyrsta versi stöðvar Guð þær yfir jörðina framvegis fallandi byltíngar, þángaðtil hann hefir styrkt þá, sem hann álítur fyrir sína sanna dýrkendur, andlega Ísraelíta. Mig furðar ákaflega að sá skynsami Bengel (sem eg nú sè) hefir gètað fallið uppá, að hèr meintist Ísraelítar eptir holdinu, enda er lítið innihald í allri útleggíngu hans yfir þennan kapítula. Bílætið er hèr spámannlegt, og þeir áttu að merkjast Guði einsog liðsmenn og þjónar voru merktir í fornöld. Ísraels ættir teljast upp, sumpart til að fylla bílætið, sumpart

til að sýna, að Guð útvelur sèr menn af allrahanda þjóðum; Dans og Ephraims ættir, í stað hverrar Jósephs er sett, eru útiluktar; sýnist það gjört til að gèfa því meiri viðbjóð á afguðadýrkun, þeim lesti, sem tíðkaðist á eptirkomandi tímum, því hin fyrri kynkvíslin fèll til hennar fyrri enn hver önnur; en hin síðari varð þar í öðrum frekari. Annars er tala hinna útvöldu sett ákveðin í staðinn fyrir óákveðna, og einsog sannkristnir kallast Ísraelítar, svo kallast afvegaleiðendur og afguðadýrkarar Bileamítar, Jessabel og svo framvegis, í bílæta túngumálinu; samanber Guldbergs N. T.

§. 83.

„9. v.: Þareptir sá eg, og sjá! mikill skari, er enginn mátti „telja, af öllum heiðíngjum og kynkvíslum, og fólki, og „túngumálum, stóð fyrir hásætinu og fyrir lambinu, klædd„ir hvítum klæðum og með pálmagreinir í þeirra höndum."

„10. v.: Og þeir kölluðu hárri röddu og sögðu: sælan sè „vorum (sæluna höfum vèr af vorum) Guði, sem situr á „hásætinu, og af lambinu."

„11. v.: Og allir englar stóðu umhverfis hásætið og um„hverfis öldúngana, og umhverfis þau fjögur dýrin (lifend„ur) og fèllu framm á þeirra ásjánir fyrir hásætinu, og til„báðu Guð og sögðu:"

„12. v.: Amen! blessun og dýrð, og speki og þakkargjörð, „og lof og kraptur og styrkleiki, tilheyrir vorum Guði um „alla eilífð, amen!"

Hèr sýnir Jesús Jóhannesi áður enn úti er sjötta innsiglið, hversu óteljandi manneskjur urðu eilíflega hólpnar í ofsóknatíðinni, og hverninn hann hefir sameinað allar ypparlegar manneskjur með Guðs englum á himni og jörðu.

§. 84.

„13. v.: Og einn af öldúngunum svaraði og sagði til mín: „hverjir eru þessir, sem skrýddir eru hvítum skrúða? og „hvaðan eru þeir komnir?"

„14. v.: Eg svaraði: minn herra! þú veizt það. Hann sagði:

„þessir eru þeir, sem komnir eru frá hinni miklu ofsókn,
„og þeir hafa þvegið þeirra klæði, og gjört þau snjóhvít
„í lambsins blóði."
„15. v.: þarfyrir eru þeir nú frammi fyrir hásæti Guðs,
„og þjóna honum dag og nótt í hans musteri; og hann,
„sem á hásætinu situr, mun skýla þeim."
„16. v.: þá mun og ekki húngra framar, ei heldur þyrsta
„framar; þar mun og ei heldur falla sólin á þá, nè held-
„ur annar brunahiti."
„17. v.: því lambið, sem er miðt í hásætinu, mun fóðra þá,
„og leiða til lifandi vatnsbrunna, og Guð mun þurka allan
„grát af þeirra augum."

Hversu nákvæmlega samstemmir ekki þessa öldúngs útleggíng áður gjörðum skýríngum, í tilliti tíðarinnar og hennar miklu ofsókna, einkum hinnar síðustu! Hversu ljóslega er ekki þar hjá kènnt bæði hèr og allstaðar, að sjálfir þessir dygðugu og píndu sèu þó alleina orðnir sáluhólpnir fyrir Jesú offran og blóðsúthellíngu, en enganveginn fyrir eigin verðskuldan?

Nú eptirfylgir hið sjöunda innsigli með þess undirdeildum, sem sýnir kyrkjunnar ástand síðan hún varð ríkjandi (fèkk yfirhönd).

---

## Þriðja Deild,

um þá ríkjandi (yfirhönd hafandi) kyrkju.

---

# Annað höfuð-atriði í bókinni,

um þeirrar ríkjandi kyrkju útvortis-ástand yfirhöfuð, þartil undir sjöttu básúnu í dýrsins tíð.

## 8. kapituli.

### §. 85.

„1. v.: Og þá það (lambið) opnaði hið sjöunda innsigli, gjörð-
„ist kyrrleiki í himninum nær um hálfa stund."

Fyrir himininn tekur Dankell allstaðar Guðs sönnu kyrkju, það lætur sig heyra; en hèr í bókinni fyrirkèmur hann helzt og eiginlega sem hlutanna gángs ákvörðun hjá Guði, helzt

yfir jarðarinnar drottnum. Þarámóti gètur nefndur rithöfundur, sem náttúrlegt er, ekki ánægjulega útlagt þetta sjöunda innsigli, af því það inniheldur þær sjö básúnur,[1] hverra raddir hann byrjar að heimfæra allt of snemma, til að gjöra þær samfara með innsiglunum. Þær innihaldast, sem sagt er, allar í sjöunda innsiglinu, og ásamt sú litla bók, sem síðan umtalast, er nákvæmlegar á að útlista kyrkjunnar innvortis ástand, síðan hún varð ríkjandi (þar höfuð-atriðið útlistar eiginlega það útvortis), svo vel sem dýrsins tíma, og allt hið annað af Opinberunarbókinni til lykta kyrkjunnar stríðstíðar. Hin stutta kyrð við opnun innsiglisins, fellur ljósast að sè kristninnar stutta hvíld eptir ofsóknirnar, eður frá Liciniа s's falli til uppkomu arianiskra.

§. 86.

„2. v.: Og eg sá þá sjö engla, sem standa fyrir Guði, og „þeim voru gèfnar sjö básúnur."

„3. v.: Og annar engill kom og stóð fyrir altarinu, og hafði „gullreykèlsiskèr, og honum varð gèfið mikið reykèlsi, svo „að hann skyldi gèfa það til bæna allra heilagra, á gull„altarið, sem er fyrir hásætinu."

„4. v.: Og reykurinn af reykèlsinu gèkk upp undir bænum „heilagra af engilsins hendi fyrir Guð."

„5. v.: Og engillinn tók reykèlsiskèrið og fyllti það með eld„inn af altarinu, og fleygði því á jörðina; og þar urðu „þrumur og raddir (laung slög) og eldingar og landskjálftar."

Guðs æðstu þènurum eru hèr fengin verkfæri brúkuð í her, sem víða koma fyrir í spámannastíl, einsog Ísraels prestar

[1]) Williams og þeir honum fylgja, halda líka básúnurnar sèu ný röð af spádómum; en Gulberg, og eg eptir honum, höfum, sem eg hygg, fullkomlega sannað, að það er ekki rètt. Rullan, sem lambið opnaði, hafði ekki nema sjö iunsigli, og í þeim varð allt ókomið að vera fólgið, svo það opnaði síðan ekkèrt nýtt, og annar enn það, gat ekkèrt opinberað. Hvaðan átti þá sú nýa röð af spádómum að koma, sem var fyrir utan innsiglin og bókin að nefna hana hvergi? Tíma-reikuíngur, sem Bengel er eg nú sè gjörir úr þeim hálfa tíma, og annar tímareikníngur hans, verður ei sannaður; hvarum seinna fleira.

höfðu, áður Jerichó fèll, til að boða aðgaungurnar að óvinum kyrkjunnar, sem er mjög merkilegt, þar veldi dýrsins af afgrunninu, og hins falska spámanns og hin andlega Babylon eiga að falla sömuleiðis við hina sjöundu básúnu. En einn annar engill gjörir reykèlsi fyrir Drottni, meðan hinir heilögu á jörðunni biðja, því þeir eru í nauð, eða koma bráðum í hana.

§. 87.

„6. v.: Og þeir sjö englar, sem höfðu þær sjö básúnur, „höfðu tilreiðt sig, að þeir skyldi básúna."

„7. v.: Og hinn fyrsti engill básúnaði, og þar gjörðist hagl „og eldur blandað blóði, og var fleygt ofaná jörðina, og „hinn þriðji hluti trjánna brann upp, og allt grænt (gras) „brann upp."

Dankells útleggíng, sem eptir sínu undirlagi (að láta básúnurnar vera samfara innsiglunum) heimfærir þessa básúnu til annarar aldar, og þessvegna verður að gjöra úr hinum fyrsta engli hina gnostisku villumenn, gètur ei komið hèr til álita. Básúnurnar eru þarfyrirutan refsidómur yfir óvinum hins sanna kristinndóms, einsog flestallir aðrir spádómar í þessari bók, sem er sanntrúuðum til huggunar, en ekki skèlfíngar. Og um englana er sagt, að þeir standi fyrir Guði, sem alls ekki gètur sagst um villumenn. Látum oss fylgja fram tímaröðinni, fyrst vèr gètum það, og það fellur bæði hægast og náttúrlegast og kèmur saman við historíuna.

§. 88.

Hin fyrsta engilsbásúna er innbyrðis styrjöld í hinu rómverska ríki, sem innfèll á dögum Constantinus's sona, þá kristinndómurinn allareiðu tók að kólna, og var umsnúinn í þrætur um trúargreinir.

§. 89.

„8. v.: Og hinn annar engill básúnaði, og einsog mikið bjarg

„brennandi af eldi var fleygt í hafið, og þriðjúngur hafsins „varð að blóði.“

„9. v.: Og þriðjúngur lifandi skèpna í hafinu dó, og þriðjúngur skipanna týndist.“

Hinu rómverska ríki er gjarnan samlíkt við jörð og haf, nú einkanlega við hafið, þar það tók að umrótast af allrahanda þjóðum, af hverjum hafdýrið uppkom, sem seinna bar hóruna. Með líkum orðtökum fyrirsegir Jeremias Babylonar ríkis þreyngíngu af útlendum þjóðum; einasta er Opinberunarbókin ýtarlegri, og gengur fram í betri röð enn flestir spádómar aðrir. Newton gjörir úr fjallinu Attila Húna-konúng, en eg trúi ekki það verði sannað, að þessi bók lýsi nokkurstaðar einstökum mönnum sèrílagi[1]; herjandi útlandaþjóðir afmálast yfirhöfuð. Sjálfur Kall sagnafræðismaður, kallar þær framveltandi bjarg.

## §. 90.

„10. v.: Og hinn þriðji engill básúnaði, og þar fèll mikil „stjarna af himni, og logaði sem blys, og fèll á þriðjúng „rennandi vatna og á vatnsuppspretturnar.“

„11. v.: Og stjörnunnar nafn hèt Malurt (beiskja), og margar „manneskjur dóu af vötnunum, því þau voru orðin beisk.“

Nú er Dankell kominn aptur á tímann, og útleggur þessa stjörnu um Arianana; það er víst að hún merkir kènnendur, en af því þeirra framferðir voru minni um sig enn ríkisins og fólgnar í þeim, nefnast þeir hèr seinna enn hermennirnir, þó þeir yrði þeim samfara. Þeir fèllu ekki á hafið, heldur á ár og uppsprettur (mannanna svaladrykkjarefni) og gjörðu þær beiskar, einsog malurt beiskju vegna er sögð haldin eitruð í austurlöndunum. Þær tóku burt hugsvölunina af því sanna Guðs orði, og orsökuðu beiskar þrætur, og margra dauða frá

---

[1]) Sjálfir hinir ensku rithöfundar, sem öldúngis samstemma mèr í höfuð - álitinu (einsog Bengel heldur þetta fyrir Gota), áhrærandi merkíngu þessara básúna (svo ljós er þó spádómurinn hèr orðinn) einúngis, en nokkuð myrkvari, feila þó væntanlega í því að heimfæra uppá vissa menn sem Alrek, Attila, Genserik og aðra.

sönnum kristinndómi. Eg held að stjarnan eiginlega merki alla þá villudóma og villudóma-þrætur, sem frá miðju fjórðu og til miðju fimtu aldar allramest, og lengur, orsökuðu mikla beiskju í kristninni.

§ 91.

„12. v.: Og hinn fjórði engill básúnaði, og þriðjúngur sólar-
„innar varð sleginn, og þriðjúngur mánans og þriðjúngur
„stjarnanna, svo að þriðjúngur þeirra varð formyrkvaður, og
„dagurinn skein ekki að þriðjúngi og nóttin á sama hátt.“

Að Dankell útleggur þetta um Pelagíanana gèt eg ekki samsinnt; að sönnu er þeirra lærdómur í sinni fyllíngu hættilegur, en ekki svo, að hann þurfi að málast ógnrlegar enn aðrar villumanna kènníngar, ei heldur varð hann jafnvel svo útbreiddur sem Ariana lærdómurinn. Þarfyrirutan er hèr talað um refsíngardóma yfirhöfuð, og ekki einstakar villur. Historían upplýsir allt, svo nákvæmlega er það uppfyllt. Það, sem eg hefi hitt að útleggja hèrtil, er svo ljóst, að það má kallast fáorð guðdómleg kyrkjusaga í bókinni; hèr er fyrirsagt, bæði að þekkíngin á Guðs sannleika mundi merkilega mínka, jafnt vegna undanfarinnar villudómaþrætni, og eyðileggíngar vesturhluta hins rómverska ríkis, sem ósiðaðar útlandaþjóðir komu af stað; hvorutveggja til samans fullkomnaði afmálanina. Hver gat fyrirsagt allt þetta í rèttri tímaröð, nema Guð?

§. 92.

„13. v.: Og eg sá og heyrði einn engil fljúga miðt í gègnum
„loptið, sem sagði með miklum hljóðum: vei! vei! vei! þeim,
„sem á jörðu búa, vegna þeirra þriggja annara (eptirver-
„andi) engla básúnuradda, sem básúna eiga.“

Hèr boðast þrjár aumlegar tíðir; undir básúnum þeirra þriggja eptirverandi engla af þeim sjö, sem enn hryggilegri enn þær fjórar fyrstu; en þær eru boðaðar jarðarinnar mönnum.

Þannig er allt í bókinni til skèlfíngar hinum óguðlegu, en huggunar fyrir þá svo opt aðþreyngdu sönnu kyrkju; hvað

og nauðsynlegt var. Veiin eru laung tímabil og nokkuð á milli, og hið þriðja verst. Engilinn, sem úthrópar þau, útleggja sumir fyrir örn; það gètur verið, því hún er hèr í bókinni eyðíngarboði, og breytir ekkèrt meiníngu. Sá Guð, sem allareiðu hefir sýnt með historíu hálfrar fimtu aldar híngaðtil, að hans eilífa þekkíng hins óorðna er sjáanleg í bókinni, mun vissulega líka láta það, sem eptir er, uppfyllast nákvæmlega, þó vèr kynnum að taka feil í útleggíngunni, helzt um hina ókomnu tilburði.

## 9. kapítuli.

### §. 93.

„1. v.: Og hinn fimti engill básúnaði, og eg sá stjarna ein
„var fallin af himni á jörðina, og henni varð gèfinn lykill
„að afgrunnsins brunni."

„2. v.: Og hún opnaði afgrunnsbrunninn, og þar gèkk upp
„reykur af brunninum, sem reykur af miklum ofni, og sól-
„in og loptið varð formyrkvað af brunnsins reyk."

„3. v.: Og af reyknum komu upp engisprettur á jörðina, og
„þeim varð máttur gèfinn sem skorpíónar jarðarinnar hafa
„mátt."

Hèrum verður nokkuð að tala.

### §. 94.

Dankell heldur afgrunnsins- eður helvítis-brunn fyrir páfans óleyfilega vaxandi vald, og ályktar fleira útaf því, með öðru, sem þarmeð fylgdi, hvað ekki sýnist mèr rètt náttúrlegt og eg gèt ei fallist á. Ætli enginn, að eg virði ekki þarfyrir Dankell og Newton mikils, og aðra, sem brotið hafa ísinn; það er sannleikans eðli, í myrkvum hlutum að gánga fram frá því minna til hins meira. Samt var sú stjarna, sem lauk upp þess ósæla fángèlsis (ekki hins eiginlega helvítis) brunni, einhver fallinn engill eða lærari, víst áður fallinn, því sást hann ekki falla, heldur vera fallinn á jörðina, og annars hefði hann heldur ekki opnað þann eitraða brunn. Reykurinn af brunninum og engispretturnar eru falslærdómur og

hans útbreiðendur. Mannkynsins plágarar verða þá að vera uppkomnir vegna falskènnenda, svo mikið er víst; en útleggjendunum kèmur enganveginn saman um þessa sjón. Guldberg ætlar, að engispretturnar sèu ekki hermenn, fyrst þær höfðu ei mátt til að deyða, sem síðar mun sagt, en Newton og fleiri halda stjarnan sè Móhammed, og engispretturnar Serkir, og færa ýmisleg líkindi til þess. Hvorutveggi, bæði þeir óguðlegu miðalda-múnkar, er Guldberg hefir auga á, og Serkir, komu nær því upp á sömu tíð, og þar hvorutveggi eiga heima í tímaröðinni, nærst eptir þær undangengnu sjónir, verða það að vera aðrirhvorir. Vegna Guldbergs djúpa skilníngs á spádóminum, hver að miklu leiti hefir vakið minn þánka, þori eg hèr ekkèrt víst að ákveða, þó að mín tilfinníng haldi meira með því, að það sèu Serkir. Hver einn gètur, af því, sem eptirkèmur, dæmt, hvað honum sýnist líklegast. Að það sèu Persar, sem Bengel, er eg hefi síðan sèð, heldur, og sem yfirgáng höfðu í 6. öld, og ofsókn þeirra við Gyðínga, sem eiga að vera þeir óinnsigluðu, gèt eg ei fallist á; því eg veit ei hvað ástand Gyðínga hefir að gjöra í því, sem lá fyrir hinni úrkynjuðu kristnu kyrkju, er veiin áttu að refsa, og einkènnin svara því heldur ekki.

§, 95.

„4. v.: Og þar varð sagt þeim (engisprettunum), að þær skyldi „ekki granda grasi jarðarinnar, ei heldur neinu grænu, ei „heldur nokkru trè, nema einúngis þeim mönnum, sem ekki „höfðu Guðs innsigli í þeirra ennum.“

„5. v.: Og það varð þeim gèfið (ákveðið), að ei skyldi þær „deyða þá, heldur að þær skyldi plága þá í fimm mánuði; „og þeirra pína var sem pína eptir einn Skorpíón, þá hann „stíngur manneskju.“

„6. v.: Og á þeim sömu dögum munu mennirnir leita dauð„ans og finna hann ei, og óska dauðans, og dauðinn mun „flýja frá þeim.“

Bílætið sjá menn að er samsett (af fleiri slags), hvað vel var skiljanlegt austurlandamönnum, til þess að sýna eiginlegleika

plágaranna. Að þær skyldi pína í fimm mánuði, heldur Guldberg merki svo lengi, sem forsjónin ákveðið hefir, því engisprettanna tíð er venjulega fimm mánuðir; en mèr sýnist það nokkuð þvíngað, og ekki sambjóða þeirri vissu merkíngu, sem finnst bæði í tímaákvörðun og öðrum orðum hèr í bókinni; þá og þeir, sem trúa, að Serkjum sè hèr lýst, hafa vel komist út af þessum fimm mánuðum með því, að reikna dag fyrir ár, frá árinu 632 til hèrum 780, sem var þessara helzta sigursælda- og yfirgángs-tíð. En þetta, að þeir skyldi engan deyða, (sem að vísu er undarlegt), útleggja þeir svo, að þeir ofsóktu ekki aðra fyrir trúarbrögðin eða kuguðu frá kristni. Væri og múnkarnir meintir, yrði menn eptirskildir í óvissu um hvað lengi þeirra ofmetnaður skyldi vara, þá þó nýúngagirnin var örfuð með því, að ákveða töluna; og mèr sýnist allundarlegt, að spádómurinn skyldi afmála þessa stètt sèrílagi sem svo skaðlega, á miðju þeirrar tíðar, þá kristinndómurinn, jafnvel þó þeir hefði ekki verið, var allstaðar spilltur, og áðurenn hann hafði nefnt hóruna sjálfa (þeirra fósturmóður). Það, sem ennþá kynni verða haft í móti, að hèr sè meint til Serkja, er það, að Móhammed var ekki í kristinni kyrkju, og því enginn eiginlegur lærari. En þar kynni móti berast, að sumpart tíndi hann saman sinn lærdóm úr ritníngunni, sumpart varð að gèta Serkja, sem refsenda kristninnar, svo að mèr sýnist sem skarð hefði verið í spádóminn, ef hvergi hefði verið talað um þennan vönd. Að þeir hefði átt að málast undir sama bílæti og Tyrkir, trúi eg ekki heldur; því þar var að mestu oflángur tími milli þessara tveggja þjóða yfirgángs maktar, til þess þær gjæti samansteypst í eitt, þó hinir síðari fylgdi þeirra fyrri lærdómi fram seinna. Ekki um að tala, að bæði Serkja og engisprettanna föðurland er Arabía, og hvorutveggi hafa yfirsveimað nærri því sömu löndin.

## §. 96.

„7. v.: Og engispretturnar voru ennframar líkar hestum, bún-

„um til bardaga, og á þeirra höfðum kórónur einsog gull, „og þeirra andlit sem manna andlit.“

„8. v.: Og þær höfðu hár sem kvennahár, og þeirra tennur „sem ljóna.“

„9. v.: Og þær höfðu pansara sem járnpansara, og þeirra „vængjaþytur (var) sem vagnahljómur, þá margir hestar „hlaupa (með þá) til bardaga.“

„10. v.: Og þær höfðu hala sem skorpíónar, og þar voru „broddar í hölum þeirra, og þeirra máttur var til að pína „mennina í fimm mánuði.“

„11. v.: Og þær höfðu konúng yfir sèr, afgrunnsins engil, „hans nafn er á hebresku Abbadon ogá grísku Apolý-„on (fordjarfari).“

„12. v.: Eitt vei er umliðið; sjá! þar koma enn tvö vei eptir „þetta.“

Hèrum segi eg ekki meira enn skèð er, þar eg veit ei hvað sterkar röksemdir Guldberg hefir haft fyrir sinni meiníngu; af áðursögðu gètur hver sjálfur þenkt fyrir sig; þar ogsvo þetta er nokkuð, sem ei er svo nauðsynlegt að vita gjörla á vorum dögum; þó, þar plága þessi er hin fyrsta af þremur hinum miklu veium, og hefði menn gètað hugsað nokkuð á Opinberunarbókina í 7. og 8. öld, mundi enginn í bílætinu hafa gètað ímyndað sèr múnkana, en Serki hefði máskè einhver gètað ímyndað sèr (þar pansararnir lýsa ogsvo hermönnum), þá er eg hneigðari til að halda þeir sèu meintir, þar þeir gjörðu svo yfirmáta mikinn skaða hinum kristnu löndum, þó eg skilji ei vel, að þeir áttu engan að deyða, og fleiri kènnimerki.

§. 97.

„13. v.: Og hinn sjötti engill básúnaði, og eg heyrði rödd „af þeim fjórum hornum gull-altarisins fyrir Guði,“

„14. v.: sem sagði til hins sjötta engils, er básúnuna hafði: „leys þú þá fjóra engla, sem bundnir eru hjá hinu mikla „vatnsfalli Evphrat.“

„15. v.: Og þeir fjórir englar urðu lausir, sem reiðubúnir

„voru til stundar og dags, og mánaðar og árs, að deyða „þriðjúng af manneskjunum."
Sjötta básúnan leysir þá fjóra engla bundna við Evphrat; illir verða þeir að vera, fyrst þeir eru bundnir, og leysast til að framfylgja refsíngardómi. En hví nú allar þessar óhamíngjur yfir hina ríkjandi kristni? Jú, því strax frá upphafi hafnaði hún Guðs orðs einfaldleika og sannri trú, og síðan orðinu sjálfu, og vildi standast með eigin verkum og sjálfgjörfum trúarbrögðum, hvað á öllum tíðum hefir verið mannanna skaplöstur og ólukka. Bókin sjálf kallar þetta straff og refsíngar, og gètur við enda kapítulans, í hverju mennirnir þá mest syndguðu.

## §. 98.

Allir útleggjendur eru samhuga í að hèr sè talað um hermenn, og af því, sem eptirkèmur og tímaröðinni, sýnist það auðsært, að það sèu Tyrkir. — Eg gèt ekki vitað, hvort sú umtalaða stund og dagur og mánuður og ár á aðmerkja þeirra drottnunartíð yfir hinu kristna austlæga rómverska ríki. Sèu hið fyrra Serkir og talan, sem stendur um þá, merki þeirra valdstíð, þá er hèr eins. Sè það svo, þá vann Móhammed annar Miklagarð 1453, og tíðin ætti þá að vera á enda 1843, eður eptir mána-árum níu árum hèrfrá (1829) hafi þá merkíngu; það gètur líka útlagst: þeir eru á hverri stundu reiðubúnir.[1]

[1]) Williams hreifir því og, að skè kynni, að tími, dagur, mánuður og ár, merkti vissan tíma eður 391ár, og að þau kynni reiknast frá Otmannanna fyrsta sigri yfir kristnum 1281, til Tyrkja seinasta ríkis vaxtar 1672; en eg hefir nú hèr að ofan gjört ráð fyrir öðru tímabili. við hvers lok Osmannar kynni máskè að vanmegnast. Kann það og hafa tillit til beggja tímabilanna, eður, sem að ofan er sagt, einkis viss tíma; heldur viðvarandi viðburða. Hvað bókin ekki ákveður greinilegar enn hèr stendur, gètur maður ekki gèfið sig við að fullyrða með neinni vissu, og hún er ekki svo greinileg í tíma-ákvörðun, hvar um annað er að tala, enn Kyrkjunnar eiginlegu örlög, sem hèr er ei. Bengel, sem og hefir seinna sèð, heldur og hèr meinist Tyrkjar, en þó Serkir ásamt, sem Móhamme

§. 99.

„16. v.: Og talan á reiðmanna hernum var tveimsinnum tíu „þúsundsinnum tíu þúsundir, og eg heyrði þeirra tölu.“

„17. v.: Og eg sá hestana í sjóninni, og þá, sem á þeim sátu, „sem höfðu eldrauðar, svartbláar og brennisteinslitar brynjur „(pansara), og höfuð hestanna voru sem ljóna-höfuð og út- „af þeirra munnum gèkk eldur, reykur og brennisteinn.“

„18. v.: Af þessum þremur (plágum) var þriðji partur mann- „anna deyddur eldinum, reyknum og brennisteininum, sem „útaf þeirra munnum gèkk.“

„19. v.: Því þeirra (hestanna) styrkur var í þeirra munn- „um, og þeirra hölum, sem voru einsog á höggormum (slaung- „um), og höfðu höfuð að gjöra skaða með.“

Bílætið er samansett og útleggjendum kèmur flestum saman í að útleggja það um austurlanda þjóðir mjög ríkar af reið- mannaliði, sem eyða og undirleggja kristin lönd, og gánga fram með miklu ráni og afla, og hafa líka með sèr skaðleg- an og banvænan lærdóm, öldúngis mótstæðilegan Jesú trú- arbrögðum. Tyrkir og þeirra óteljandi herlið hefir til vorra daga brúkað mikinn eld og brennistein, og gjört stórmiklar eyðíngar.

---

danar, hvorutveggi, og reiknar tímann stuttan eins og hann er vanur, nefni- lega: 207 ár frá 632 til 840, hvar með hann útþrykkilega gjörir úr bílætinu Serki eina, sem þá misstu mjög maktar, en alls ekki Tyrki, sem miklu lengur hèldust í krapti enn hin mikla hermanna tala; ef Tyrkir einir eru þetta, verður ekki svo ómögulegt að gèti merkt þá eina, efhún er álitin frá árinu 1281 eptir Williams meiníngu, og allt til þeirra maktar enda; eg held þarfyrir við mína útleggíngu yfir þessi vers, sem flestir útleggjendur og historían sjálf sýnist samstemma, allt þángaðtil annað verður fullsannað. Að gjöra þetta herfólk vegna þeirra miklu tölu, með Kelber, að ókomnum yfirgángi, hvar einn- inn vondir andar verði að koma saman til að fylla hana, vil eg varla fá mèr til orða, þar hann er að nokkru leiti frekjutrúarmaður, og þessa þarf enganveginn, og er allskostar ólíkindalegt, það kèmst allt allvel heim með þessu móti, sem hèr er um talað, og jafnvel má byrja að telja saman Tyrkjanna óteljanlega her allt frá Krossfaranna dögum.

§. 100.

„20. v.: Og þeir aðrir af mönnunum, sem eigi voru deydd-
„ir í þessum plágum, umvendu sèr hvorki frá verkum þeirra
„handa, að þeir ekki tilbæði Dæmona (gjörðarguði) og
„afguðabílæti af gulli og silfri, af kopar og trè, sem hverki
„gèta sèð, ei heldur heyrt, ei heldur gèngið;"
„21. v.: og ekki umvendu sèr frá þeirra manndrápum, ei held-
„ur frá þeirra fjölkýngi, ei heldur frá þeirra hórdómum,
„ei heldur frá þeirra stuldum."

Þetta er ogsvo merkilegt.

§. 101.

Þar ekki aðrar sèrlegar plágur gengu yfir á miðöldunum, enn þær sífeldu áreitíngar af Serkjum og Tyrkjum, og þessarar tíðar saga þar fyrir utan var mjög snauð af breytíngum, framfylgist ekki höfuð-atriðinu (sem er) um hinnar spilltu kyrkju útvortis ástand, framar fyrir þá tíð, allt til vorra daga; en þar mikið er að segja um hennar innvortis ásigkomulag, þarf þartil nýa historíu, að hverri þessi seinustu vers leiða drög, og hún fyrirkèmur síðan í hinni litlu bók. Hversvegna hún verður að byrjast að framan, skal síðan um tala. En til að skilja greinilega spádómsins orð í framanskráðum 100. §., verða menn að vita, að á þeirri tíð, þá Tyrkir unnu Miklagarð, hins austlæga ríkis og þess fyrsta kristna höfuðborg, voru bæði Grikkir og latínskir eður vesturlenzkir kristnir sokknir svo djúpt í afguðadýrkun, sem 20. versið segir; það vita líka allir, sem þekkja nokkuð í sagnafræðinni. Og þó þeir kjæmust hjá Tyrkjanna eyðileggíngu og öðrum plágum, umvendu þeir sèr ekki frá henni, ei heldur frá þeirra stórglæpum; hvaraf hèr sèrdeilislega teiknast með manndrápunum ofsóknir móti sannkristnum, með fjölkýnginu eiturblandan og önnur íllska, sem sèrdeilis ríkti hjá páfunum og á Ítalíu, með hórdómunum klerkanna ógipta lífferni og allt, sem þar af leiddi, og með stuldunum þeirra og annara ósegjanlega ágirni og rángláti dráttur á annara eignum til sín; verða svo þessar höfuð-atriðsins lyktir eins-

og formáli sögu hórunnar og hennar dýrs í litlu bókinni. En hver kunni að fyrirsegja þvílíkan kristinndóm og hans útfarir, nema Guð?

§. 102.

Svo er nú hin mikla bók (að svo miklu leiti hún inniheldur kristinndómsins stríðstíð, eður hennar fyrri hluti) á enda, fyrir utan nokkuð af sjöttu básúnunni, og alla hina sjöundu; og í þessum spádómi öllum hefir hvert atriðið fylgt öðru samkvæmt textanum, og aldrei þurft að byrja neitt að framan eður fyrri, enn hið fyrra var á enda. En þar menn vita enn ekki, hverninn sú mikla spillíng, sem um er talað hèr að framan í þessa kapítula 20. v. og hèr i 100. §., er komin inní kyrkjuna, og þarhjá sjöunda básúna á að upplýsa hina síðustu hluti í þeirri stríðandi kyrkju, verður spádómurinn, til að innleiða þessara fyrsta upphaf og nákvæmlegar útmála kyrkjunnar innvortis ástand, að byrja nú nokkuð lengra að framan; þó svo lángt frá, að nokkuð setjist fyrri, það seinna skyldi, að hann notar sèr þartil hina minni eður litlu bók, sem nú skal umtala, og er svosem enn nákvæmari spádómur, hver og viðheldst til enda Guðs refsíngardóma, eður hinnar sjöundu básúnu fyllíngar, og verður vegna síns nýja innihalds að deilast í eitt nýtt höfuðatriði, og undiratriði, og þessvegna vera öðruvísi enn hin mikla bók híngaðtil. Verð eg að fara í þessu eptir Guldbergs undirlagi, sem vissulega er rètt, en ei þeirra, er láta alltaf vera framhald. En undir einsog hún (litla bókin) endar, gengur spádómurinn beint fram sem áður.

Áður enn eg gèt talað um þessa litlu bók, og hin sjöunda básúna heyrist, verður nokkur undirbúníngur undan að gánga.

## Fjórða Deild.

Hin litla bók með því, sem henni tilheyrir allt til hinna síðustu endaloka á Guðs dómum.

---

Inngángur til hinnar litlu bókar.

### 10. kapítuli.

§. 103.

„1. v.: Og eg sá annan sterkan engil af himnum ofankoma, „hann var klæddur skýi, og regnbogi á hans höfði, og hans „andlit var sem sólin, og hans fætur sem eldstólpar.“

„2. v.: Og hann hafði í sinni hendi litla bók opnaða (rollu).“

„3. v.: Og hann setti sinn hægra fót á hafið, og hinn vinstra „á jörðina.“

Engilsins himneska hátign vitnar um hans mikilvægu eyrindi; að hann vegna sinna einkènna, og að hann hafði hinn opnaða spádóm í hendinni, skuli vera Kristur sjálfur, sem Dankell meinar, læt eg verða við sitt verð; þar er ei meira umtalað. Hafi hin litla bók ei verið innifalin í sjöunda innsiglinu, sem Guldberg trúir sè, og eg líka, þá yrði hann að vera Kristur, og hin litla bók þá vera það einasta, sem hann opnað hefði, auk rollunnar með sjö innsiglunum. En þar hin litla bók öllsaman á heima, hvað tíman snertir, í sjöunda innsiglinu, þó innihald hennar byrji undir þeim fyrstu básúnum, þá er miklu trúlegast, að hún heyri undir innsiglið sjöunda.

§. 104.

„Og hann kallaði hárri röddu, sem þá ljón grenjar.“

„3. v.: Og þá hann hafði kallað, töluðu þær sjö þrumur þeirra „raddir.“

„4. v.: Og þá þær sjö þrumur höfðu talað, vildi eg hafa „uppskrifað það; og eg heyrði eina rödd af himni segja til „mín: innsigla þú þá hluti, sem þær sjö þrumur töluðu, „og þú skalt ekki skrifa það.“

Jóhannes segir ekki, hvað engillinn talaði, en verið mun það hafa úthrópun hefndardóma; hvað þær sjö himnesku ver-

ur með þrumurödd sögðu, vildi hann skrifa, en fèkk ei leyfi til. Það hlýtur verið hafa Guðs hulinn vilji, sem aðrir enn hann þurfti ei að vita. En þar hann átti að innsigla það, er ei ólíklegt það verði opinbert á sínum tíma.

§. 105.

„5. v.: Og engillinn, sem eg sá standa á hafinu og jörðunni, „hóf upp sína hönd til himins.“

„6. v.: Og sór við þann, sem lifir um alla eilífð, þann, sem „skapaði himininn og þá hluti, sem þarí eru, og jörðina og „þá hluti þarí eru, og hafið og þá hluti þarí eru, að þar „skal engin tíð vera framar.“

„7. v.: Heldur á dögum raddar þess hins sjöunda engils, þeg- „ar hann á að básúna, skal fullkomnaður verða leyndar- „dómur Guðs, eins og hann hefir fyrirsagt sínum þjónum, „spámönnunum.“

Þanninn gjörir Guð bert, að þar ei sè lengur að vænta þolinmæði með jarðarinnar íllsku enn þartil á sjöundu engils básúnu tíð[1]; þá skulu þeir vondu straffast og Guðs börn frelsast, og allir kristinndómsins óvinir steypast. Ber saman Dan. 7, 26.—27. Jóel 3, 12.—13. Sach. 14. 7.

Eptir áðurgègnumgenginni tímaröð, verður sá tími að vera nærri á vorum dögum, og hvað verður þá af allra veraldarvitrínganna raupi, og þeim gullnu tíðum, sem þeir lofa að leiða skuli af þeirra speki? það fáum vèr að sjá seinna í bókinni.

§. 106.

„8. v.: Og röddin, sem eg hafði heyrt af himni, talaði aptur „við mig og sagði: gakk burt; tak hina litlu bók (Rullu), „sem opnuð er í hendi engilsins, er á hafinu og jörðunni „stendur.“

---

[1]) Bengel gjörir úr orðinu: „engin tíð“ í 6ta v. lángt tímabil, sem á að innihalda 666 ár, er hann heldur dýrsins tíma, og nokkuð meira, en eg gèt ei samsint því, og legg orðin út einfaldlega.

„9. v.: Og eg gèkk burt og sagði til engilsins: gèf mèr þá „litlu bók; og hann sagði til mín: tak hana og et hana, „og mun hún skèra í þínum kviði, en í þínum munni mun „hún vera sæt sem hunáng."

„10. v.: Og eg tók hina litlu bók af engilsins hendi, og át „hana, og hún var í mínum munni hunángssæt; en er eg „hafði etið hana, skarst minn magi."

„11. v.: Og hann sagði til mín, þú átt aptur að spá fyrir „fólkinu, og heiðíngjum (þjóðum) og túngumálum og mörg„um konúngum."

Hin litla bók eður Rulla í 8. versi er nákvæmari spádómur um kristninnar innvortis ástand; byrjar þessvegna nokkuð snemma tíðar, laungu áður enn sjöunda básúna kèmur, þó undir sjöunda innsigli, fer svo fljótt yfir miðaldirnar, en heldur sig fast við hinar nýjari og síðustu tíðir, undir sjöttu og sjöundu básúnu. Að Jóhannes skal eta hana, er bílæti, sem spámenn brúkuðu áður; hann smakkaði hana og mellti andlega. Smekkurinn var hunángssætur, því sjónirnar voru hátignlegar, en melltíngin beisk, því innihaldið var skèlfilegt, helzt það um dýrsinsríki. Þareptir er hann áminntur í 11. versi, að spá á ný (það er byrja nokkuð að framan, og uppskrifa nákvæmlega), eptir þessari bók, fyrir margrahanda fólki, hvað til fulls sannar, að spádómurinn átti að halda áfram til tímans enda.

---

# Þriðja höfuð-atriði

eður

Höfuð-atriðið í litlu bókinni, sem er almennileg innvortis kristinndómssaga í hinni ríkjandi kyrkju til sjöttu básúnu enda, og að nokkru leiti undir þeirri sjöundu, eður hèrumbil frá upphafi sjöundu aldar, og með vissu til enda hinnar 19. eða lengra.

## 11. kapítuli.

### §. 107.

„1. vers: Og mèr varð gèfinn reyrleggur, sem stafur (mæli-

„stokkur), og sagt: statt upp, og mæl Guðs musteri, og „altarið, og þá sem þar inni tilbiðja,“

„2. v.: en forgarðinn, sem er fyrir utan musterið, lát eptir, „og þú skalt ekki mæla hann, því hann er gèfinn heið-„íngjunum, og þeir skulu niðurtroða hinn heilaga stað, tvo „og fjörutygi mánuði.“

Hèrum nokkuð meira.

§. 108.

Bílætið er til láns tekið af Jerúsalems musteri og forgarði þess, og musterið merkir hina sönnu kristni. Allir hinir aðrir, þó þeir beri kristið nafn, voru og eru fyrir Guði og kallast heiðíngjar (eður þjóðirnar), þeir skulu ráða fyrir forgarðinum, og undirtroða hann. — Hina sönnu Guðs dýrkendur var auðveldt að telja á hinum afguðadýrkunarfullu hjátrúartíðum; hina aðra átti Jóhannes ekki að telja með; þeir skyldi halda áfram í þeirra ódygðum um tvo og fjörutíu mánuði, það er 1260 ár, hver tíð opt hèreptir kèmur fyrir í bókinni, til að lýsa varanlegleika tíma hórunnar í hennar krapti; (því þó Bengel haldi sinn tíman hvað, og ei byrja undireins, eður nálægt 1260 daga, $3\frac{1}{2}$ tíma etc: og stytti hann eptir sinni ímyndun um 666, þá er það ei meðtækilegt, heldur enn hitt, að sá heilagi staður sè gamla Jerúsalem). Hver hún (hóran) er verður síðar upplýst. En að ákveða byrjun þessara 1260 ára, er hið þýngsta (eitthvert) í Opinberunarbókinni, og sýnist vera gjört það með vilja, til þess manneskjan viti ekki öldúngis víst nær þau enda, og sè því varasamari; því strax þareptir munu stórmerki skè, hverra upphaf þá væri auðveldt að ákveða (líka). Fyrir utan óteljandi aðrar röksemdir uppá opinberunarinnar merkilegleika er þessi ein, aldrei hefir nokkur sjálfskapaður spámaður frá veraldar upphafi svo nákvæmlega og opt tiltekið sama tímabil, og þó undireins dulið þess upphaf og enda, og það um þá hluti, sem áttu að skè svo laungu eptir sjálfs hans daga; því ósannsöglir spámenn, sem annars eru ætíð vanir að spá fortakslaust, þegar þeir vita, að þeir hafa enga orsök til að dylja tímalengdina

(þartil spádómurinn komi fram) stæra sig miklu heldur af vissu forspár sinnar, sem enginn á þeirra dögum gètur rekið með reynslunni.

§. 109.

„3. v.: Og eg vil gèfa mínum tveimur vottum, að þeir skulu „spá, þúsund, tvöhundruð og sextíu daga, íklæddir sekkjum.“
„4. v.: þessir eru tvö olíutrè, og þeir tveir ljósastjakar, sem „standa fyrir Guði jarðarinnar.“
þessara votta tími að spá í, er sá sami, sem þeir heiðnu kristnir troða niður forgarðinn; fleiri útleggjendur halda þá fyrir hina mörgu sannleiksvotta, sem lifðu í páfadómsmyrkra tíðinni, en Guldberg: fyrir Guðsorð, hið gamla og nýja Testament; þetta sýnist mèr rèttast; því upplýstir kènnendur kènndu opinberlega og höfðu ríkjandi kyrkju á seinna hluta þessara 1260 ára, og þó páfadómurinn væri miklu stærri, voru þeir þó ei alltíð ofsóktir; menn gèta og ekki kallað alla í prótestantiskri kyrkju sannkristna, og Guðsljósastjaka. Ritníngin þarámóti hefir alltíð spáð í móti óguðleika og afguðadýrkun, og alltíð í sekk, það er undir mótstöðu frá mönnum í öllum trúarbrögðum, og einsog syrgjandi; bæði hennar Testament gèta og kallast ljósastjakar fyrir Guði[1].

---

[1]) Hèr verður nú Williams í sinni ritníngar útskýríngu, og hinir ensku, sem hann vitnar til, fyrst á móti mèr, og trúa með Newton og fleirum, að þessir tveir vottar sèu sannleiksvottarnir undir páfa dóminum, en ekki Guðs orð í gamla og nýa Testamenti; og eins heldur Bengel sem eg hefi síðan sèð. Öll ritníngin er ekki nema eitt vitni segja þeir; en að þessir vottar hafa vald yfir eldi og vatni, halda þeir að bendi til furðuverka Mósis, og Elíasar, og ásamt þeirra brennandi bæna og himneska elds. Eg neita ekki, að sú meiníng standist, en spádómurinn gjæti þá að mesta kosti verið tvöfaldur að merkíngu; því þegar maður aðgjætir: að sá himneski eldur og kraptur, sem bjó í þessum vottum, býr líka á ennþá fullkomnari hátt í Guðs orði sjálfu; að maður gètur ekki sannað á allri þeirri laungu tíð óslitna röð af þessum sannleiks vottum, sízt kröptugum, en Guðs orð hefir jafnan varað; að Guðs orð ekki einúngis bendir til Mósis og Elíasar furðuverka, heldur í raun rèttri gjörir þau, með því

§. 110.

„5. v,: Og ef nokkur vill granda þeim (forgrípa sig á þeim), „gengur eldur útaf munni þeirra, og eyðir þeirra óvinum; „og ef nokkur vill þeim mein gjöra, hlýtur hann að deyð- „ast.“

„6. v.: Þessir hafa vald til að loka himninum, og ei skal „rigna á þeirra spádómsdögum; og þeir hafa vald yfir vötn- „unum, að snúa þeim í blóð, og að slá jörðina með allra- „handa plágum, svo opt sem þeir vilja.“

Þetta gètur varla sagt orðið í neinu tilliti um Waldensa, Wiklifíta, Hússíta eða aðra sannleiksvotta. En reynslan hefir sýnt, að Guðsorð, inn til þessa dags, hefir sigrað alla mótstöðumenn og gjört þá til skammar, einsog Móses Pharaó, og Elías Baals presta.

§. 111.

„7. v.: Og þá þeir hafa endað sinn vitnisburð, mun dýrið, „sem uppstígur af afgrunninu, halda stríð við þá, og yfir- „vinna þá, og deyða þá.“

Þeirra vitnisburðartíð, 1260 ár, á að verða á enda áðurenn sjötta básúnan er fullkomnuð; þó er hèr historíunni fylgt lángt ofanfyrir þann tíma, sem næsti kapítuli byrjar á, til

---

að slá jörðina með plágum í hvert sinn, sem það er forsmáð; að hið gamla og nýa Testament vissulega eptir bókstafnum eru tveir vottar, einsog það eru tvö mismunandi Testament, þó það sèu samkvæmir vottar, einsog vottar eiga að vera; hvað bókin sjálf hèreptir enn framar gefur tilefni til að aðgjæta, þegar hún talar um Mósess og lambsins saungva aðskilda, rètt eins og Guldbergs ætlan er um vottana — að eg hèr í framanskrifuðum §. hefi enn þa til fært fleiri röksemdir — að engir sannleiks vottar hafa neinn krapt nema Guðs orð vitni með þeim; og loksins að sannleiks vottarnir, nefnilega þeir tveir vottar, eiga á sínum tíma að deyðast, og vera dauðir þrjú og hálft ár, og síðan upprísa aptur, hvað allt er ómögulegleiki að skèð gèti við alla menn, sem með sannleikanum halda: — Svo vona eg að skynsamir dómendur ekki álíti mínar röksemdir lakari fyrir minni meiníngu, enn hinna fyrir þeirra, þótt eg hefði aldrei haft Guldberg fyrir forgaungumann í henni.

þess að leiða atriðið til enda. Bókin sjálf sýnir hèr eptir, hvar nýtt atriði byrjar á, að taka framfyrir, eða ekki, og svo eru flest ef ekki öll atriði í þessari litlu bók ásigkomin, þvert ámóti því, sem er í hinni stóru, að þau byrja á að taka nokkuð framfyrir, með nákvæmari útskýríngu, undir öðru aðferli, þó svo, að seinna atriðið byrjar ætíð nokkuð seinna enn hið fyrra. Eptir 1260 ár á þarfyrir dýrið af afgrunninu að uppstíga með djöfullegum krapti og íllsku, og undirþrykkja Guðsorð fyllilega (hvað enginn hefir áður gètað) um stuttan tíma; það verður þessvegna hinn sterkasti af öllum Jesú ríkis óvinum[1].

[1]) Í 19du Lection yfir 11ta kapítula framsetur hinn enski ritúngar útleggari það spursmál: hvert þessir vottar allareiðu hafa verið deyddir (meiníngin er: af því páfinn og hann hillandi stjórnir hafa svo lengi setið við stýrið, og ofsókt sannleikann, og þessar stiórnir eru hjá þeim gömlu útleggjendum ei einasta sama sem dýrið af hafinu, heldur og dýrið af afgrunninu, hvað þeir halda eitt) og hvenær hefir það skèð? Hvareptir hann nefnir nokkra tilburði á stöku stað, samstemmandi tímalengdinni, sem þeir eiga að vera dauðir á, 3½ ár, hvará meðal og svo telst hin franska stjórnarbyltíng á dögum Loðvíks 16da; en ályktar þó rètt skynsamlega (þó hann haldi vottarnir sèu einúngis mannlegir sannleiks meðkennendur) að þar þessir tilburðir hafa einúngis skèð í einstökum stöðum, verði sú eiginlega tíð, þegar vottarnir deyðast, enn að vera ókomin, en það sè ofdirfðarlegt að ákveða hana. Hèr mæta nú þau fyrstu vandræði, og að minni meiníngu mótsögn, sem sjálfsagt flýtur af því, að gjöra afgrunnsdýrið að því sama, sem bar hóruna. Menn hafa eptir þessari meiníngu trúað, að vottarnir hafi verið sannleiks meðkennendur undir hinni kathólsku kyrkju, sem hún hefir ofsókt, og þetta vill aptur af sèr leiða, að nefnd kyrkja hèreptir komist til þvílíkra krapta, að hún eyðileggi eður niður dempi alla sannleiks meðkennendur, og þessvegna undirkúgi alla prótestanta. Þvílíkt myrkur og óvissu í tímans framgángi færir þó ekki sú meiníng með sèr, að páfinn sè sá eiginlegi Anti Kristur, að hann eður hans þjónar sè dýrið af afgrunninu, og hvílíkt ljós í því tilliti þará móti Guldbergs álit? þenkjum einu sinni: menn gèta verið að spyrja að: hvert allareiðu sè búið að deyða vottana, og hvenær þá? rètt eins og spádómurinn sýni ekki sjálfur, að það verði öllum heimi kunnugt, þegar það skèður — sjá 9da v —, Hversu miklu líklegra er ekki, að vottarnir sèu Guðs orð, sem

§. 112.

„8. v.: Og þeirra líkamir munu liggja á götum (strætum)

í þau 1260 ár hefir stríðt við páfadóminn og þar eptir (hvað merkilegt er) síðan páfadóms krapturinn mínkaði, ásamt við vantrúna? að hverki Guðs orð, og ei heldur prótestantar' hèreptir undir kúgist (að öllu) af nokkurri mannanna eður satans makt einúngis, og að þar fyrir þessa dýrs kraptur gèti ekki verið þeirra ríkja herradómur eður yfirráð, sem játa páfans yfirmakt, heldur fái sína rót að innan frá mannanna girndum, en að eins útvortis stjórnarform; þegar nefnilega þessi ár (1260) eru liðin, og hið mikla fráfall er skèð, nefnilega frá kristinndómsins grundvallar ástæðum, muni vantrúarinnar ríki upprísa, sem hindri brúkun kristinndómsins í heiminum (öllum þekkjanlega) í $3^1/_2$ ár, hvar uppá hin fyrri tímabil í ýmsum einstökum löndum kynni hafa verið áminnandi fyrirmindanir. Og þar þetta er enn nú ekki skèð, jafnvel eptir sjálfs Williams játun, verði sú ógnarlegasta tíð að vera ókomin, og þá líka afgrunnsdýrsins kraptur, líklega ogsvo þess uppkoma; því það afmálast, án efa vegna Krists sèrdeilis aðvörunar tilgángs, með svo greinilegum kènnimerkjum í bókinni, að það mun verða ómögulegt fyrir nokkurn sannleikskjæran að villast um, þegar það er komið upp. En — eg mun opt fá tækifæri til að staðfesta mína meiníngu og reka þá, sem þar eru á móti.

Við þetta sjöunda og þareptir 8. vers, verð eg að innfæra nokkuð, áhrærandi þess lærða og guðhrædda Bengels álit, sem nú er komið mèr fyrir sjónir. Mig furðaði, þá eg hafði lesið nokkuð um þessa mikla manns nærgjætni og gruni, þar hann ei að eins hafði gètið rètt til, um sjö ára styrjöldina, ósèða þá hann skrifaði, og að vantrúarrót mundi uppkoma í Preussalandi, og jafnvel keisaradómur á Frakklandi við árið 1800, laungu eptir hans daga; heldur og, hvað meira er, fyrirsagði hann niðurdrep trúarbragðanna, vanvirðu hjónabandsins og trúarboðanna (Missiónanna) miklu aukníng, svo nákvæmlega, einsog allt þetta hefir sýnt sig á vorum dögum, samt páfadómsins veiklun. Hverninn er mögulegt, að svo upplýstur maður hafi ei sèð og gègnumskoðað tímanna teikn á hans dögum, og hversu þeirra kennimerki mundu vaxa — þess undarlegra er það, að hann hefir gètað útlagt 8. v. 11. kapítulans einsog hann hefir gjört, og þó í móti allra annara útleggjenda meiníngu — beri menn þó saman 112. og 113. § í tilraun minni hèraðofan við hans útleggíngu. Þá miklu borg, hvar vottanna lík láu ógrafin, heldur hann ekki svomikið sem Róm, heldur Jerúsalem, sem enganveginn verður líkt við ríkið Ægyptaland,

„hinnar miklu borgar, sem kallast andlega Sódóma og „Ægyptaland, þarsem og vor Drottinn er krossfestur.“

---

og að þar muni verða píslarvottar, líklega þeir seinustu, deyddir af Anti-Kristinum, sem hann heldur með mèr í, að ekki sè páfinn, að því leiti hann er páfi, heldur að hinn síðasti páfi, einn maður sèrílagi, og þarf varla að nefna hvílík ólíkindl í slíku felast öllu. Hverninn ætti þó seinasti páfinn að vera Anti-Kristur, og páfavaldið var það ekki? Hverninn ætti þvílíkur að koma upp og ríkja á núverandi tíð, og það í Jerúsalem? Og hvaða ógnar fjölda sannkristinna ætti hann ekki að eyðileggja, þegar allir vottarnir eru menn, eður að minnstakosti, hversu ágjætir frammyfir alla píslarvotta yrði þeir ei að vera, sem hann dræpi, ef hann rètt með því skyldi einkènna sig að vera Anti-Kristur, framyfir Nero, Decius, Galerius og alla fornaldar heiðna og papiska týranna? Hversu mjög lítið útbreiddur yrði þá hinn sanni Kristinndómur annaðhvort að vera, ef hann skyldi gèta deyðt hans einustu og seinustu talsmenn, eður ef þeir væri útbreiddir um allan heim? Hversu ógurlegt mætti þá hans vald vera yfir allri jörðunni; hvílíkt satans einveldi í Jerúsalem, gjæti hann deyðt þá alla, og látið þá liggja ójarðaða þar? Hverninn ætti og fólk og kynkvíslir, túngumál og þjóðir, að sjá þeirra lík liggja þar ógrafin og fagna því? Hversu of smámunalegt er ekki þetta allt? Og hverninn gètur það verið mögulegt, að Bengel ekki hafi sèð, að sú vaxandi vantrú mundi skapa afgrunnsdýrið, sem með fylgi konúnga jarðarinnar mundi eyðileggja hóruna og berjast við lambið? Já, hverninn gat hann ímyndað sèr, að afgrunnsdýrið væri ekki það sama, sem hóruna bar, heldur kjæmi upp í lángtum verra eðli, og það fyrst 1834, en yrði þó eyðilagt ásamt hafdýrinu 1836? því þá heldur hann aldur dýrsins taki enda; sjá þarum mína ætlun seinna. Sýnist hann ogsvo hafa ímyndað sèr bæði hafdýrið, og það miklu verra af afgrunninu, sem papisk veldi, eður jafnvel páfa sjálfa, og þetta er orsökin, hvarfyrir hann reiknar þess tíð 1260 daga eður 42 mánuði frá páfadómsins máttarbyrjun, nefnil.: frá 1170 til 1836, fyrir að vera ei nema 669½ ár (með sjálfsmíðuðum tímareiknfngi), svo hann gèti fengið þar útaf dýrsins nafns tölu. En hvað gèta ekki fyrirfram inndrukknar meiníngar trublað álitið? Nefnilega þeir tveir hlutir hafa villt hann svo mjög og marga aðra útleggjendur, að þeir hafa: a) ekki ímyndað sèr aðra spillíngu mögulega í allri kyrkjunni, enn hina papisku, þá þó spádómurinn deilir svo greinilega í milli hórunnar og dýrsins, bæði þess af hafinu, og einkum hins af afgrunninu; og að þeir hafa b) haldið 663

það er ljóst, að hinn síðasti partur af þessu lánga atriði í tilliti til tímans, sem nær yfir þess innvortis kristinndóms

---

fyrir áratal, sem enganveginn stendur í spádóminum, og þess vegna í móti hans kröptugu aðvörun bætt við hann; hvarfyrir, þó sá viðbætir, sem eintóm gáta ekki kunni að valda útleggjendunum neinni sálarhættu, þar hún er framsett í einföldum frómleika, sjá menn þó þaraf, hvað hættulegur allur mannlegur viðauki er í slíkum kríngumstæðum, og getur ei annað enn orsakað, að spádómurinn skilst aldrei meðan menn brúka hann, eður halda við fyrirfram inndrukknar meiníngar. Slíkir hleypidómar hafa fyrrmeir orsakað allan misskilníng Opinber. bókarinnar. Og eiga menn í frómleika, án þess að bæta við sínum meiníngum sem afgjörandi um ný ákveðin tímabil, að bíða eptir tímanna teiknum, gjæta þeirra nákvæmlega, og sjá hvert þau í öllu koma saman við það, sem skrifað stendur, eður ekki. En svo lengi menn geta ekki fundið þá nákvæmu samstemmu, eiga menn einúngis að vænta, og hafa leyfi að getska, því framar, sem kennimerkin fjölga. Slík líkindi eiga menn að nota til varúðar og ótta fyrir heimsins anda, enn bíða, meðan maður getur, með að ákveða nákvæmlega tímapúnktinn, og þarhjá aldrei heimfæra spádóminn uppá einstakar persónur, eða stéttir.

Ei að síður, hversu ljós, sem eg ætla að mín meiníng, um afgrunnsdýrið ókomið, eður Anti-Kristinn, megi vera hverjum skynsömum manni, vænti eg þó ekki annars, enn ánægjuleysis úr öllum áttum yfir þeirri ætlun; eg finn, að það ánægjuleysi er grundvallað í mannlegri náttúru, og óskaði hjartanlega gjarnan, að sú tíð væri umliðin; en á meðan menn sannfæra mig ekki um það, sem eg held ómögulegt, get eg ekki fallist á, að hún sè liðin. Mín þekkjanlega fyrsta röksemd er, að bókin sè guðdómleg, og geti ei annað verið, og þessi röksemd er óræk; hèraf flýtur óefanlega, að hún, sem hin einasta spádómsbók í nýa Testamentinu, sè eins nauðsynleg til vegleiðslu fyrir hinn mikla kristna heim, sem hinir fornu spámenn voru fyrir G y ð í n g a. Ennframar: að hún hljóti að vera uppfyllt að nokkru, sem og er sannað af tilburðum í kristninni, sem fram hafa komið hver eptir annan, og sem enginn ímyndaður spádómur eður mannlegt málverk hefði getað hitt á, og hvaraf hið merkilegasta er mikið auðveldt að útleggja, allt til vorra daga. þarnærst: að þar hennar allramerkilegustu atriði afmálast greinilegast og ógurlegast, og menn enn þá hafa þó ekki komið sèr saman um að útleggja þau, og að sumu leiti skilur þau

ástand frá sjöttu öld, og mikið lángt fram á tímann, til vissu 1260 ár og þaryfir, sömuleiðis laungu eptir og áður, enn þá (á vorum dögum) ekki hefir sýnt sig til enda á veraldarinnar sjón-

enginn, af því ekkèrt í kristninni er þeim fullkomlega líkt, þá hljóti þau að vera ennþá ókomin.

Bókin yrði hreint að vera undirlagslaus, sem vèr höfum seð, að er þvertámóti, ef hún framsetti slík málverk með sterkustu litunum, og enginn skildi þau enn, eptir að þau væri uppfyllt, fyrir utan, að það er borgun fyrir því, að merkilegustu tilburðirnir eru enn eptir, að manneðlisins útvíklun og hlutirnir eru nú um stundir þroskaðir til mikils meira ílls og góðs enn nokkurntíma fyrri; og að það grunaða vantrúarríki er bæði mögulegt og líklegt, og samstemmir öðrum spádómum um þeirra síðustu íllsku fyrir Krístí tilkomu; hver tilkoma menn hafa engin líkindi til að ætla að merki hinn síðasta dóm við alls holds upprisu, sem síðan skal meira umtala, heldur hans sigur yfir óvinunum, og hans ríkis uppkomu á jörðunni. Eg vænti enganveginn að útvega mèr nafn með þessari ritgjörð, eður að hún verði í tíðarinnar anda; en eg gèt ekki gjört við því, þó menn sèu eigi ánægðir með útskýríngu mína. Ef opinberanin er guðsorð sem enginn á að efa, og dýrið af afgrunninu er ekki komið ennþá, sem mèr sýnist fullljóst og enn framar mun seinna sýna sig, þá er annað ómögulegt enn að það komi og sè nálægt, og að veröldin sè að þroskast undir þann tíma; að minnstakosti gèt eg ekki öðruvísi skilið, og þetta verður að gilda mèr í stað allra röksemda fyrir hreinskilni minni, og að það sèu ómótmælanlega afleiðíngar hver af annari í þánkagánginum, en engin frekjutrú, sem eg skrifa eptir, allt þartil eg er sannfærður um, að formála greinir til ályktunarinnar sèu rángar, eður hún sjálf ránglega af þeim dregin. Á móti þessu sýnist mèr að allt verði lítilvægt, sem í móti kann að berast líkinda vegna, eður í þeirra nafni: a) að upplýsíngin sè nú ofmikil orðin og Guðs orð of útbreiðt til þess, að ennþá gèti verið von á dýrinu — b) að nú ríkjandi stærri mannkjærleiki enn fyrrum, sè meir samstemma evangelíó enn forntíðanna hráu siðir, og c) að það sè ónáttúrlegt að vantrúin gèti orðið eins almenn og hjátrúin hafi verið. Eg vil ekkèrt afgjöra óskoðað, en til þess er hálfvegis svarað í mörgu því, sem undanfarið er og eptirkèmur, og skal sèrílagi verða betur seinna í athugasemdinni við §. 141, sem eg vona gjöri þessar mótbárur ekki mjög merkar, en má þó bera saman við athugasemdir biskups Hofkins seinna hèr til færðar, og að nokkru leiti reynslu þá, sem allvíða hefir nú þegar sýnt sig.

arplátsi; frá þeirri tíð er það nefnilega ennþá óséð, sem dýrið af afgrunninu tekur að koma uppá. Vèr verðum þá nú enn að lifa undir 6. básúnunni (Tyrkjatíðinni óumliðinni). Ekki svo?

§. 113

Hinni miklu borg, sem hèr er um talað, samlíkir bókin sjálf við Ægyptaland, eitt ríki; þessvegna er það enginn eiginlegur staður (Býr). það er afgrunns dýrsins ríki, Sodóma að löstum, en Egyptaland að hatri við Guðs fólk; hún hefir krossfest Krist að nýu, það er: haldið hans blóð einkisvert (neitað forlíkun hans, það held eg náttúrlegast skiljist þar undir) og þá haldið hann fyrir lygara; Ebr: 6.; í þessari stjórn liggur vottanna lík, ritníngin, deydd það er: óbrúkuð, og það á torginu, það er: fyrir allra augum opinberlega útskúfuð.

§. 114

þetta dýr af afgrunninu hafa allir hinir eldri útleggjendur (sem sagt) þýðt uppá páfann, eður þó þær stjórnir, sem hann stýrði til ofsókna, einsog hóran sat á dýrinu (sem var þó hafdýrið). Dankel einum af þeim hefir skilist, að það ekki væri uppkomið ennþá, en þarhjá trúað, að afgrunnsdýrið yrði páfalegt einvald, sem styddi hann í hans fyrirtækjum, þegar hann hèreptir uppkæmi í meira krapti og íllsku enn áður. (þetta sýnist mèr lík hugmynd Bengels). Guldberg einum var það geymt — eg þekki ekki Faber — jafnvel þó hann hafi engar heimfærslur gjört, að skilja þetta dýr greinilega, bæði frá hórunni, og því dýri hana bar; ein mjög merkileg uppgötvan, hverju Bengel þó hefir að nokkru leiti fundið áður. þá um þetta dýr verður mjög talað hèreptir, og tilburðirnir á þessum síðustu tímum verða merkilegir, miklu öðruvísi enn á miðöldunum, leiðist að sönnu atriðið hèr fram allt til þess á miðjum tíma; en þareptir kèmur undirbúníngur, leiddur frá fornöld til upplýsíngar, áður enn byrjuð er þess algjörfa historía í undir-atriðunum.

§. 115.

„9. v.: Og nokkrir af kynkvíslunum og fólki og túngumálum „og heiðíngjum (þjóðum) munu sjá þeirra lík þrjá daga og „hálfan, og ekki leyfa þeirra líkami í gröf að leggja.“

„10. v.: Og þeir, sem á jörðu búa, munu fagna yfir þeim og „kjæta sig og sendast gjafir á, því þessir tveir spámenn „pláguðu þá, sem á jörðu búa.“

Hèr er gèfið að skilja, að forsmán hinna heilögu bóka verði til hins ýtrasta framfylgt af allrahanda fólki; þær eru látnar liggja til sjónar og spotts, og þarfyrir ei hyrt um að brenna þær; svo spilltar manneskjur kunna ei annnars enn fagna mjög, að hafa skilist við þær; jafnvel á vorum dögum mundu margir óska, að þær væri frá, og sá andi útbreiddist, af því að forlíkunarlærdómurinn, og um manneskjunnar spillíngu, og Guðs strángleika móti syndinni, finnur ekki meðhald hjá þeim, og er haldinn plágulærdómur. Hvað mun þá ekki verða undir dýrsinsríki, þegar þessir tveir vottar eru felldir, og sýnast útruddir af jörðunni? Mikil gleði!

§. 116.

„11. v: En eptir þrjá daga og hálfan kom í þá lífsins andi „frá Guði, og þeir stóðu á sínar fætur, og mikill ótti fèll „yfir þá, sem sáu þá.“

„12. v.: Og þeir heyrðu (eg heyrði) mikla rödd af himni segja „til þeirra: stígið upp híngað! og þeir stigu uppí himininn „á einu skýi, og þeirra óvinir sáu þá.“

Einsog sýnist, eptir $3\frac{1}{2}$ ár, á hverri tíð Guðorð verður öldúngis niðurtroðið, einsog helgidómur Gyðínga á dögum Antiochi göfga, sem var Anti-Kristsins fyrirmyndun, skal það upprísa aptur í nýrri vegsemd, og fara til himins sem þess herra, það er: komast til mestu virðíngar hjá mörgum aptur. Hverninn gètur slíkt, sem sumir vilja, sannast á tveimur eða fleiri líflátnum mönnum? Þess satanssonar, dýrsins, grimmasta stjórn skal vara þrjú og hálft ár, einsog Guðssonar kènníngartími var á jörðunni, sem er merkilegt; og frá þeim tíma skal dyrsinsríki hallast til eyðíngar, einsog hans vaxa. Að

þess þriggja ára yfirmakt verði drambseminnar og skeytíngarleysisins hærsta toppmál, einsog hans auðmýktarinnar og þjánínganna, þarf varla að gèta til. En segi menn mèr: hvenær hefir slíkt skèð í veröldinni? Og gèta menn enn nú vænt þvílíks af nokkurri Katólskri makt, að því leiti hún er Katólsk, eður í páfans nafni?

## §. 117.

„13 v.: Og á sömu stundu varð landskjálfti mikill, og tíundi „hluti borgarinnar hrundi og þar urdu í hel slegnar í land„skjálftanum tíu þúsund manneskjur, og hinir aðrir urðu „skèlfdir og gáfu himinsins Guði dýrðina.“

„14. v.: Hið annað vei er um liðið; sjá! hið þriðja vei kèmur bráðlega.“

Með land skjálftanum afmálast eyðileggíng í nokkru af dýrsins ríki, og að nokkrir, sem ei eidilögðust í þeim hluta, eiga þá að meðkènna Guðs vald. Flestir í áður nefndu mektugu ríki halda áfram í sinni forherðíngu. Og þarvið enda tilburðir undir sjöttu básúnu. Eptirfylgir hin sjöunda [1]

[1]) það skyldi vera mèr kjært, ef nokkur gjæti sannað, að sjötta básúnan væri nú liðin og dýrið væri hið franska skèlfíngar ríki, ásamt með þeirrar tíðar rationalistum, eptir hverra tíð Guðs orð reis upp í krapti; enn þá vildi þó þaraf leiða, að sama dýr enn nú framvegis mundi lengi stríða við Kristum og fá enda með skèlfíngu, og vera þessvegna vantrúarinnar, en ekki papiskt ríki. Samt er þar á móti, a) að kristinndómsins eyðíng var eiginlega ekki nema i einu landi; b) að tilfellin, sem hèr afmálast, eru heldur mikil til að merkja eins einasta ríkis byltíngu; c) að hið dauðsærða höfuð, sem átti að ríkja stuttan tíma, *) ein viss drottnara stjórn, gèkk ekki á undan; d) að þau 1260 ár, sem undan skyldu gánga þessa dýrs uppkomu, hafa varla verið byrjuð fyrir miðju 6tu aldar; og enn margir aðrir hlutir; svo að skèlfíngar stjórnin sýnist heldur að vera fyrirmyndan, enn þetta dýr sjálft, sem afmálast í 13da kapítula, þó neita eg ekki þverlega, að allra fyrsta byrjun þess kynni hafa skèð á Frakklandi í nefndri skèlfíngartíð, þó þess mesti kraptur framvegis sè sýndur undir

*) Sá sem átti að vera stuttan tíma, var sá sjöundi, en dýrið var sá áttundi og útaf þeim sjö. Afskrifarans athugasemd.

§. 118.

„15. v.: Og hinn sjöundi engill básúnaði; og þar gjörðust mikl-
„ar raddir í himninum, sem sögðu: ríki veraldarinnar eru
„orðin vors Drottins og hans Smurða, og hann mun stjórna
„um alla eilífð."
„16. v.: Og þeir tuttugu og fjórir öldúngar, sem frammi fyrir
„Guði sátu í þeirra hásætum, fèllu fram á þeirra ásjónur,
„og tilbáðu Guð og sögðu:"
„17. v.: Vèr þökkum þèr, Drottinn Guð! hinn almáttugi (allra
„hluta yfirherra!) þú, sem ert, og þú sem varst, og þú,
„sem kemur, að þú hefir meðtekið (sýnt) þinn mikla krapt
„og stjórnar."
„18 v.: Og heiðíngarnir (þjóðirnar) eru orðnir reiðir, og þín
„reiði (hefndar tíðin) er komin, og tími þeirra dauðu að dæm-
„ast, og til að gèfa laun þínum þjónum, spámönnunum, og
„hinum heilögu, og þeim sem óttast þitt nafn, smáum og
„stórum, og að skèmma þá sem skèmma jörðina."
„19 v.: Og Guðs musteri varð upplokið í himninum, og hans
„Testamentis örk sást í hans musteri, og þar urðu eldínga
„slög og raddir (laung slög) og þrumur, og landskjálftar,
„og mikið hagl."
Hèrvið er eptirfylgjandi að aðgjæta.

§. 119.

Með 15da versi á eiginliga að byrja nýr kapítuli, sem Guldberg telur fyrir hinn ellefta, og hann inniheldur náttúrlegast þennan lofsaung, sem er einsog spádómur fyrirfram um lyktir sjöundu básúnunnar, og stórmerki við hana. Þeir sáluhólpnu meðkènna Guðs rèttlæti og mátt, og gleðja sig yfir að hann hafi sýnt sig í móti jarðarinnar, það er: mannkynsins allra stærstu spillendum, dýrinu og þess tilbiðjendum, hvert allstaðar fyrirkèmur, sem hafandi innflot á alla jörðina; þess eyði-

sjöundu básúnu og tíundi hluti staðarins kynni vera Fránkanna skèlfíngar stjórn fyrst hann fèll undir sjöttu básúnu, hvar eptir það seinasta Katólska höfuð gat fylgt, sem nokkur hlètími, áður enn dýrið fengi sitt víðt útbreidda vald. Tíðin sýnir þetta best,

leggíng er nú viss. En af öllu, bæði því, sem hèr er fljótt yfirfarið, sem eptirfylgjandi undir-atriðum, sjá menn, hversu hræðilegur þessa dýrs máttur og harðræði hlýtur að verða, þar það álítst sem sèrleg auglýsíng Guðs eiginlegleika að steypa því; að hann ekki gjörir það fyrri enn það sýnist nærri almáttugt, sýnist oss undarlegt; en þanninn hefir jafnan gengið til, að mannanna illska verður að ná sínu toppmáli, áður enn þeir kannast við, að óguðleikans straff komi frá Guði, og einkanlega verður það ná þanninn að gánga með dýrið, sem ekki vill kannast við neina Guðs innverkun í veröldinni (hvað vorrar aldar náttúrutrú undirbýr), og öldúngis forsmáir allt hvað stendur í hans opinberaða orði, en finnur undir eins til síns mikla kraptar, sem útvegaður þykir með mannlegri kænsku og öflugum undirlags útsjónum, sem lukkast hafa. Í 14. v. sleppir Guldberg þessu: sem kèmur. Hans röksemd til að víkja frá því vanalega þekki eg ekki; en til má hún vera. Að það ord standi hèr ekki, segir hann: er af því að Drottinn álízt nú að vera kominn.

§. 120.

Þanninn er þá Ágrip historíu hinnar ríkjandi kyrkju, og dýrsins tími til þess miðju umtalaður (útmálaður) í þessu lángan tíma yfirgrípandi höfuð-atriði hinnar litlu bókar með sínum undirbúníngi að framan.

§. 121

Gjörum nú ráð fyrir, að vor útleggíng Opinberunarbókarinnar enn þá sè ófullkomin, sem síðan má bæta um af öðrum lærðari og reyndari, þá sannar það þó (fyrir utan bókarinnar stíl og önnur kènnimerki, sem enginn dauðlegur gat gèfið henni), að hin mikla bók er útlögð í tímaröð eptir historíunni, allt til Osmannanna daga, og vorra daga, og þvílík byrjun gjörð við hina litlu, að ekkèrt sýnist móti berandi merkilegt eða með rökum, að hún sè guðdómleg. Látum nú þá vísustu á vorri upplýstu tíð safna saman allri sinni mannþekkíngu og stjórnarþekkíngu, já, látum alla þá vísustu menn af hverju landi í Norðurálfu samankomna, gèfa út spádóm einn und-

ir bílætum um nákvæmt trúarbragða og stjórnar ástand, einasta einni öld fyrirfram, og vèr munum sjá, að þegar sú öld er liðin, mun spádómur þeirra varla kunna á nokkurn, því síður, náttúrlegan máta, að dragast svo til, að tilfellin hafi komið út í samhengi, samstemmandi honum, hversu miklu síður ef þeir vildi samtaka nokkuð, sem næði yfir margar aldir, hvar ný og ný óvænt innflot úr öllum áttum umbreyta að öllu, og sífeldlega grundvelli í hlutanna gángi. — Vèr skulum sjá seinna í bókinni, að Jóhannes (eiginlega engillinn) fyrir sagði ákveðið, svo mörgum öldum fyrir fram það, sem var ómögulegt nokkrum manni á hans dögum svo mikið sem fá minnstu ímyndun um; og eptirkomandi tíð mun vissulega allraljósat sýna allrar bókarinnar uppfyllíngu. En allt þetta veri einúngis sagt hreinskilnum manneskjum, og hleypidómalausum, sem standa í háska þeim, að villast af hinum vantrúuðu; en ekki hinum vantrúuðu sjálfum, þá þurfum vèr ekki að vona að sannfæra, þó geislinn fèlli þeim í augu. Dýrið af afgrunninu mun ekki heldur láta sig sannfæra; það mun bókin enn framar staðfesta.

## Undirbúníngur til eptirkomandi undir-atriða í hinni litlu bók.

### §. 122.

Aðurenn vèr byrjum á undirbúníngnum sjálfum, sem menn kunna líka kalla, ef menn vilja, atriði útaf fyrir sig (og vèr vitum, að góðir sagnaritarar jafnvel hafa þannig tekið fram fyrir í sinni tímaröð, til að undirbúa það eptir kèmur, hversu miklu framar mætti það ekki vera í spádómi), verðum vèr að minnast á, að slíkur undirbúníngur var hèr sèrdeilis nauðsynlegur, þar tilburðirnir á seinni tímum eru svo margbrotnir og margkynjaðir, að þeir ekki verða historiskt útfærðir allir í einu; og þarfyrir utan eru menn ennþá ófræddir af spádóminum um það dýr, sem bið fyrsta ágripsatriði talar um þess eðli og uppruna, og hvernin kyrkjan var undirbúin áður, og þegar það uppkom; það hefir híngaðtil alleina verið nefnt vegna þeirra tveggja votta, sem áttu að spá í 1260 ár, og það átti að deyða.

## 12. kapítuli.

§. 123.

„1. v.: Og teikn eitt mikið sást í himninum; kona ein klædd „með sólunni, og máninn undir fótum hennar, og á henn- „ar höfði kóróna af tólf stjörnum.“

„2. v.: Og hún var sem þúnguð, kallaði í jóðsótt, og hafði „(harðar) fæðíngarhríðir.“

Að konan sè söfnuður, eptir fornum spámannastíl, og það Kristí söfnuður, er efalaust; það er hans sanna kyrkja. Hún er klædd Kristi og hans rèttlæti, því hann er heimsins ljós, og á mánanum stendur hún, það er sá gamli sáttmáli, hvar á hinn nýi er uppbyggður, og hver upplýsíng líkjast kann við mánaljós í myrkri. Hennar kóróna, fyrsta (eður höfuð) prýði eru hennar lærendur, Krists postular, þeir eru tólf stjörnur; hún er þúnguð og í fæðíngarhríðum; þarum seinna.

§. 124.

„3. v.: Og þar sást í himninum annað teikn, og sjá! dreki „mikill rauður, sem hafði sjö höfuð og tíu horn, og á sín- „um höfðum sjö kórónur (konúngleg höfuðbönd).“

„4. v.: Og hans hali dró þriðjúng stjarnanna á himninum, „og fleygði þeim á jörðina; og drekinn stóð frammi fyrir „konunni, sem fæða skyldi, svo þegar hún hefði fætt sitt „barn, að hann fengi gleypt það.“

Vèr sjáum nú, hversu öldúngis nauðsynlegt var, að taka framfyrir í tímanum, til að koma fyrir þessum formála, sem eptirfylgir. Öll hin mikla bók, allt til Osmannanna daga, talar einúngis um refsidóma yfir Guðs kyrkju óvinum, og kyrkjan sjálf var enn aldrei fyrir sjónir leidd. Hèr varð konan loksins að koma fyrir, frá þeim tíma hún, sem Krists kyrkja, komst út frá heiðíngja ofsóknum, og það áður enn talað varð um drekann, sem ofsækir hana, en um drekann varð að tala fyrri enn aðalhistoríu dýrsins, þar það hefir uppruna sinn af honum. Þessi undirbúníngur, eður atriði, ef menn kalla vilja, framleiðast þarfyrir einninn, svo ei taki fyrir málverkið, þó

einúngis drekans og konunnar ástand sín á milli, allt til tíma afgrunnsdýrsins, en fljótt yfirfarið í miðöldunum.

§. 125.

Í þessum kapítula er oss sagt, að drekinn, sem ofsókti konuna, sè djöfullinn, sjá hèreptir 9. v.; hann sèst í himninum með sjö kórónum þar fyrir, þá hann ríkti með miklu valdi. Kristur sjálfur segir sömuleiðis um hann, að hann falli af himninum, þegar hans herradæmi í afguðadýrkuninni fellur. Hèr meinast þá afguðadýrkunarinnar yfirdrottan með miklu konúngsvaldi til árása við Jesú lærdóm og söfnuð. Að hann dró þriðjúng stjarnanna í hala sínum, og fleygdi á jörðina, er á fyrri tíðum af einfeldni þanninn útlagt, að satan hafi steypt með sèr þriðjúngi englanna, þá hann fèll frá hlýðni við Guð, rètt einsog þessi bók væri að tala um, hvað skèði áðurenn mannkynið varð til; en það er ljóst, að stjörnurnar eru lærendur, sem drekinn og afguðadýrkunarinnar grimmleiki kom til fráfalls. Þanninn afmálast afguðadýrkunarinnar vald, sem djöfullinn sjálfur, því verður hún að vera uppkomin og viðhaldin fyrir hans tilhlutun, sè hann annars persóna; en að hann líka sè það, og manneskjunnar fyrsti svikari, hvar fyrir hann ætíð afmálast sem höggormur (slánga), það hefir Kristur sjálfur og hans postular ljóslega kènnt sem nokkurn annan lærdóm. Að halda Kristur hafi þar í hagað sèr eptir hleypidómum Gyðínga — þó sá lærdómur sè eptir vorra rationalista meiníngu heimskulegur og skaðlegur — hann, sem jafnvel ekki þoldi þeirra freka hleypidóm um sabbatið — er eins ólíkindalegt, sem ofdirfðarfullt; og hann varð að vita hvað hann sagði, og bæði hvað hann kènndi allri veröldunni, og líka öll óhagræði og hleypidóma, sem þar útaf gjæti spunnist, og þó kènndi hann þann veg. Þessvegna hlýtur sá lærdómur að hafa verið nauðsynlegur, og það ílla, sem þaraf gat flotið í heiminum, að yfirbugast af því góða, sem hann orsakaði.

§. 126.

Þar eg við þetta tækifæri hefi snert nokkuð meiníngar

vorra rationalista (skynsemdartrúarmanna, sem kalla sig), svo má eg spyrja lesarann, hvert hann ekki finnur neitt í þeirra lærdómi, sem er beinlínis miðandi til að uppfóstra dýrið af afgrunninu? Af góðu gètur ekkèrt íllt beinlínis (meðalslaust) flotið. Vèr viljum þá skoða nokkuð af þeirra kènníngum[1], ef ei fullkomlega, sem ei fær skèð í nokkrum fáum deildargreinum (paragraphis), þá þó stuttlega.

§. 127.

Vita þeir nokkuð um djöfulinn betur enn Kristur? Hvaða mótsögn (við sig sjálfa) finna þeir í því, eður þeirra háttlofuðu skynsemi, að einn fallinn, frásnúinn öflugur andi gèti verið til, sem af öfund hefir tælt manninn? Að sá sami kunni enn að gèta lagt drög til að spilla kristinndóminum? Eru þá ekki líka manneskjur til hatursfullar við dygðina, og öfundsjúkir við aðra? Vita þeir víst, að hann ekki einstökusinnum gèti innskotið þaunkum, sem þeir varla voga að neita magnetista meisturum sínum gètu til? Eg hefi að sönnu sèð sagt eptir lærðum og trúræknum kristinndóms-kènnanda: ef vèr ættum að trúa, að djöfullinn gèti meðalslaust innskotið oss vondum þaunkum, og móti vorum vilja hrifið oss til íllverka, þá væri manneskjan aumkunarverð; en hvar stendur þannig í ritníngunni? Hvað hið fyrra áhrærir, hyggur víst ekki sá heiðursmaður sig vita betur enn Krist og postula hans; þessvegna, án þess að eg haldi á því í þetta sinn, að djöfullinn innskjóti meðalslaust vondum þaunkum, held eg einúngis það sè ekki ómögulegt; enn fyrir það síðara þurfti ekki að skírskota til neins lærðs manns. Það stendur aldrei neinn uppá, að vondum þaunkum, hvert sem þeir koma frá djöflinum eða annarstaðar að, verði ekki mótstaðið, heldur verði að setjast í verk. Það er ólíkindalegt, segja þeir: að manneskjan skuli hafa andlegann óvin, þar andar gèta ei verkað á hinn líkamlega heim. En hver hefir sagt þeim það? Er þá manneskjan einnsaman líkami? Er það ekki líka hennar andi, sem verkar á líkamann og alla líkamlega hluti fyrir utan sig? Eg vildi fyrri trúa, að enginn einsaman líkami verki

á líkamlega hluti. Andar, þó ei sèu allt skynsamir andar, en einkum þeir, verka á alla hluti; grassins líf (vegetation) er ogsvo einslags andi; og máskè allir skaptir andar hafi einslags líkama. Munu þeir vita betur enn Kristur? Neita þeir þá ekki líka öllum englasjónum, og þeirra verkunum á líkamlega hluti? Víst neita þeir þeim, einkum meðal þeirra þeir vanvitru Materialistar, sem af engu vita nema líkama, og ei eru svaraverðir; og svo miklu neita þeir af ritníngunni, sem þeim þóknast, án minnstu röksemda. það var ósamkvæmt, segja þeir, Guðs gæðsku, að líða máttugum íllum anda að vera manneskjunnar óvinur og umsitjari. En — hví það? Hafa ekki öll dýr dauðlega óvini, sem þau naumast fá umflúið? Náttúran á eptir skaparans undirlagi að nota krapta sína sem mest, sèr til verndar; þá þarf alla, sú spenníng er alls viðhald. Manneskjan ein hefir engan óvin meðal dýranna, sem hún ei með skynseminni (annaðhvort í að verjast eða umflýa) er lángt yfirsterkari, og meðal sinna líka á hún (eptir Guðs tilgángi) engan óvin að hafa. Hún er og líka andi, og meira enn einúngis skynsamur andi; skal andinn engan óvin hafa, sem hann þarf alla sína krapta í móti, já meira enn sína krapta, síðan hann í móti Guðs tilætlan spillist, og hver gat það verið annar enn framandi andi? En er ekki sá framandi andi manneskjunni allt of sterkur? gèta þeir sagt. Eg svara nei, ekki fyrst Guðs sonur, sem maður, er hans óvinur. Með Guðs krapti gètur maðurinn sigrað. þær manneskjur, sem ekki meðtaka Guðs son fyrir sinn frelsara, og vilja verka allt sjálfar án Guðs náðar, sigrar djöfullinn vissulega. Eru það ekki ólíkindi, segja þeir, að skapaður andi standi á móti sínum Guði? Hvar stendur það, að hann mótstandi Guði sjálfum (guðdóminum)? Hver hugsar það? Mótstanda ekki líka margir menn Guðs vilja, og leita annara óhamíngju? Hví fær ei einn annar andi gjört það sama? Hann gètur ekki hafa tælt manneskjuna til syndarinnar, segja þeir, heldur hennar skilníngarvit. Hvernin þá skilníngarvitin ein, nýsköpuð af Guði? Hverninn var brot mögulegt án óhlyðni, og hverninn óhlýðni án reynslu boð-

orðs? Hví vilja þeir heldur, að manneskjan hafi fallið fyrir eigin skilníngarvit? Er það ekki sama guðlastan sem að segja, Guð hafi skapað syndina, eður og að manneskjan móti hans vilja hafi sjálf verið sinn eiginn svikari? Hefði hún þá líklega hvorki fengið fyrirheit nè endurlausn, og mundu þeir vilja það? gángi þeir svo víðt og segi: hvorugs þurfti við, virðist mèr þeir væna Guð lýgi, og flýtur af slíku áliti hver guðlöstun af annari; en það mun valda, að þeir trúa ekki, að Guð sè strángur á móti syndinni, þó öll ritníngin sanni það. þegar nú jafnmikið eða meira er fyrir því í skynseminni, enn móti, að djöfullinn sè til og verki, þá á þó að minnsta kosti Jesú kènníng af hafa yfirvigt í þeim hlutum, sem maðurinn ei skilur til fulls. Samt er það ekki undarlegt, að rationalistarnir ei trúa, að djöfullinn gèti neitt í heiminum verkað, þá nokkrir af þeim hafa verið svo fíbldjarfir, að segja: Guð gèti ekki verkað á líkami, þar hann sè hreinn andi; en þótt það sè ekki einúngis vafalaust, að einúngis hið hreinasta í andanum verkar, heldur og gèta þeir ei neitað, að Guð verður að hafa skapað alla líkami, og tilbúið þeirra smágjörfustu verkfæri; sè þetta ekki að vera sjáandi blindur, veit eg ekki hvað það er. þó vèr þá trúum með ritníngunni, að djöfullinn hafi tælt manneskjurnar, og tæli enn stundum, ef ekki móti honum stríða, meiga þeir gjarnan kalla oss trúa á hann (sem er óheppin spottglósa af þeim, sem ekki sýnast að hafa minnstu hugmynd um hvað andi er). Sú glósa er annars ósönn, því vèr höfum afsvarið hann, viljum og ekki heldur hafa hann undir vernd vorri, nè taka uppá oss, að afsaka hann fyrir öllu illu í móti Guðs orða vitnisburði, því það er verra, að vera hans verndarmaður, enn trúa hans illsku; enda lýgur hann ekki einn; dýrið af afgrunninu, eður Anti-Kristurinn, sem neitar föðurnum og syninum, 1. Jóh. 4, 3. og 5. 10. samanb. 2, 22. er samslags lygari. Sè hann annars svo slægur sem ritníngin segir, svo kynni það skè, að þegar hann sèr, að enginn vill lengur dýrka hann með hjátrú, fjölkyngi og slíku, hafi hann gjört undirbúníng til þess,

að þánkinn um, að hann ei til væri, kjæmist inn í veröldina, og þótt það sèr ekki ábata minna.

§. 128.

Rationalistarnir halda það fyrir fávitsku og blindt vandlæti, að trúa Guð vilji ósamþykki komist inn milli hans barna, og Jesú lærdómur vanskapist þarmeð (eg tala hèrum þá rationalista, sem kènna sig við Jesús) og bókstafurinn þanninn takist fram yfir andann, en þræta gjörist í milli Guðs orðs í skynseminni og í ritníngunni, og útlista þetta næsta hvassorðað og spekíngslátlega (sophistiskt) með yfirskyni kjærleiksandans. En munu þeir satt segja, og ekki tæla? Á þá ritníngunni að útskúfast, hvar skynseminni (hins eða þessa skynsemi) sýnist henni ekki samkvæm? Eru það með sönnu Guðs börn, sem missklíðin gjörist á milli, hvort sem þeir eru lygarar eða sannleikselskendur? Mun Guð vilja álíta aðra fyrir sín börn enn þá, sem meðtaka hans frelsun í Kristó, trúa á hann, og lifa eptir hans kènníngu? hvað ei einúngis skèður með útvortis verkum, heldur einkum með því, að halda hjartanu til Guðs. Segir ekki Jesús um sjálfan sig, að hann sè kominn til að auka missklíð enn ekki frið í veröldinni, og gèkkst það ei eptir? Munu hans lærisveinar gèta breytt öðruvísi, fyrst mennirnir setja sig ætíð mest í móti hans opinberaða orði? Er þá Jesú lærdómur vanskapaður? Hefir hann nokkurntíma kènnt góðverk án trúar á sig? Fjallprèdikunin er að sönnu siðalærdómur að mestu; en einúngis hjartans siðalærdómur, sem þurfti til að undirbúa manneskjurnar til að taka á móti trúnni; því trú án hjartans siðalærdóms er hlutur, sem er ekkèrt; eintómis útvortis siðalærdómur dugir heldur ekkèrt fyrir Guði. Bókstafurinn á víst ekki að takast framyfir andann; en rationalistarnir kalla opt að maður gjöri það, þegar ei er. Menn verða að þekkja andann grannt, ef menn ætla að víkja frá bókstafnum; en það er Guðs og hans orðs andi, sem menn verða þá að þekkja, og þarum eru rationalistarnir væntanlega ófærir, sjá 1. Cor. 1, 18. 19. 23. 24. 25. etc. 2, 14. 15. Þeir hrópa þessvegna, að mótstöðumenn

sínir hrósi sèr af djúpum vísdómi, þó í allri auðmýkt, en kalli þá sjáandi blinda; og þeirra mótstöðumenn hafa röksemd til þess; ekki af því, að þeir hafi meiri skynsemi enn rationalistarnir (eins gèta þeir haft hana); heldur af því þeir trúa Guðs orði, sem er þeirra ljós; hinir hafa augu, en forsmá ljósið, og augu og sólarljósið gèta ekki hvort vel verið annars án, ef sjá skal. Án augna sæi menn ekki sólina, þekkti ei heldur Guðsorð án skynsemi; en trúi menn á skynsemina og hafni Guðs opinberun, líkjast þeir þeim, sem af náttúrunni sjá, en gjöra sig þó blinda. Hverninn ætti þó Guðs mál í skynseminni og ritníngunni að vera að öllu leiti eins? Að þræta sè gjörð eður verði í milli þeirra, skèður aldrei nema skynsemin sè vanbrúkuð, hvar uppá eg að eins vil nefna nokkur dæmi: að trúa á Krist, og hann sè óbrigðull, og þó ekki trúa því öllu, sem hann segir, meðal annars, að hann væri Guðs sonur kominn til að niðurbrjóta djöfulsins verk; að hann vildi gèfa sínum postulum Guðs heilagan anda; að andinn — sjálfur guðdómsins andi — skyldi tala fyrir þá; að þeir þessvegna hljóti að segja öldúngis satt, að hann hafi forlíkað fyrir veraldarinnar syndir; að straffið — rèttara kallað syndarinnar og vantrúarinnar ósæla afleiðíng — sè eilíft; að Móses og aðrir gamla Testamentisins ritsmiðir hafi vottað sannleikann; að þessvegna Guð fyrir sína engla hafi talað við Móses og annað þvílíkt; að trúa hinu fyrra, og ekki hinu síðara, er það ekki að vera sjáandi blindur, eða þó, sem nær því er það sama, að flækja sig í sjálfsmótsögnum? Er það ekki að vanbrúka skynsemina? Hvaraf þrætan kèmur. Að trúa, að Guð hafi opinberað mönnum sinn vilja með Kristó, og skynsemin sè þó nægileg; eða Guð hafi opinberað fyrir hann annaðhvort það, sem skynsemin þekkti af sjálfri sèr, eða það, sem hún þekkti ekki, og var þó umfram þörf, er það ekki móti skynsemi? (Menn sjá að eg dæmi ekki skynsemina, heldur met hana yfirmáta dýrmæta; lasta að eins hennar vanbrúkun, og hygg að margir kènni sig við hana einsog kristinndóminn, sem ekki hafa mikið af henni; hún er í sannleika einna minnst spilltur sálareiginlegleiki hjá manninum, ef vil-

jinn ei gjörði allt verra. Að trúa forsjón Guðs í heiminum, og þó ekki, að hann hafi uppbyrjað kristinndóminn, og hans forsjón ekki haldið honum við, er það ekki móti skynsemi? Að trúa, að hann hafi verið hans höfundur, og þó ekki litið til hans meir enn svo, að síðan Krists eða postulanna daga hafi hann aldrei rètt verið skilinn af nokkrum í heiminum (nema máskè rationalistunum) og allur hans andi sè affærður, og þó stjórni Guð hlutunum, og einkum meðölunum til manneskjanna velferðar, er það ekki móti skynseminni? Að halda mennirnir hafi sjálfir uppfundið trúna á einn Guð, t. d. í fornöld Gyðíngar, er þó voru ein af hinum hráari þjóðum, meðan Grikkjar, með öllum þeirra vísdómi, voru frekustu afguðadýrkarar; og þetta þvertámóti allra tíða historíu og reynslu, sem sýnir, að sjálfir hinir kristnu flestallir hafa fallið til afguðadýrkunar; og ennframar, að trúa, að skynsemi manneskjunnar hefði vakið og upplýst sig sjálfa til Guðs þekkíngar, án kristinndóms, þvertámóti allri reynslu, er það ekki í móti skynseminni? ekki að vera sjáandi blindur? Að Guð hafi skapað manneskjuna saklausa, og þó ekki straffi hana ef hún verður rángsnúin af íllgirni í hjartanu, eður ef hún meðtekur ei hans ráð henni til frelsis, hvað gjarnan fylgist að, og gengur þvertámóti ritníngarinnar vitnisburði, sem maður segist fara eptir, og kann vel að skírskota til móti mótmælendum sínum þó rángfærður sè; er það ekki vantrú? Og hver gètur talið alla þá afvegi, sem drambsamur rationalista lærdómur, er kallar sig trúarbrögð, en er ekki nema sjálfs tilbeiðsla (hin versta grein af afguðadýrkun) hefir með sèr? Hver gètur sèð glöggt yfir þær óhamíngjur (ófarir), sem hann með tíðinni gètur framleiðt?

§. 129.

Rationalistunum þykir ógègnilegt, að Jesús Kristur Guðssonur hafi liðið fyrir veröldina, og að manneskjan verði sáluhólpin fyrir trúna á hann; en þó maður gjöri best í að trúa þar ritníngunni, af því maður veit hún er frá Guði; ekki af því maður taki sjálfs síns skynsemi fángna undir

trúna, hvað hvergi er boðið (heldur rángar skynsemdar ályktanir mótmælenda), þar það er sú rètta skynsemi, að trúa því, sem maður veit að Guð hefir opinberað, en skynsemdarleysi að trúa því ekki; þá gètur maður þó samt gjört sèr hugmynd þarum, allsamkvæma Rómv. 5, 12. 14. 17. 18. 19.—21., án þess að steyta skynsemina, nefnilega þá skynsemi, sem ekki álítur allt með einhæfni, ellegar apar eptir öðrum, ellegar hefir hleypidóma, ellegar trúir ritníngunni og trúir henni ekki, sem er á móti allri skynsemi. Menn sjá nefnilega, að í hverjum heimi, sem fullkominn skyldi vera, varð Guð að skapa eina skynsama veru, þá veru, sem hann gjæti opinberað sig fyrir, og fengi lært að þekkja skaparann; annars hefði heimur verið ófullgjör og tilgángslaus fyrir hans dýrð. Þegar nú þessari veru skapaðri á jörðunni, var svo háttað, að allar skyldu framleiðast af einu pari, einsog manneskjan, og þetta fyrsta par syndgaði á móti Guðs boðorði (því hlýðnispróf hlaut fortakslaust að vera, hvar sem skynsemi var, hver Guð gat ekki leyft eitt augnablik að óbrúkuð væri til skaparans dýrðar, og manneskjurnar þessvegna gátu ekki komið villtar frá skaparans hendi einsog r a t i o n a l i s t a r n i r ætla), og allir þessa pars eptirkomendur líka, vegna þess nú spillta eðlis, sem óreglulegt var orðið, og þar eptirfylgjandi og afleiðandi allrahanda freistínga, urðu syndugir, svo að ekki einn einasti af öllum hans skynsömu skèpnum í þessum heimi fylgdi nú hans vilja; þá var Guðs tilgángur með veröldina, og þessvegna veröldin sjálf töpuð fyrir hann; hans vilji — skèpnunnar skylda — hlaut þá þó af einhverjum að uppfyllast, ef hann vildi ekki fara fram þeim óaðfinnanlega strángleika, að fordæma þessa skèpnu náðarlaust, og að engu gjöra þenna heim (því að ímynda sèr Guð einsog af veikleika viðkvæma kvennpersónu, eður lingjörfan stjórnara, að vilja umlíða syndina hvervetna, er vissulega heimskulegt); hans gjæðska og miskun er í raun hans kjærleiki til velgengni (velferðar) hans skèpna, samkvæmur hans rèttlætis straungu kröfu, að allir kraptar sèu brúkaðir til að hlýða honum; (og uppreistarsöm skèpna gètur ei annars enn orðið óverðug til að vera hans skèpna, sem með því að

fjarlægjast hann, yrði að hafa, jafnvel þó ekkèrt álagt straff væri í eilífðinni, helvíti í sèr), til þess að ná nú sínu augnamiði með jörðina, hlaut Guð (eður fann þó bezt) af því hann vildi ekki brúka hitt (hið líknarlausa) meðalið, — þar það nú var undir spilltri náttúru og allrahanda freistíngum orðið enn ómögulegra hverju Adams barni að hlýða honum, enn það var Adam sjálfum — eptir sinni gæðsku, en samkvæmt sínu rèttlæti í tilliti til þess, að manneskjan var tæld af framandi anda, en ekki af sjálfri sèr, haga því svo, að ein manneskja af Adams kyni yrði sameinuð sjálfum honum, og bæði að eðli sínu syndlaus, og fyrir þessa sameiníngu hæfileg til að mótstanda allri synd, uppfyllti alla mannlega skyldu, og legði sig undir allt. Þessi manneskja var Jesús, hvers sálu Guð eður Guðs eilífi sonur sameinaði sig á líkan hátt og sál hans líkamanum; og þessi saklausa og heilaga manneskja tók uppá sig, til að hlýða Guði, og gagna mönnunum, líka svo að bera syndarinnar straff (hvað Guð endurgaldt hans mannlegu náttúru með eilífu herradæmi yfir allri skèpnu). Þeir, sem nú trúa á hans lærdóm, og hans dauða fyrir mannanna synd, og leitast við að líkjast honum, því einkis af þessu má án vera, álítast einsog þeir hefði sjálfir lifað og liðið sem sá, er þeir trúa á og bera sig að líkjast, og einsog hans bræður og meðerfíngjar, eður hans andleg börn, líka sem þeir áður voru Adams holdlegu. Því einsog hans kjærleiki til þeirra var óendanlegur, og hans sameiníng við Guð gaf hans forlíkun óendanlegt gildi, og einsog hann er maður sameinaður Guði, og þannig hefir sameinað honum mannlega náttúru, og hans trúaðir eru manneskjur einsog hann; svo verða þeir, með því að kannast við, að þeir hefði átt að líða hvað hann leið, og fyrir þann kjærleika við Guð, og hlýðnis eptirlaungun, sem uppfyllir þeirra sálir, sameinaðar fyrir hann við Guð að nýu, og á lángtum æðri hátt enn Adam var. Ásamt fèkk nú Guð þar með tækifæri til að sýna öllum sínum skynsömu skèpnum sinn strángleika í móti syndinni, og sína gjæðsku. Gètur nú nokkur upphugsað svo verkunarsamt meðal til mannanna frelsunar (hjálpræðis)? og þegar hleypidómslaus skynsemi,

leiðbeind af ritníngunni, gètur uppgötvað svo mikið sem þetta, hversu miklu fleiri tilknýandi orsakir hefði Guðs vísdomur gètað fundið til þessa síns ráðs? Og þegar nú ritníngin kènnir á þennan hátt (og hana þurfti Guð ekki að gèfa mönnunum, ef skynsemin ein var nóg, hann hefði þá gèfið nokkuð óþarflegt, ef svo væri), eigum vèr þá ekki að trúa henni? Já, það er sannarlega ekki undarlegt, að Guðs börn, sem hafa smakkað Guðs og síns frelsara kjærleika í þessu undirlagi, gjarnan útgèfa lífið og alltaf þakklæti, einkum þar þau vita, að það flýtir þeirra nákvæmustu sameiníngu við hann; en hræðilegt er, að svo margar manneskjur forsmá þessa dýrkeyptu og sælu eilífa sameiníngu við algjæðskuna sjálfa, þar þær þó hafa fèngið náð fyrir náð. Sjá! hèr er sú sanna og skynsamlega sjálfselska, sem grundvallar sig á, og fellur svo að segja saman í eitt við kjærleikann til Guðs! Undarlegt er það, að manneskjurnar fá ei af sèr að setja sèr nákvæmlega fyrir sjónir þessarar tilhlutunar sælu, sem Paulus og Jóhannes uppörfa svo opt til, og án hvers kristinndómurinn fær aldrei sinn rètta anda, og hverju fylgir eptirlaungun eptir öllum dygðum, þá þær þó vita þær hafa sitt eðli og allt í fyrstu frá Guði.[1]

§. 130.

Af áður umtöluðu 4. v. í 12. kapítula, sjáum vèr, að þar fyrst hefir verið talað um heiðinndóminn, í hverjum drekinn ríkti, og hans ofsóknir í móti kristninni.

§. 131.

„5. v.: Og hún fæddi einn son, eitt sveinbarn, sem ríkja

[1]) Það er mikið orsakalaus umkvörtun af nokkrum á vorum dögum, að upplýsíngin sè ílla útbrópuð af rètttrúarmönnum (orthodoxum); eg set þetta orð hèr í þeirri rèttu góðu merkíngu, en ei þýðandi hvern, sem þrætir vegna trúarlærdóma. Sönn upplýsíng, sem hvorki forsmáir Guðs orð eða rángfærir það, heldur heiðrar það og fylgir af hjarta, er ekki ílla útbrópað af öðrum enn óguðlegum; sá, sem er öðruvísi á sig kominn, heyrir til dýrsins falska spámanns orðkríngi, en gyllir sig og fegrar, sem náttúrlegt er.

„skyldi yfir öllum heiðíngjum (þjóðum) með járn-valdssprota,
„og því hennar barni varð burtkippt til Guðs og hans
„hásætis."

„6. v.: Og konan flýði á eyðimörku, hvar hún hafði stað
„fyrirbúinn af Guði, að hún skyldi viðhaldast þar, þúsund,
tvö hundruð og sextíu daga."

Konan fæddi sitt barn, sem varð varðveitt af Guði, og flutt til hans hásætis, og stjórnaði þaðan heiðíngjunum. Guðs hásæti er Krists hásæti, og Krists hásæti er þeirra stjórnenda, sem hann setur fyrir sig á jörðunni. Kristnin fèkk kristinn stjórnara, sem þraungvaði þeim heiðíngjum, sem í móti henni stóðu, og Guð varðveitti hann. Keisararnir urðu þaðan af kristnir. Ei að síður varð þó konan (hin sanna kristni) að flýja til eyðimarkar, því Krists ríki er ekki af þessum heimi. Fráfall frá hinum sanna kristinndómi rak hana fljótt þángað í myrkratíðunum, einsog Makkabæa á Antiochus dögum. Hve nákvæmlega rættist það ekki á Jesú sönnu meðkènnendum undir páfadóminum? Og þetta skyldi vara í 1260 ár, sem fyrr segir. Bengel, eptir sínu undarlega tímabili, sem hann gjörir 657 ár, og eg gèt ei fallist á, lætur tímann enda 1521; en þar það víst eru 1260 mána ár, og ætti þá að byrja 261, sem er mikils til ofsnemmt, og miklu líklegra er eigi að vera seint í 6. öld, þá og sannur kristinndómur hefir verið ofsóktur í mektugustu ríkjum allt til vorra daga nærfellt; eru þau fyrsta svo enduð á vorum dögum, þó stytt væru um 18 ár, sakir mismunarins á mánaárunum, hvaraf eitt verður 360 dagar.

## §. 132.

„7. v.: Og þar hófst stríð í himninum, Michael og hans
„englar börðust við drekann, og drekinn barðist og hans
„englar."

„8. v.: Og þeir fengu ei yfirhönd, þeirra staður varð og ei
„framar fundinn í himninum."

„9. v.: Og hinn mikli dreki varð útsnaraður, hinn forni högg-
„ormur (slánga), sem heitir djöfull og Satanas, og honum
„varð fleygt á jörðina, og hans englum varð fleygt með honum.

Eptir það Jesú söfnuður hafði fengið stjórnara sinn, ríkti þó drekinn í afguðadýrkuninni; en Guðs fólks höfðíngi steypir honum loksins, eptir harða orustu með hans afguðadýrkun niður úr tigninni, þó er þekkjanlegt, að hèr er bendt til þeirrar tíðar (því þessi kapítuli er þó inngángur til hinna seinni), þá kristnin varð ríkjandi, hvar fyrir Dankells heimfærsla uppá Lútherskra, Calvinista og annara þýzku þrætur kèmur hvergi nærri. Slíkt allt eru og of ómerkilegir hlutir til að setjast fyrir sjónir með svo sterku málverki í svo merkilegum spádómi, þó aðrar kríngumstæður hefði leyft það.

§. 133.

Að spádómurinn segir hèr rètt það sama um djöfulinn sem eg hefi áður sagt, sèst af 9. versi, og seinna mun hann nákvæmlegar mála hann, svo menn hafa enga orsök til að skilja það um afguðadýrkunina útaf fyrir sig, eður aðskilið frá persónu, sem brúkar það til að framfylgja sínum tilgángi. Eg vona þessvegna, að þeir umburðarlyndu rationalistar umlíði af mèr, þó eg trúi þanninn, þar mín trúarbrögð villa mig ef svo er. Að annars fornir menn af einfeldni hafa gjört úr stríði þessu himna stríð nálægt veraldarinnar sköpun, og jafnvel nafnfræg skáldmæli eru grundvölluð á þeim misskilníngi, kèmur ekki Opinberunarbókinni við.

§. 134.

„10. v.: Og eg heyrði rödd mikla í himninum, sem sagði: „nú er sáluhjálpin (sigurinn) og valdið og ríkið orðið vors „Guðs, og herradæmið hans smurða, því sá ákjærandi bræð-„ra vorra er ofansteyptur, sem þá klagaði dag og nótt fyr-„ir vorum Guði,"

„11. v,: Og þeir hafa yfirunnið hann fyrir lambsins blóð, „og (fyrir) þeirra vitnisburðar orð, og þeir elskuðu ekki „sitt líf allt til dauðans (kusu dauðann fyrir meðkènnínguna)."

„12. v.: Þarfyrir gleðjist þèr himnar og þeir, sem þar í búa, „vei þeim, sem búa á jörðunni, og hafinu, því djöfullinn

„er kominn ofan til yðar, og hefir mikla reiði, af því hann
„veit hann hefir stuttan tíma.“

Lofsaungurinn samfagnar þeim, sem með því að útgèfa líf sitt voru nú hólpnir (sælir) í himninum, og djöfullinn gètur ei lengur ofsókt með vondra manna bakmælgi og grimmleika; Porphyrius og Júlíanus voru nú ekki lengur til eða höfðu krapt að skaða þá. En hann harmar þá nú eptirverandi jarðlega sinnuðu kristni, og vejið svarar þeirra þriggja; veja tíð í höfuð-atriðinu, einasta með þeim mismun, að þau þrjú voru útvortis óhamíngjur, en hèr talast um þá innvortis spillíngu, sem satan mundi reyna að koma til vegar í sínu miður augsýnilega ríki, nú þegar hans valdi í þeirri berlegu afguðadýrkun var steypt.

## §. 135.

„13. v.: Og sem drekinn sá, að honum var fleygt á jörðina,
„ofsókti hann konuna, sem sveininn hafði fæðt.“

„14. v.: En konunni urðu gèfnir tveir vængir mikillar arnar,
„svo hún gjæti flúið til eyðimerkur, til síns staðar, hvar
„hún uppihèldt sèr tíð og tíðir, og hálfa tíð frá augsýn högg-
„ormsins (slaungunnar).“

Á öllum miðöldunum og undir páfadómsins makt (hinni óberlegri afguðadýrkun og þessvegna af drekans eðli) varð hinn sanni kristinndómur aðþreyngdur, og flýði helzt til þeirra landa, sem á Jóhannesar dögum voru haldin sem eyðimerkur; þó þarf ekki svo nákvæmlega að tiltakast um löndin; meiníngin er: hún duldist. Tíð er ár, tíðir tvö ár, og hálf tíð hálft ár; alls 1260 dagar, það er jafnmörg ár og fyrr segir. Að sönnu hefir ekki sú kyrkja, sem fylgdi Guðs orði, verið aðþreyngd af páfadóminum á síðasta hluta þessara 1260 ára, einkum ekki síðan á dögum Lodviks 14., sem þá er líka stuttur tími; en þó hafa sannkristnir optast verið lítils virtir af þeim miklu stærra andvaralausa fjölda, jafnvel meðal Prótestantanna; og þarfyrir utan nefnist öll tíðin fyrir mestan hluta hennar, til þess ei misskiljist, að það eru hin sömu 1260 ár, sem fyrri

er umtalið, að hverjum liðnum dýrið af afgrunninu mun uppkoma, ellegar við hverra enda hóran mun missa sinn krapt.

§. 136.

„15. v.: Og höggormurinn (slángan) skaut eptir konunni af
„munni sínum vatni, sem flóði (straumi, eða á), svo að hann
„vildi láta hana rekast burt með flóðinu.„
„16. v.: Og jörðin kom konunni til hjálpar, og jörðin upplauk
„sínum munni, og svalg flóðið, sem drekinn hafði útskotið
„af sínum munni.“

Þar þessi kapítuli, sem sagt er, einúngis er undirbúníngur hinna fylgjandi, fer hann allfljótt yfir tímann í sumum stöðum, t. d.: í 14. versi. Það er því bágt að segja, hvert það flóð er, sem hann skaut út eptir konunni, til að láta hann rekast burt fyrir, að menn hafa hèr ekki tíma ákvörðun að styðja sig við; það skèði einhverntíma á þeim 1260 árum. Vèr viljum framleiða til skoðunar þetta eptirfylgjandi:

§. 137.

Vatnsflóð merkir í spádómunum mektuga yfirgeysandi óvini, og að það kom frá drekanum, sýnir, að þeir líka hafa verið afvegaleiðandi. Guldberg þekkti ekki þessháttar ofsókn móti sönnum kristinndómi með stóru ofurefli, sem þá varð afstýrt, eða hjálp kom í móti, nema eina af ofríkis yfirgángi til að leggja lönd undir, helzt ef eyðimörkin er tekin fyrir norðurlönd, hvarvið hann sýnist að benda til 30 ára styrjaldarinnar og frelsis þess, sem kom frá Svíþjóð. En menn kynni að leggja merki til, að hèr er framar talað um innvortis ástand, og hin sanna kristni er hèr heldur meint enn hin protestantisku (lúthersku eður reformeruðu) lönd; þarmeð er sagt, að jörðin, ekki eyðimörkin, hafi komið konunni til hjálpar (í hverju tilliti eg heldur ekki gèt fylgt Bengel, sem helzt tekur jörðina fyrir Austurálfuna, og án efa fer hèr mikið skakkt í kríngumstæðum svo vel sem tíma reikníngum, einsog annarstaðar honum viðkomandi). Jörðin burtrak og ekki flóðið, heldur gleypti

það. Seint í átjándu öld yfirsveimaði annars kristnina eitt flóð af bókum, hvaraf margar smökkuðu af heiðni, og sýndist að vilja reka í burt kristinndóminn með vatni sínu, og jafnvel sjálfa ritnínguna; en jörðin, jarðneskar maktir, án tilgángs að frelsa kristnina, og þá ekki sendar til þess beinlínis frá Guði, yfirsveimuðu löndin, hvarvið ofmetnaður hinna lærðu misstist (einsog þeirra þrætugirni í 30 ára styrjöldinni — sjá Opinb. 11. kap. 6. v.), og hentugleiki gafst til að gjæta að sèr. Eg afgjöri hèr ekkèrt, vegna þess vonda, sem er að finna þetta víst, þar ekkèrt er ákveðið um tímann, hvort seint eða snemma var á þeim 1260 árum, þó það sýnist heldur að vera seint; og þægi gjarnan að fá upplýsíngu þar um. Hvað sem flóðið er, sýnir þó það, sem eptirkèmur, að drekinn lætur ekki af. Þó ofsækir nú ekki sú afguðadýrkunarfulla, og að því leiti heiðna kristni hinnar sönnu limi á vorum dögum, svo vèr vitum.

§. 138.

„17. v.: Og drekinn varð grimmdarfullur til konunnar og „gèkk burt til að stríða við hina aðra af hennar sæði, sem „halda við Guðs boðorð og hafa Jesú Kristí vitnisburð.“

Menn sjá að drekinn hefir hèr nýar ráðagjörðir með höndum, hverjar að framtelja nú eptirfylgir, og fyrst tækifærið þar til (og undirbúníng, með að segja frá hafdýrinu, af hverju afgrunnsdýrið varð).

Fyrsta eiginlega undir-atriði í litlu bókinni um hafdýrið og þángaðtil miðt í afgrunnsdýrsins tíma.

## 13. kapítuli.

§. 139.

„1. v.: Og eg varð standandi á hafsins sandi (strandarbrúninni), „og eg sá eitt dýr, sem kom upp af hafinu, og sem hafði „sjö höfuð og tíu horn, og á sínum hornum tíu kórónur, „og á sínum höfðum guðlöstunar nöfn.

„2. v.: Og dýrið, sem eg sá, var líkt pardusdýri, og fæt„urnar á því einsog á birni, og munnurinn á því einsog ljóns-

„munnur, og drekinn gaf því sinn krapt, og sitt hásæti, „og sitt vald.“
Samsetníng bílætisins sýnir dýrsins grimmleika og afl, og skrímsli átti það að vera.

§. 140.

Drekinn hafði stjórnað í hinu heiðna rómverska ríki að því leiti það ofsókti kristnina, þar fyrir sást hann með sjö höfðum, teiknandi þau sjö fjöll, sem Róm stóð á, og með 10 hornum, sem svara þeim optast nær — 10 ríkjum, sem Rómaborg hafði vald yfir; hverninn sem menn telja verður það meðaltala á þeim, og þessvegna tjáist þetta höfuðríki í öðrum spádómum að hafa skipst í 10 hluti, sem finst hja Daníel. Drekinn hafði kórónurnar á höfðinu, því Róm hafði einveldi hinna ríkjanna á sínum fjalls hæðum. En dýrið, sem síðan var uppkomið úr hafinu, nefnilega af byltíngum í þjóðaflutníngunum og þareptir, hafði líka 10 horn og sjö höfuð til að vera drekanum líkt, þó með því það samanstóð af 10 aðskildum ríkjum eptir meðaltölu, uppkomnum af hinu rómverska ríki, og afmáluðum (áður) með þeim 10 tám á Nebuchadnezars bílæti, en sem vóru í einslags félagi einsog tærnar með fótunum. þessi sjö höfuð eru annarsslags enn drekans, það eru sjö konúngar, og það hver eptir annan, og bókin sjálf seinna útleggur þessvegna sjö yfirburða-ríki eður æðstu höfuð dýrsins. Guðlöstunarnöfn hefir það á sínum höfðum, það mun þá verða harðstjórnar dýr, og lasta hinn sanna lærdóm. Og þareð seinna mun sýnt verða, að það er hið sama dýr, sem hóran situr á, kunna menn að ætla þess uppruni hafi verið í áttundu öld, eður þegar Karl mikli samtvinnaði keisaravaldið og páfavaldið annað hvert 774, þá hann undirlagði Lángbarða land, og gaf páfanum Exarcha ríki (jarldóminn Gríska) eður 800, þá hann varð keisari; máskè ogsvo fyrri, 754, þá Pipin aðstoðaði páfann, sem var birjun til hans veraldlegu stjórnar, og þess að dýrið tók að bera hóruna, hvarfyrir það er ekki ólíklegt, að Karl keisari og hans frönsku eptirkomendur sèu fyrsta höfuðið. Drekinn gaf þessu dýri sína makt,

sitt hásæti og veldi, nefnilega til að ofsækja hina sönnu kristni, því hins heiðna rómverska ríkis makt fluttist til þess; þó ríkti þá drekinn ekki sjálfur, því honum var niðurhrundið af himninum, og heiðnin horfin, en þetta dýr ríkti og smágjörðari afguðadýrkun. Samt sem áður jókst drekans kraptur í því smámsaman, nefnilega: ofsóknarandinn, hvarum ransóknarrètturinn (inqvisitionen), Parísar brúðkaupið, 30 ára styrjöldin, Valdensanna ofsóknir, og þær, sem voru undir Lóðvík 14., vitna. Það var þarfyrir í þessu tilliti drekans aðstoðari og umboðsmaður, og einsog seinna sèst hórunnar reiðskjóti. Þetta dýr varð fyrst að afmálast, því það er uppruni (undirrót) dýrsins af afgrunninu, sem verður úr því annaðhvort þá það er með sjöunda höfði, eður (heldur) endurfæddu eptir þau öll sjö, sem seinna skal verða sýnt.

## §. 141.

„3. v.: Og eg sá eitt af þess höfðum sem væri það dauðlega „sært, og þess dauðlega sár varð læknað, og öll jörðin „furðaði sig eptir því dýri (eptirfylgdi því með furðu)."

Miðaldirnar eru í fleirum þessum atriðum stuttlega yfirfarnar, þeirra byrjun, kènnimerki og endi, því um eiginlega sèrlega tilburði á þeim, þar þær voru alltaf sjálfum sèr svo líkar, er það þessari bók óverðugt að tala margt. Nú eru þær liðnar, nema í eptirfylgjandi atriði er nokkuð talað um hina sannkristnu á þeim, af því það er nýtt efni, og byrjun annara merkilegra efna framvegis. Hèr byrjar sú mikla freistíng (að minni ætlan), sem koma skyldi yfir alla jörðina, og það læknaða dýr, sem öll jörðin furðaði eptir, skal sannast í því, sem eptirfylgir, að er dýrið af afgrunninu." [1]

---

[1]) Bengel, sem eg hefir nú sèð sex árum eptir það eg byrjað hafði útleggíngar tilraun mína, heldur, að hafdýrið sè páfavaldið, einkum frá Hildibrands tíð, hverju eg ei samsinni, heldur að það sèu ríkin, sem stóðu undir páfans lærdómi, því dýrið var ekki hóran, heldur sat hún á því; og hvað þau sjö höfuð áhrærir, sem síðan útleggjast fyrir sjö fjöll, er hún sat á, og sjö hinar helztu stjórnir undir hennar sið, þá er það án efa rángt, þegar Bengel síðan gjörir þær tvennslags sjö tölur að sama,

## §. 142.

Í sjöunda v. 11. kapít. og til hans enda er fyrst komið svo þær merki sjö páfaflokka af sjö Rómaborgar hálsum (dýrið hafði þó þau sjö höfuð og ekki hóran), þar það lángtum líklegar á svo að skiljast, að hóran sat líkamlega á þeim sjö fjöllum (hálsum), en andlega á þeim sjö stjórnum.

En nú er tími til, að eg mæti nokkuð þeim mörgu mótsögnum, sem neita, að dýrið af afgrunninu sè enn ekki komið, og vilja gjöra allt að hinu sama, dýrið, sem bar hóruna, og það (hverju Bengel þó mótmælir, og er þarí mèr samþykkur); áð sönnu hefir eg rekið þær með nokkrum rökum híngaðtil, og hèr að ofan í paragraphunum gjöri eg það framvegis, en þó í tilliti hinna ensku útleggjenda, er eg fyrst sá eptir það tilraun mín var samsett, og annara, sem fylgja hinni fornu meiníngu, verð eg enn betur að reyna það, og eptirláta svo lesaranum um að dæma, hvað líklegast sè.

Hvað áhrærir þær í nótunni (athugasemdinni 9. við 111. §. framfærðu röksemdir í móti því, að afgrunnsdýrið sè enn í vændum: a) nærverandi tíðar upplýsíng; b) nú ríkjandi meiri mannkærleiki enn áður; og c) ómöguleglegleikinn að vantrúin verði almenn, hverjar eg hefir hèr sett til þess, að láta mótmælendur mína fá tækifæri til að sýna röksemdir sínar í öllum mögulegum krapti; þá eru þær að litlu eða engu marki, og ekki annað enn röksemdaskyn, sem í ritgjörðinni er að miklu leiti til baka rekið, og ennþá kann að segjast þar um framar: að hvað hið fyrsta áhrærir (upplýsínguna) þá er það ljóslega samkvæmt Guðs vísdómi og rèttlæti, að leyfa ekki hinni miklu freistíngu að koma yfir jarðríki fyrri enn mennirnir eru orðnir hið besta undirbúnir af upplýsíngu og brúkun Guðs orðs til að móttstanda henni; það stendur og hvergi, að ekki verði sannkristnir á jörðunni þá dýrið uppkèmur; heldur það, sem því er á móti, einúngis að þar verði orðið mikið fráfall frá þekktum sannleika. Hvað hið annað áhrærir (mannkjærleikann), þá sýnist það að vísu svo, en er ekki fullvíst, að nú sè meiri mannkjærleiki í veröldinni enn áður, jafnvel þó eg ætli hann sè ekki meiri í samanburði við þekkínguna; en jafnvel í þeim hlut gètur hin óstöðuga veröld ennþá spillt sèr, og breytt um þánkahátt, einkum hvað kjærleikanum til Guðs ótta og hans dýrkenda viðvíkur; já, undir dýrinu mun einnig hinn falski spámaður mæla mjúklega. Þriðja mótbáran (um almenna vantrú), er nærþví allrasíst óbrigðul, því þó híngaðtil hafi almenn vantrú ekki ríkt í kristinni kyrkju (í heiðninni fyrir Krists fæðíngu vita menn

við þá tilburði, sem ennþá, árið 1829, þá þetta var skrifað, eru undir tímans fortjaldi, og hèr byrja þeir aptur; enginn

---

samt hún var almenn, og er því möguleg), þá mundum vèr fá allt annað að sjá, ef eitt ríki kjæmi upp, voldugra enn nokkurt fyrri á jörðunni, framar vegna tilhneigínga innbyggjenda sinna, enn af yfirmakt, og sem af jarðlega sinnuðum manneskjum yrði á allan hátt furðað sig á, og ei einasta sjálft væri vantrúað, heldur hefði líkt eins furðanlegan og í mesta máta tælandi aðstoðara, einsog hinn falski spámaður er afmálaður. Því verr! allareiðu nú eru ærið margir, sem miklu meir fylgja vantrúnni og fúslegar, enn sannleikanum og Kristí krosslærdómi. Og þó gèfur spádómurinn að skilja, að ætíð muni verða nokkrir sem yfirvinna allt þetta. Eg stend nú eigi svo mikið sem á því, að mínar röksemdir hafi yfirborð yfir mótröksemdunum a, b og c, en á því stend eg, að þær hafi jafnmikið fyrir sèr; helzt þegar menn aðgjæta, hversu óstyrk mannleg dygð er, þegar hún fer að treysta sèr sjálf, án tilhalds til Guðs hjálpar. En það, sem nú verður að gjöra allt um, er, að maður gètur ekki annað enn játað, að opinberanin sè guðdómlegur spádómur, og ef þá verður sannað, að dýrið af afgrunninu sè ekki það sama, sem ber hóruna, og þessvegna eptir bókinni ekki komið ennþá.

Þetta vil eg nú reyna ennframar:

3. v. segir, að öll jörðin hafi furðað sig yfir dýrinu, sem var læknað, með fleiru, sem þar eptir kèmur, að það hafi fengið vald yfir öllum kynkvíslum, túngumálum og þjóðum, sjá 7. v.; mun slíkt verða sagt af nokkrum sannleiks elskanda um nokkurt af þeim ríkjum, sem hafa verið páfanu aðstoðandi, ellegar eptir spádóminum borið hans kyrkju? Víst ekki. Lángt frá ekki einusinni um Karl hinn mikla, hvers stjórn eður vald þó enganveginn var það höfuð, er uppkom af hinu dauðsærða, eður eptir það. Og hvernin gètur nú páfans kraptur eða þeirra konúnga, sem af honum hánga, orðið hèðanaf svo mikill, að þeir fái alla aðra undirþrykkt? Að ákveða ýtarlegar, hvenær þetta dýr á upp að koma og deyða vottana, sem Williams sjálfur heldur ennþá fyrir ekki skèð, og eg raunar líka, hygg eg vel með honum ofdjarflegt sè; en vèr munum þó fá að sjá, að hann ákveður aðra ekki meira áríðandi hluti nógu ýtarlega, þar sem eg þarámóti hefi hreift þeim þánka í 108. §., að upphaf þeirra 1260 ára sýnist að vera með vilja dulið af forsjóninni, uppá það manneskjurnar ekki skuli vita ákveðið nær þau taka enda, því strax þaráeptir verði miklir hlutir, hverra byrjun þá var auðveldt að finna. Mínar ákvarðanir tímans hèreptir eru

dauðlegur kann þessvegna vita þarum annað enn gátur, og það, sem bókin sjálf upplýsir. En af því þessar upplýsíngar

---

og ekki fortakslausar, og eru ei kallaðar annað enn lausar tilgátur, til nákvæmari eptirþánka.

Í þrettánda kapítula 21. Lection, segir áður nefndur lærði maður (Williams), að dýrið af hafinu, eptir Guldberg og allri sannsýni það sama, sem bar hóruna, sjá 17. kap. 7. v., hvað eg hefi nákvæmlega útlistað, sè hið sama, sem hið fjórða dýr hjá Daníel. Þetta er í rauninni rètt, en að svo miklu leiti órètt, að þar það kom upp af hafinu, það er: veraldarinnar umbrotum á þjóðaflutnínganna tíðum, þá var það eiginlega samansett ríki af hins rómverska ríkis rót (þær tíu tær á Nebuchadnezars bílæti). Þessvegna er eptirfylgjandi ímyndan ritsmiðsins, væntanlega tekin eptir Newton, að það hafi verið dauðsært undir Augustulusi, og læknað undir Karl mikla, eptir minni ætlan rugluð, því hið rómverska ríki hafði í rauninni ekki nema eitt höfuð (þó sjö sèu talin í spádóminum í öðrum tilgángi, nefnilega: hvert eptir annað, þá hið rètta var farið, og áður alleina í tilliti drekans bústaðar), en aldrei tíu horn með kórónu á hverju, og var aldrei sú veraldlega makt, sem studdi páfadóminn, ekki að tala um, að Karls ríki, sem náði sumpart yfir önnur lönd, og sumpart vantaði önnur, sem hið rómverska ríki rèði yfir, og enn síðar hinna þýzku keisara, var rómverskt, þó mönnum hafi þóknast að kalla það svo. Þvílík makt, dýrsins ríki af hafinu (jafnvel þó hún sjálf væri til fyrir daga Karls mikla), uppkom þó fyrst algjörlega með honum, og hennar höfuð verða að vera þær helztu stjórnir í henni, eptir hans daga; Fránkaríki hið fyrsta, þareptir Ottonanna ríki, sem menn gjarnan kunna telja viðhaldist hafi til milliríkisins (Interregnum) og svo frv., vissulega máskè ekki alltíð keisaranna, en ætíð hin mektugustu einveldi í hinni rómversku kyrkju, hvarvið maður verður sèrdeilis að aðgjæta umbreytíngarnar, ef maður vill reikna höfuðin út, til þess sjöunda, sem sært var.

Bengel heldur hið fyrsta höfuð kunni einsvel hafa verið sært sem hið síðasta, og gjæti þá þó Frakkland verið hvorutveggi sú stjórn. Ekkèrt af þessum höfðum var þá sært þarsem Augustulus var, því spádómsins 13. kap. 3. v. er allt annað enn 6. kap. 13. v., sem er umfall Vestur-Rómaríkis. Ei heldur kom afgrunnsdýrið upp undir Karli mikla. Menn þenki hvílíkt trubl! Vottarnir skyldu vera menn, og enn ekki deyddir alla páfadómsins tíð, hver ei heldur gètur verið þetta dýr,

gèfast um það, sem viðvíkur dýrinu af afgrunninu, greinilegri enn um allt annað, þar forsjónin þekkjanlega hefir viljað vara

---

en verða það fyrst hèreptir! Allt þetta rugl kèmur af því, að menn hafa haldið páfann og páfadóminn þann síðasta (mannlegan) óvin, og dýrið af afgrunninu fyrir hið sama, sem bar hóruna, hvað eð veldur margslags tímarugli fram og aptur í skoðun spádómsins — þó — eg meina allt þetta sè svo skilmerkilega sundurgreiðt í útleggíngu minni, að menn gèti ei annað enn samsinnt því framar þessari útlistun, sem hèr stendur. Að drekinn verði tilbeðinn undir dýrinu af afgrunninu (hvert William heldur sè hið veraldlega páfavald), útleggur hann svo, að afguðadýrkunin innfærist í þennan ránga kristinndóm; en hvaraf kèmur það þá, að hóran sjálf er hvergi afmálað sem hún sè drekans bílæti, eður hans umboðs persóna, heldur einasta blóðþyrst hóra? Væri það ekki miklu líklegra, að ein við Krist sèrlega hatursfull veruleg heiðni innleiddist undir afgrunnsdýrinu, sem ei er enn uppkomin? Ritsmiðurinn (Williams) hefir þó samþykkt, að vottarnir sèu enn ei deyddir, og það verði fyrst eptir 1260 ár, sem ei sèu enn þá (þá hann skrifaði) fullenduð; þá á fyrst dýrið að sýna sig í sínum fulla krapti. Hverninn gètur það þá orðið páfadómurinn, og margra hundraða ára gamlir tilburðir heimfærst til tíma, sem enn eru ókomnir? Hin 22. Lection hjá nefndum ritsmið er svo flækt, að eg verð að útliða meiníngunu þarí nákvæmlega.

„Það annað dýr, sem uppkèmur af jörðunni,“ segir hann, „sambýður hinu „litla horni hjá Daníel, og er hins fyrra, eður veraldlega dýrs fyrsti ráða- „nautur (aðstoðari, minister) og umboðsmaður, það olli, að mennirnir „tilbáðu hið fyrra dýr.“

Daníels horn er víst Anti-Kristurinn sjálfur, en þetta dýr eptir spádóminum hans Minister.

„Einsog hin veraldlega stètt (segir Williams framar) setti þá andlegu í „vald og auðæfi, svo styrkti hún aptur hinnar krapta í þeim myndug- „leika, er páfadómurinn var byggður á.“

Hèr er útleggíngin svo gamaldags, að bæði dýrið af hafinu, og hóran (sem reið því, 17. kap. 3. v.) og dýrið af afgrunninu, og dýrið af jörðunni eður sá falski spámaður — er nærri því gjört allt að einu; þar þó sá allstaðar í mestalagi fáorði spámaður gjörir hinn greinilegasta og margbrotnasta mismun á þeim. Hann kènnir, að dýrið af hafinu beri að sönnu hóruna, og sè þessvegna í sambandi við hana; en dýrið af afgrunninu sè hennar óvinur og eyðileggjari, og hafi einúngis samband við dýrið af jörðunni

við því, og kènnimerkin eru svo mörg, sem á því eru, að það munu ljósara sýna sig við uppfyllínguna enn allt annað í spá-

---

eður hinn falska spámann. Látum hóruna og dýrið af haflnu nógu lengi hafa styrkt hvort annað. Dýrið af afgrunninu, hverju lýst er verr enn hórunni, og hverju hún ekki reið, kèmur henni ekkèrt við; og ímyndanir hèrum bæði hjá Williams og Tuller eru, eptir minni ætlan, þekkjanlega ruglaðar, af því þeir hafa þann hleypidóm, að gjöra páfadóminn að öllu, hvar enginn útleggjari kèmst útaf.

„það gjörir stór teikn (Williams orð) og því sama er spáð um mann „syndarinnar 2. Thess. 2, 9. (sem rithöfundurinn heldur fyrir sama), og „þanninn hefir það gengið til um papistanna lognu kraptaverk, hvar „með þeir hafa leiðt ótal manneskjur í villu."

Eg játa, að gjæti nokkuð leiðt til þeirrar meiníngar, að afgrunnsdýrsins falski spámaður væri hinn cathólski klerkdómur eður múnkastètt, þá yrði það að vera þeirra falsklega uppdyktuðu kraptaverk, sem sýnast að samstemma þessu, en í engum öðrum hlut líkjast þeim. En af því að halda þetta sè sama, flýtur á ný allt ruglið og ósamstemma tímanna og fleira líkindaleysi, sem enginn kèmst frammúr. Menn verða þarfyrir í þessum einstaka stað að leita annara útvega. það er nú sannað og skal ennfremur sannað verða, að afgrunnsdýrið ekki er enn uppkomið (þekkjanlega eður með fullri vissu), og þá ekki heldur þess falski spámaður, og líkindi eru til þess, að páfadómurinn leiði hèreptir afvega með fölskum kraptaverkum. Gjæti það ekki skèð, að múnkakraptaverkin (sem í raun ekki voru annað enn ímyndun) og þeirra falskleiki afmálist einúngis í þessari bók, þarsem talað er um hórunnar sterka töfrandi hórudrykk 18. kap. 3, 23. v.? það sýnist nóg sagt um það efni, í samanburði við bókarinnar alvörugèfni og fáorðu spádóms aðferð. Menn vita þarfyrir utan, að hver einn spádómur talar ekki ýtarlega um allt hvað í öðrum er fyrir sjónir sett. þanninn hefir hvorki Kristur nè postularnir kènnt ljóslega um þúsund ára ríkið, og Opinberunarbókin ekkèrt um Gyðínganna umvendun. Í öllu falli kynni Paulus hafa meint falskraptaverkin í páfadóminum, 2. Thess. 2, ef hann meinar páfann með manni syndarinnar, hvarum eg ei sýsla, þó mèr sýnist annað líklegra. Gjæti og ekki bæði páfinn og afgrunnsdýrið haft samslags kènnimerki — falskraptaverkin — með sèr, en hið seinna eptir sínu eðli miklu meira blindandi enn hin fyrri? Ekki að tala um, að múnkakraptaverkin leiddu að eins á fleiri afvegi þá, sem á afvegum voru áður, en drógu engann frá sannri guðsdýrkun; þau voru og

dóminum, þá það einusinni kèmur; þá gèta menn með samanburði spádómanna sagt heilmikið þarum. Hversu skèlfilegt

af öldúngis öðru eðli enn þau, sem umtalast í 13. kap. 13. v. „það sýnd-„ist (Williams orð) sem það gjæfi hins fyrra dýrs bílæti líf og mál; hins „fyrra dýrs bílæti er bílætadýrkunin, þar heiðíngjar tilbáðu bílæti fyrrum, „en seinna papistar; og einsog heiðnir prestar trúðu, að þeir gjætu „gjört sína Guði lifandi, hafa papistar látið sem eins væri um þeirra bílæti.“

þetta sýnist mèr bæði ruglað og þvíngað; hið fyrra dýr er hèr þó ekki hið heiðna rómverska ríki (það studdi aldrei páfann, ekki heldur uppkom það af einu særðu höfði þess dýrs, sem bar hann); heldur dýrið af afgrunninu, sem uppkom af því höfði, hvers dauðlega sár var læknað. Bílætadýrkunin gat þá ekki verið þess bílæti, enn síður kunni hún og lífgun heiðinna eður cathólskra bílæta (sem var öldúngis grundvallarlaus þvættíngur) að framsetjast í svo merkilegum spádómi, sem Opinberanin er, með mörgum og margbreyttum kríngumstæðum. Menn beri þennan stað saman við Opinber. bókarinnar 9. kap. 20. 61. v., hvar allir játa, að talað sè um papiska bílætadýrkun; hversu ólíkt! þar stendur og ekki: það lèt sem það gjæfi, heldur: því varð gèfið að gèfa dýrsins mynd eður bílæti anda, samt annaðhvort væri ofsagt í spádóminum í móti hans eðli og ósatt, eður lángtum merkilegra enn að láta sem það gjæfi; það er miklu líklegar útlagt af Guldberg, og mèr eptir honum í minni tilraun, um ennþá ókominn mikilsvarðandi tilbúníng í vantrúarinnar ríki. Fuller bætir við: „að einsog sagt er um hið veraldlega dýr, að það haldi stríð „við hina heilögu, svo er sagt um hið andlega, að það valdi þeirra deyð-„íngu, og hversu vel samstemmir ekki þetta rannsóknarrèttinum og Jesú-„ítanna viðburðum?“ þetta hefir svo mikla líkíngu með papiskunnar framkvæmdum, það játa eg, að það sýnist blindandi meir enn allt annað, sem hinir gömlu útleggjendur hafa styrkt sig við; en það sýnist einasta svo; bókin lýsir því greinilega, að hóran sè drukkin af blóði hinna heilögu 17. kap. 6. v., og að dýrið, sem hún sat á (ekki afgrunnsdýrið), hafi fullt verið af guðlöstunar-nöfnum, hafi því þjónað henni að manndrápunum; og þetta er nóg til að innibinda í sèr rannsóknarrèttinn eptir bókarinnar stuttorða og sterka stíl, samt allur hórunnar hræðilegi vitnisburður í gjörvöllum 18. kapítulanum. En hèr er vissulega talað um nokkuð annað, sem allt samhengið og mín útleggíngar-tilraun sýnir. Eg skal seinna við tækifæri sýna það samstemmuleysi við sjálft sig, sem af því leiðir, að

má ekki þetta dýr verða, þá nærri helmíngur bókarinnar höndlar um það, þar þó þess tími á að verða stuttur í samanburði við önnur tímabil í bókinni; ber saman Dan. 12, 11. Sjá §. 143.

§. 143.

Eptir Guldbergs vegvísun sjáum vèr, að dýrið af hafinu heldur áfram að vera það sama, þó það skipti höfðum; en hið sjötta (eptir hans meiníngu), hví ei hið sjöunda? höfuð særist banasári; og því verður það með hinu sjöunda (hans orð) eður eptir þau öll, endurborið (eg held dýrið með þeim sjö höfðum þjóni hórunni, sjá 17. kap. 11. v.) einsog nýtt dýr, eður uppvakið til að fá nýtt líf, og umbreytt. Þetta endurborna dýr heldur Guldberg eptir 17. kap. 10. v. vari lítinn tíma, og eptir 11. versi fari burt til fordjörfunar; máskè hann hafi mistekið til í þessu eina, og haft þar tilefni til, sem eg gèt í 14. §.; en það er mèr nær að trúa, að sjöunda höfuðið nefnist í 10., en nýa dýrið í 11. versinu, sem þá verður að vera dýrið af afgrunninu, en hitt með sjö höfðunum dýrið af hafinu. Hið nýa dýr er það, sem allir skulu furða sig yfir og eptirfylgja. Það kèmur upp undir 6. básúnu, en fær hegnínguna undir hinni sjöundu.

§. 144.

„5. v.: Og þeir tilbáðu drekann, sem hafði gèfið dýrinu vald, „og þeir tilbáðu dýrið og sögðu: hver er dýrinu líkur, og „hver kann að stríða við það?“

Allar jarðarinnar manneskjur, allir, sem elska jarðneskar girndir, munu furða sig yfir drekanum, hins rómverska ríkis heiðna þánkahætti, sem þetta dýr sýnist þá vilja kappkosta

---

halda papistadómurinn sè allt. Hvenær var og sú tíð, þá öll jörðin fylgdi páfadóminum, og furðaði sig yfir honum? Voru ekki fjölmennu Serkir og Tyrkir hans gríla, og honum jafnboðnir að makt? og hin voldugu ríki Chínesa og Mongola honum mótsnúin og allir heiðíngjar? Og hvaða samgánga var í miðöldunum við allar jarðarinnar þjóðir, sem dregið gjæti þær á eitt mál?

að líkjast og yfirgánga, og undir eins djöfulsins ástæðum og djöflinum sjálfum, en hæða og útskúfa opinberlega Guðs auglýsta orði og Jesú lærsómi. Hversu mjög hneigist ekki nú í mörgum löndum vorrar aldar andi eptir þessu, en byrjaðist í Fránkaríki með Jacobínunum í skèlfíngartíðinni!

§. 145.

Hvað nú þetta dýr (hvort sem er hið fyrra með sjöunda höfði, eður annað nýtt) er fyrir nokkuð, gètur enginn dauðlegur sagt fyrri enn tíminn upplýsir það, ei heldur ákveðið, hvar þess aðal-aðsetur er; einúngis á það að verða einhverstaðar í þeim löndum, sem hóran ríkti yfir; það fáum vèr síðar að sjá. Engin konúngsstjórn af hennar aðstoðarmönnum hefir haft þvílíka makt sem þess (makt) er lýst, og undir engri þeirra hafa menn tilbeðið hina rómversku heiðni. Guldberg og Balle er mælt hafi óttast, þá hin franska skèlfingartíð uppkom; sè það satt, kann vera hinn fyrrnefndi hafi talið eptir og meint sig að hafa fundið 6 höfuðstjórnir undir páfadóminum, og óttast fyrir hinni sjöundu, einkum þareð Ný-fránkarnir voru í þann tíma ógurlegir. Ó! að sú tíð væri ei hinnar undanfari eður forspil mættum vèr segja, en fyrir utan þau kènnimerki, sem bókin tiltekur, megum vèr ekkèrt heimfæra. Þau eru og munu verða þekkjanleg, þegar þau koma, og hvaðan, sem þau koma frá; að ætla slíkt um eitt fólk fortakslaust, ennframar um einn vissan konúng eður persónu er fávíslegt, og má orsaka fávitsku. Dankell heldur þetta dýr verði páfans á ný, með aðstoð indifferentista, það er þeirra, sem leggja öll trúarbrögð að jöfnu (uppkomandi vald), (því hann hafði þó sjón á því, að það var allt of ruglað í tímanum og ólíkindalegt að gjöra úr því keisaradóm Karls mikla, og ekkèrt af þess einkènnum hafði sýnt sig híngaðtil á veraldarinnar sjónarfleti); en hans meiníng er án efa fyrir utan grundvöll; þó sýnist hans grunur um indifferentistana ekki að vera svo lítilsverður þánki. Þeir eru feður

hinna freku rationalista, og þessir gèta aptur orðið (feður) hins falska spámanns.[1]

§. 146.

Kelber, hversu undarlegur sem hann er, hefir þó, að minni ætlan, mikið vel útlagt Krists spádóm um Jerúsalems eyðileggíngu, sína tilkomu og hinn síðasta dóm, og skildi það hvað frá öðru. Lærisveinarnir spurðu Jesús um þessa þrjá hluti, sem þeir hèldu mundi koma strax hver eptir annan; hann svaraði uppá það allt, en útlistaði það ekki svo nákvæmlega sundurskilið, þar hinum fyrstu kristnu mun hafa verið nytsamara að vera í óvissu um sundurdeilínguna; hinir seinni hafa allt of mjög fylgt vananum, sem uppkom í páfadóms tíðum í því að trúa það væri allt eitt, og seinustu tíma lærðir menn aptur gèngið annan afveg, heimfært það mestallt uppá steypíngu Gyðínga-stjórnar. Nú er það ljóst, fyrst Kristur þó í raun útskírði hvað fyrir sig, að frá Math. 24. 5 til 35. v. talar hann um hluti fyrir og við Gyðínga stjórnar eyðileggíngu, hvaraf nokkrar greinir, til dæmis 13da, 14da v., kynni ásamt að benda til tíma hans síðari tilkomu, að svo miklu leiti tilfellin verða hin sömu, annars má eg viðurkènna, að eg skil þau ekki glöggt; en frá 35ta v. til kapítulans enda, og í 25ta kap. til 30. v. talar hann, eptir því sem tèður ritsmiður stendur á, og eg trúi, um sína tilkomu; fyrir hverja eg ætla ætíð skiljast eigi hans dómsdagur yfir kristinndómsins óvinum, Drott-

---

[1]) Í hinum lærða og allvelgrundvallaða formála fyrir Dankell (sem eiginlega meinar með indifferentistum (jafngildismönnum) svokallaða syncretista (samblandara) (í hverri merkíngu þeir ogsvo takast hèr) telur P. Rosenstand Goiske meðal hinna fyrstu, allra handa vanvirðendur trúarbragðanna; þvílíkir sem þeir verstu af þeim verða, uppá hverja hann framsetur einstöku dæmi, kynni vel að verða óguðlegri enn nokkur núverandi venjulegur rationalisti, en ekki ólíkleg ímynd dýrsins sjálfs, og þess falski spámaður á sinni tíð, svo hræðileg er þeirra lýsíng. Þvílíkum sýnast ekki ósvipaðir theophilantroparnir í skèlfíngartíðinni, St. Simonistarnir, uppkomnir í Fránkaríki nálægt 1825, philaletharnir uppkomnir 1830, og nokkrir frekustu rationalistar.

ins mikli stríðs dagur, sem hinir fornu spámenn umtala, dýrsins og falska spámansins eygileggíngardagur, Opinb.bókarinnar 19, 20. v. og hið sama, sem finnst hjá Daníel 7. kap. 11. v, hvað eð kèmur saman við það, sem Paulus skrifar 2. Thess. 2, 8, hvar sagt er Kristur muni eyðileggja mann syndarinnar við uppbirtíng sinnar tilkomu, hverr syndarinnar maður kèmur fyrst upp eptir hið mikla fráfall [1]). Áður nefndir spádómar, fyrir utan Páls brèf sýna ljóslega, að jörðin á ennþá að vera í sínu nærverandi ástandi laungu eptir þessa Krists tilkomu, og Páll samsinnir því á öðrum stað, þá hann talar um röð upprisunnar hvarum seinna skal gèta. Fyrst eptir Math. 25, 31. v. talar Kristur um hinn síðasta dóm sem þó eiginlega sýnist að lýsa einum parti hans og einkum miða til kristindomsins og hans móttöku. Þó gèf eg mig ekki inní það. Þessa deilíngu á Krists spádómi útfærir Kelber, að minni ætlan, mikið vel, og ber saman við Opinberunarbókina. En þar eptir hefir hann efalaust fallið til þeirrar frekjutrúar

---

[1]) Eitt af óteljandi röksemdum fyrir, að ekkèrt páfadóminum viðkomandi sè afgrunnsdýrið, er þess sterka mótstaða og skyndilega fall, því þetta, sem skèður við Krists tilkomu, ásamt hinni miklu umbreytíngu, sem þá verður, gètur ekki náttúrlega útlagst um vissrar kyrkju myndugleika eður viss trúarflokks smávaxandi hnignun, einsog páfans, heldur bæði móttþróinn og fallið um tvö yfrið bersýnileg fyrir allri veröldinni, sem eptir spádóminum koma hvert nærst öðru; því eigi hann að ná sínum tilgángi, verður hann að upplýsast til fulls af þeirra kènnimerkja þekkjanlegleika, og menn leita forgèfins eptir í historíunni að finna þar nokkuð þvílíkt til þessa dags. Það er alleina sèrlegt um Kelber, í vissan máta hálfvegis frekjutrúarmaður, og sá hálærði Bengel samstemma mjög í því, að láta afgrunnsdýrið uppkoma um og strax eptir 1830; og árið 1836, sem Bengel heldur merkilegt að nokkru leiti vegna útreiknings hans, sem er hleypidómsblandinn, er þó í því tilliti aðgjætandi, að þá eru frá Krists fæðíngu þrisvar 600 og 6 sinnum 6 ár; þó mèr finnist það ekkèrt sanna verulega að svo merkilegt sè, nema tímanna teikn á þessari og eptirfylgjandi tíð væri grunsöm og líkleg til stórmerkja tilburða, sem til spillíngar bendi; svo sem þeir þrír áðurnefndu vantrúarflokkar stærri og frekari enn nokkurntíma áður uppkomnir í kristninni, og mikill fjöldi materialista (þeirra, sem trúa engri sálu), sem nú er sagt einkum sè á Frakklandi, samt óteljanlegir í öllum löndum útbreiddir frekir rationalistar, og almennur taumleysis andi.

þánka, sem hann stundum hefir, þegar hann heldur, að dýrið uppkomi 1830, og nærri því með sama eyðileggist, og Kristí vegsemdar ríki byrjist á jörðunni — hvað sýna virðist lítinn umdæmíngarkrapt og þekkíngu um hlutanna mögulega gáng og spádóminn sjálfan; til þess mun hann án efa tældur af þeirri ákvörðun sinni fyrirfram, að hin seinasta stund, (eptir hans meiníngu 12. partur af kristinndómsins degi) byrji með hinni frönsku stjórnarbiltíngu. Víst var það nýtt tímabil, og þó athugaverðt, en þó varla hin seinasta stund af kristinndómsins degi. Og sá sami fyrirfram niðursetti tímareikníngur hefir villt fyrir Bengel, sem hèr sèst undir í athugasemdinni á bls. 127, hennar seinna parti; þar menn þó eiga að láta tímanna teikn einúngis leiðbeina, án þess að ákveða ár, og einasta þar meiga gèta sèr til, að kunna fara nokkuð nærri, sem bókin gèfur tilefni, þó ei kalla það annað, enn nærst líkindum. En því miður! eru allt of margir, sem blanda þessum hlutum saman, og tiltaka svo ákveðin ár uppá víst, og gèfa með því rationalistunum efni til að hæða þeirra trúgjörnu spádóma, sem ekki koma fram. Þarámóti þegar vèr hugsum uppá eitthvað víst, án þess að ákveða allt of nákvæmlega það, sem óséð er, þó vèr tiltökum eitthvað eptir líkindum, einasta til nákvæmari eptirþánka, og hittum ekki rètt á, er það þó betra enn að hugsa ekkèrt um þvílíka hluti; því fyrir utan það, að það gjörir oss varúðarmeiri, kann eitt og annað að gèfa ljós. Þarhjá sýnist mèr það hittið innfall hjá Kelber, er hann segir: að þegar satan í hinu ýtrasta æði sínu vill reyna til að ná með ófrjálsu (usurpation) Guðs stjórn á jörðunni, setji hann, til þess í öllu jafni sèr við Guð, sinn son, dýrið af afgrunninu til stjórnara jarðarinnar í sinn stað, og gèfi honum sinn anda, hinn falska spámann, sem hèr eptir verður umtalað í bókinni, til aðstoðar; hvað ekki fer lángt frá afmálun bókarinnar sjálfrar.

## §. 147.

Hverninn sem allt er, svo held eg fyrir víst, að dýrið af afgrunninu, og ekki svo öldúngis páfinn, sem menn híng-

aðtil hafa ætlað, sè hinn eiginlegasti Anti-kristur — (Jóhannes segir þeir sèu margir, og það eru í raun allir óguðlegir, því má páfinn fyrir mèr vera einn hinn versti, enn ekki sá eiginlegi). Um þennan talar Daníel 7. kap. 25. v.; um þennan væntanlega Paulus 2. Thess. 2. þessi niðurtreður allt Guðs orð og útskúfar því, og ríkir í sinni illsku sem Guð í 3½ ár (Guð forbjóði að spádómurinn meini lengri tíma!) hvar í Antiochus göfgi var hans fyrirmyndun; rètt eins lengi og Kristur Guðs sonur kènndi á jörðunni; og mun þá verða sú hræðilega tíð, sem um gètur Dan. 12.; en hans verkunar- og stríðstíð mun vara miklu lengur. Samlíkíngarnar eru svo ýtarlegar og spádómurinn svo skýr, að ekki verður öðruvísi útlagt. Menn hafa þessvegna ekki minni rök til að kalla hann djöfulsins son, enn Páll til að kalla svo Elymas. Jóhannes, sem framar öðrum postulum hefði og mátt þekkja Anti-kristinn nákvæmlega, vitnar líka 1. Jóh 2, 22., að lygarinn sè Anti-kristurinn, sem neitar föðurnum og syninum, og að það sè eiginlega Anti-kristsins andi að neita syninum — að Guðs sonur hafi gjörst maður, og liðið fyrir mennina — hvarfyrir það líka hlýtur að vera hans meðverkara, hins fálska spámanns, andi. þetta hefir páfinn aldrei gjört; hann hefir framið hórdóm, hans kyrkja var gipt Kristó, en er orðin að blóðþyrstri hóru.[1]

## §. 148.

„5. v.: Og það (dýrið) fèkk munn til að tala með stór orð
„og lastanir, og því varð gèfinn máttur til að halda út
„(gjöra hvað það vildi) í tvo og fjörutíu mánuði.“

Dýrið afmálast hèr allt einsog Anti-kristurinn hjá Daníel; það, sem sýnist undarlegt, er, að þess stjórnartíð er sögð að vara tvo og fjörutíu mánuði, einsog hórunnar valdatíð, og þó er það talið að vara stuttan tíma, ef 17. kap. 10. v. heyrir því til, sem eg er hræddur um að ekki sè, og að það skuli

[1]) Hvað Williams og hinir Ensku, og aðrir gamlir útleggjendur hafa hèr í móti að segja, kèmur seinna undir engilsins útleggíngu um hóruna og dýrið, og líka hvað eg hefi að svara þeim.

halda vottunum dauðum einúngis í $3\frac{1}{2}$ ár. Máskè enginn hitti hèrá rètta meiníngu; það sýnist, að annaðhvort verði maður að ætla', að hèr sè talað um allan dýrsins tilverutíma frá því það varð reiðskjóti hórunnar, og líka eptir að það varð afgrunnsdýr, til þess enda, og það sèu 1260 ár, ætti þau þá að teljast frá 774, því Karl mikli setti svo að segja hóruna á bak hafdýrinu, til 2034, þá afgrunnsdýrsins eyðilegging innfèlli rètt 2000 árum eptir það Krists ríki byrjaði á jörðunni, eður þá svo mikið skèmur, sem mána-árin verða sólári, sem verður á þeim tíma hèrum 18 ár þá samankèmur, og ætti hún þá að skè fyrir eða um 2016, við byrjun hins sjöunda þúsund ára dags, (er Guðs dagur kallast í ritníngunni 2. Pèt. 3, 8.), hver líka sýnist ákveðinn til Krists safnaðar hvíldardags, einsog vikudagarnir og viku - árin voru ákveðin fyrir Ísraelítana til hvíldar; eður og menn verða að trúa, að á þessum stað teljist mánuðirnir samlíkíngarlaust, einsog til að gjöra spádóminn myrkvan með vilja, svo hèr meinist rèttir 42 mánuðir, eður $3\frac{1}{2}$ ár, það er 1260 dagar, sami tíminn, sem dýrið á að halda Guðs orði öldúngis undirþrykktu. Fyrri meiníngin sýnist mèr líklegri, þar afgrunnsdýrið er í sjálfu sèr framhald hafdýrsins (þó í verra eðli sè), og einkum ef það á að koma upp í sömu ríkjum sem hafdýrið tók fyrst þroska í, og líka vegna þess, að síður er trúlegt, að bókin umbreyti tölu aðferli sínu, og enn fleiri orsaka vegna; en kannskè hvorutveggja skiljist undir; sem dýr eigi það að viðvara 1260 ár, en sem afgrunnsdýr meðan það er allsráðandi, 1260 daga. Að það stjórni sem afgrunnsdýr í 1260 gètur maður ekki ætlað; það stríddi bæði í móti Guðs gjæðsku, og líka sýnist bókin sjálf í öðru vera á móti því, þá yrði og engin manneskja sáluhólpin. Samt mun þess vald verða búið að vera mikið fyrir þau $3\frac{1}{2}$ ár, á hverjum það gjörir hvað það vill, og laungu eptir þau ár mun það líka, þó á fallandi fót verði komið, halda út að þreyta við Guðs hefndardóma.

§. 149.

Það er annars rèttlátur, en þó hræðilegur Guðs dómur, sem til fulls mun sannfæra jörðina um það, sem hún trúir ekki, að Guð sè eins strángur í móti þeim, sem hann forsmá, sem hann er náðugur sínum trúuðum, hvarum líka vitnað er á hinn alvarlegasta hátt margstaðar í ritníngunni, að þegar manneskjurnar hafa forsmáð Jesú mildu stjórn í mörgu tilliti um meir enn 1800 ár, og nú loksins útskúfað henni og hæðt hana, vilji Guð ofurselja þær nokkra stund djöfulsins sonar og hans anda stjórn, fráteknum sínum fáu öldúngis trúu þènurum, sem þá þó sárlega þreyngjast. Sjá! það er sá ágjæti tími, sem frekir rationalistar meina að gjöri jörðina sæla, þá Jesú Kristí trúarbrögð eru útrýmd, en þeirra ríkja.[1]

---

[1]) Menn ætli ekki svo auðveldlega, að eg fari að frekjutrú (Sværmerie) með þessum dymmu þaunkum. Menn sýni mèr hvort einn þánkinn leiðir ekki rètt annan af sèr. Bók þessi er óneitanlega guðdómleg, og það verður að gilda fyrir allar röksemdir. Hún málar mörg ógnarleg atriði, sem fram hafa komið í veröldinni, öll að sönnu með sterkum, en þó fáum orðum; þetta málar hún með miklu sterkari orðum enn öll önnur, og þarmeð lángtum ýtarlegar og margorðara; svo að dýrsins afmálun í henni verður hreint að útskúfast, ef eg fer villt; já, ekki einasta hún heldur allir spádómar tala ógnarlega um þessa tíð; segir ekki Kristur: þá mannsins sonur kèmur, meinið þèr hann finni trú á jörðu? hvað ei kann meinast um hans tilkomu til Jerúsalems eyðileggíngar-dóms, því þá vóru fleiri trúaðir meðal gyðínga (sem flýðu þaðan) enn þegar þeir krossfestu hann; og annarstaðar um jörðina útbreiddi sig rètt í þann tíma hinn sanni kristinndómur; ei heldur um hinn síðasta dóm; heldur um hans hefndartíð yfir sínum óvinum, sem engillinnn í 10, kap. 7. v. hèr að framan fyrirsegir. Segir ekki engillinn, Dán. 12. 11., að þar verði slík þreyngíngar tíð, sem aldrei hafi verið, og það á þessum tíma? Kristur segir að sönnu það sama um Jerúsalems eyðileggíngu; en hann talar þarum einúngis meðal Gyðínga; yfir þessu fólki segir hann. Annars sjá menn, að hann afmálar við sína tilkomu vantrúarinnar ríki; ein ný röksemd fyrir að það er engin páfastjórn hann talar um. Fyrir utan allt þetta gèta menn af rèttri skynsemi sèð, að þessi eða þvílík tíð verði einhverntíma að koma, sem eg hèr eptir á sínum stöðum vil koma við. Eg gjæti þess vegna ekki trúað öðru, og

§. 150.

Hverninn gètur það öðruvísi verið? þegar óguðlegar brá-

---

gèt allra sízt þegar spádomarnir votta að það sè svo; en að þessi tíð sè viss, en að hún sè svo bráðlega væntanleg, hefði eg gjarnan ekki viljað halda, þó að mèr sýnist að mèr komi fyrir sjónir nokkuð af hennar eiginlegleikum, og að þeir undir búi hana, og þó að eg álíti það í sjálfu sèr ekki neitt ómögulegt. En þar bókarinnar tímabil, þúsund ára endans nálægð, þegar allt þetta verður á enda og að spádómalaust er frá vorum dögum til dýrsins sýnist að vitna um allt, sem er á móti því (að hún dragist), óttast eg þarfyrir.

Biskup Hofkin, sem vel hefir prófað alla spádóma, hefir af þeim fyrir sèð hræðilegar útíðir, hvarí þekkjanlega eru af honum fundnar nokkrar lýsíngar yfir sjö hinar síðustu plágur, sem bókin hèreptir lýsir gánga skuli yfir dýrsins ríki; en þar hann hefir líka sèð af spádóminum, að dýrið af afgrunninu mundi eyðilegga hóruna, ei laungu fyrir sitt eigið fall, virðist hann hafa blandað saman að nokkru leiti falli páfadómsins, sem hann eptir þeirri gömlu innkomnu meiníngu hefir haldið fyrir Anti-Kristsins ríki, og dýrsins, sem hann þó eignar að halda það mikla stríð við Kristum, hans orð eru hèrumbil þessi:

„Eitt tilfelli mun uppkoma eptir annað, er stórum mun veikja og hnekkja „valdi páfans meðal þjóðanna í kristindóminum, með því að svipta burtu „ríkdóm hans, og þurka flóð hans veldis og úr vegi rýma öðrum hlut-„um, sem gjört hafa hina rómversku kyrkju svo mektuga um margar „aldir,“ þetta sýnir sig nú fyrir oss daglega. — „En þessu mun þó ei „fylgja nein alþýðleg endurbót meðal þeirra, sem játa kristna trú, og ei „heldur mun siðferðis-ástand hins kristna heims, eður mannsins yfir-„höfuð, batnandi fara, heldur mun þvert á móti vantrú og opinberasta „guðleysi ásamt vanhelgun alls þess, sem heilagt er, á frekari hátt yfir-„hönd taka. Heimslegur andi mun þá hafa mikla makt og verða drottn-„andi, og hann mun drífa bæði únga og gamla til að þægja og þjóna „þeirra girndum. Innbyggjendur jarðarinnar munu verða rètt yfirhöfuð „samtaka, einsog þeir með einu samheldi ætli að hefja stríð í móti himn-„inum, uns þeir gjörsamlega fullþroskaðir verða undir eyðileggínguna og „maklegir undir þá orustu, er hinn almáttugi mun á hinum mikla degi „hefja í móti þeim, undir hinni sjöundu skál (Opinber. b, 16, 17). Höf-„undur og fullkomnari þessarar orustu í móti hinni óguðlegu veröldu „mun sjálfur Kristur verða.“ — Hver sèr nú ekki þennan undirbúníng á vorum dögum? Framar segir hann: „Hin sanna Krists kyrkja mun þó

ar manneskjur híngaðtil ekki hafa orðið skèlfdar frá ódáða athöfnum með hótun Guðs reiði, og ótta fyrir eilífri kvöl;

---

„verða til og viðhaldast á þessum vondu tíðum nær myrkranna makt hefir „slíka yfirhönd fengið; en tala hjarta-kristinna mun þó lítil verða, og „þeir munu mjög veikjast og líkjast ofmjög heimsins háttsemi. Þeir „vondu munu setja sig ákaflega móti þeim og troða þá niður, svo þeir „á þessum formyrkvuðu vondu dögum munu verða í hörmulegasta þján-„íngar ástandi. Orustan mun framkvæmd af Kristi sjálfum — sem áður „segir — þó hann sè á himnum, útbúinn fullkomnum guðdóms krapti, til að „koma framm sínu fyrirhugaða ráði, fellandi dóm yfir hina vondu veröldu, „rètt eins þekkjanlega og eptirminnilega eins og hann sæist sjálfur með „opnum augum nærverandi í almætti sínu; og þá mun sannleiki kristin-„dómsins óhrekjanlega staðfestur verða með uppfyllíngu hans fyrirsagna „og fyrirheita, er hann leggur svo bersýnilega hefnd yfir óvini sína.
„Verkfæri munu þó án efa brúkast til þessara orsaka; já þeir vondu munu „sjálfir verða verkfæri hans til að undirþrykkja og eyða hvor öðrum „með blóðugustu styrjöldum og viðhaldi þeirra, svo að í auðn munu „leggjast heil hèröð og jafnvel þjóðir, og jörðin mun verða ákaflega tæmð „af fólki, og blóðstraumar úthelltir af mannanna stjórnlausa drambi og „blóðgírnga æði. Munu orustur þær ei verða í einu á enda kljáðar, „heldur framhaldið hvað eptir annað um margra ára skeið.“

Hvað ólík ímyndan Kelbers og Bengels, sem vilja láta afgrunnsdýrið bráð-lega og allt í einu falla; en hvað líkt plágunum Opinb.bók 16, 3.—4. 5.—6. „Ýmislegar og ævaxandi hörmúngar munu lánga tíma viðhaldast og þúng-„ir straffsdómar niðurþrykkja og lægja mannkynsins dramb, og sèrhvað „háleitt (í heimsins augum) mun að velli lagt verða, og Guðs eigin hönd „þekkjanlega sýna sig í öllu þessu. Meðan Anti-Kristurinn mun „þanninn niðurstíga og vegurinn tilreiðast fyrir fullkomna eyðíngu hinn-„ar rómversku kyrkju, mun þó heimurinn, yfirhöfuð að segja, taka „sterkum framförum í vantrú og allrahanda vondsku, sem efalaust mun „verða meðal til að greiða veg til eyðíngar hinnar sömu kyrkju.“

Hèr til sjá menn nú daglega merki, og henni á afgrunnsdýrið að eyða og þeir því fylgja — sjá bókarinnar 17. kap. 16. 17. v. „Þau 10 horn eður „konúngar, sem hata munu hóruna (Hofkins orð) gjöra hana bersnauða „og nakta, samt eta hennar hold, og brenna hana með eldi (Op.b. 16, 17.), „munu það fyrir sig taka af eigingirndarfullum og heimslegum anda, „uppæstum og framknúðum af vantrú og mótstöðu móti trúarbrögðum.

þegar þeir betri og meir upplýstu ekki hafa orðið áunnir til Guðs kjærleika, einsog vera átti, með afmálun Guðs náðar í Kristó og eilífrar sælu; hvað mun þá allur hinn þurri siðalærdómur rationalistanna ávinna mennina? hvað mun hann verka á þeirra hjörtu? (einkum ef honum fylgir háð, spott og mótfall við alla alvörugèfni í kristinndóminum, eins og nú víða tíðkast); en ekki þarmeð búið; þegar menn óttast ekki Guð; þegar hans orð er rekið; þegar jafnvel ódygðir eru styrktar með meðhaldi að heilu eður hálfu; þegar menn klæða sjálfan siðalærdóminn í svo margar kápur, sem hverr vill, jafnvel umsnúa hans grundvallarástæðum, svo íllt verði forsvarað, en gott fái ámæli, og á því enginn munur gjörr, (hvað allt eru vorrar aldar kènnimerki, sem allir hyggnir viðurkènna, og allt orsakast af tíðarinnar freka alvöruleysi). Hvað verður þá af eiðnum, samvizkunni og allri dygð? Hvílíkt helvíti mun ei verða á jörðunni? Rationalistarnir þekkja ekki, eður vilja ekki þekkja, manneskjunnar vanart (þess er samt ei von um þá, sem segja að Guð hafi skapað

---

„Yfirhönd takandi Deismus, (trúleysi á forsjóninni) og Atheismus „(guðleysi) í hinum papisku löndum, hefir verið meðal til að sýna mönn„um ofaná hjátrú og vondsku páfaríkisins og veikja þess makt. Og „munu deistar og vondir menn verða brúkaðir af Guði til að steypa „æ fremur antikristilegri (eptir hinni gömlu ímynd) byggíngu, „sem heiðnir Rómverjar hinni gjörspilltu Ísraels kyrkju. Mun svo „verða lángt frá að falli páfadómsins samfara verði endurlífgun hinna „sönnu trúarbragða, að því mun (um tíma) fylgja allt hið gagnstæða, „nefnilega vantrú, siðaspillíng og allsháttuð íllska, sem meðal til þess falls.“ Svo lángt Hofkin. — Hversu nákvæmt samstemmir þetta ekki mínu álitil og hverninn fær skèð, að svo hálærðir menn, er svo rètt skilja spádómana, ekki gèta þekkt á, að slík tíð, sem þessi afmálar, hefir meiri kènnimerki hins sanna anti-kristinndóms enn páfinn sjálfur! Gètur önnur orsök þenkst til þess, enn sú mikla torveldni, sem er við að eyða inndrukknum meiníngum, Hún dylur fyrir hans augum, að sú óguðlega stjórn, sem á að eyðileggja hóruna og koma eptir hana, og hverri hann lýsir, er afgrunnsdýrið og Anti-kristurinn, sem sjálfur Kristur verður að burttaka.

syndina). Forgèfins látast þeir ætla að líkjast fornum heimspekíngum, og vitna til þeirra; ekki tókst þeim að betra jörðina; samt voru þeir sannir spekíngar, eða speki-elskendur, sem þeir kölluðust, því þeir höfðu ekki hleypidóma og unntu dygðinni, og hjá þvílíkum gètur skynsemin ein verkað mikið gott; en þanninn eru ekki hinir nýari, sem hleypidóma hafa, hafna Guðs opinberun og unna ekki dygðinni af alvöru, heldur munaðarlífi, auði og drambi. Forgèfins vitna þeir til Rómverja fornu; þeir voru sæmilega dygðugir meðan þeir hèldu við hjátrú sína; en undireins og þeir urðu svo upplýstir, að þeir höfðu ei lengur neinn ákveðinn átrúnað í hjartanu, heldur einúngis höfðu skynsemi sína að trúa á og lifðu þarhjá í munaðarlífi, urðu fáir af þeim dygðugir, heldur flestir í mestalagi lastafullir, þartil er þeir eyðilögðust. Forgèfins vitna þeir til seinni vitrínga, Friðriks Preussa konúngs, Voltaires og hans kompána, og annara, og þeirra umburðarlyndis og meðverkunar til mannkynsins rèttar; þeir sýndu sig svo, meðan rationalista lærdómurinn var enn ekki genginn allstaðar til taumleysis með öllu, og voru umburðarlyndir til þess að gjöra mínkun umburðarlausum kathólskum eður stríð-sinnuðum rètttrúarmönnum, en ekki af kjærleika til Guðs og náúnga síns; þarfyrir utan var Friðrik konúngur ekki vísari enn Marcus Aurelius, ekki dygðugri enn Valerianus, ekki betri stjórnari enn Diocletianus, og ekki meiri kappi enn Júlianus; og Voltaire ekki skarpsinnaðri enn Porphyrius eða Hierocles, og þó ofsóktu þeir fornu hina saklausu og góðgjörðasömu kristnu sem grimmlegast, annaðhvort af eigin íllsku eður tældir þartil. það kynni þarfyrir að vera framar tíðarinnar enn hinna nýrri vitrínga velgjörð, að þessir ofsóktu ekki kristinndóminn nema með spotti. Voltaire var franskur, og það er kunnugt, að hinir siðprúðu eður hæfilátu Frankismenn eru grimmdarfullir, þegar þeir snúa við blaðinu. þeir hafa líka einsog hinir heiðnu Rómverjar sýnt sig umburðarlyndari við alla aðra enn samkristna, og það er kunnugt, að Friðrik af Preussen lítilsvirðti nokkra stund Jesúítana minna enn

þá. Fyrir utan allt þetta vita menn nokkurnveginn, að Friðrik spillti siðferði landsins með sínum vísdómi, svo hann kvartaði yfir því að síðustu; og Voltaire lagði ekki lítinn grundvöll til þess þánkafars, sem ríkti í hinni frönsku skèlfíngartíð. En um álit á þessum mönnum þræti eg ekki við neinn; og hvaða ágjæti, sem þeir kunna að hafa, mun það verða allt öðruvísi um rationalistana, ef þeirra trúarleysi verður almennt. Þar munu verða jafnmörg trúarbrögð sem höfuð, jafnmargir afvegir frá allri skynsemi sem sálir, og fjöldi afvega hjá hverri sálu; og sannleikurinn, af því hann bindur æði mannanna, mun einn ofsóktur verða.

## §. 151.

Meðal annars sýna rationalistarnir þeirra miklu fákjænsku í öllu öðru enn því, sem hendi er næst, þegar þeir gèfa hjátrúnni skuld fyrir umburðarlyndisleysi og ofsóknir, jafnvel þó það sè að rèttu vantrúin, sem mest er sök í því. Hjátrú og vantrú fylgjast gjarnan að, og eru opt hið sama; en vèr viljum skoða hverja sèrílagi. Gyðíngar á Krists dögum voru að vísu hjátrúarsamir í tilliti sinna mannasetnínga, en vantrú þeirra móti Kristó og hans postulum, og hans Messíass embætti, knúði þá einkum til að ofsækja þá. Hinir heiðnu Rómverjar, Persar og aðrir, sem ofsóktu kristna svo grimmilega, voru sannarlega vantrúaðir, og gjörðu það mest af vantrú; bæði andleg og stjórnarmeinínga vantrú knúði þá. Sömuleiðis reisa sig enn í dag ofsóknir vissulega hjá vantrúuðum, helzt hinum hyggnustu heiðíngjum (sem þykjast vera), Chinesum, Japaniskum, og svo frv.; þeir mjög hjátrúarfullu Negrar og þvílíkir ofsækja varla. — Sjálfir páfarnir hafa hvorki skipað ransóknarrèttinn nè nokkra aðra ofsókn af hjátrú; fleiri af þeim hafa verið upplýstir menn og natúralistar (eða rationalistar) í rauninni; en hafa einúngis brúkað hjátrúna til að framfylgja sínum skipunum, því hjátrúin er fávís af náttúru, og hræðslugjörn, en vantrúin óttast ekki Guð. Hin einasta ofsókn, sem menn með rèttu gèta eignað hjátrúnni, að hún orsakað hafi, máskè við galdra-

mennina, kom af ótta; en óttinn var aptur orsakaður af vantrú á Guðs forsjón. Hin franska skèlfíngartíð uppkom einúngis af vantrú. Það er því varla að efast um, að rationalistarnir, þegar þeir hafa sett sig rètt fast í söðulinn og burtskúfað Guðs orði, ef þeir fara svo lángt fram, munu verða hinir mestu ofsækjendur (ef ekki með manndrápum, þá þó á allan upphugsanlegan hátt), þegar nokkur mælir þeim í móti. Tíðin mun víst sýna það.[1]

§. 152.

„6. v.: Og það lauk upp sínum munni til lastana í móti Guði, „að lasta hans nafn og hans tjaldbúð, og þá, sem búa í „himninum.“

„7. v.: Og því varð gèfið að stríða við hina heilögu, og yfir„vinna þá, og því varð gèfin makt yfir öllum kynkvíslum „og túngumálum og heiðíngjum (þjóðum).“

Allt óheyrð verk, og ennframar óheyrð makt frá Jóhannesar til vorra daga. Guðs nafn er hans lærdómur, hans tjaldbúð hans sanna kyrkja, og þeir, sem búa í himninum, þær manneskjur, sem ekki eru jarðlega sinnaðar. Kátir veri hinir; þeir eiga fyrir Guðs hræðilegan dóm að yfirvinna þessa sèr til eilífrar fordjörfunar.

§. 153.

Ó! Guð! Hversu skèlfileg á dýrsins makt að verða! Hverninn mun ei öll jörðin fylgja því! Nú, þá munaðarlífi og skortur allrar sjálfsafneitunar, og taumlaus eptirlaungun að fylla sínar girndir, metorðagirnd og sjálfbyrgíngsskapur, er orðið svo öldúngis almennt í Norðurálfunni! Hverninn munu mennirnir gèta umflúið að verða dýrsins herfáng; þá þaraðauki allar mögulegar ofsóknir, allar þenkjanlegar, já, meir enn-þá þenkjanlegar lokkanir og afvegaleiðslur verða frammi hafðar?

---

[1]) Menn meiga ekki ætla, að ef rationalista lærdómurinn gengur svo óhóflega lángt fram, sem hèr er ráðgjört (hvartil ofmikil merki sjást meir og meir), að lengi verði haldið við þær enn eptirverandi í æskunni innprentuðu góðsemdar - ástæður.

Hverninn mun nokkur manneskja komast hjá því? Og þegar Guðs orð verður loksins opinberlega forsmáð, hverninn gètur það þá orðið umflúið? Menn segi mèr nú rètt alvarlega, hvort það gètur komið saman við Guðs eiginlegleika, að leyfa þvílíkri tíð að fá yfirráð, nema hann hefði áður gèfið mönnum í hendur öll möguleg upplýsíngar- og dygðar-meðöl, sem þeir hefði útskúfað? Og þetta er þó ekki þenkjanlegt skèð hafi fyrri enn á vorum dögum.

## §. 154.

„8. v.: Og allir munu tilbiðja það, sem á jörðu búa, hverra
„nöfn ekki eru skrifuð á lífsins bók, sem er lambsins, hvert
„slátrað er, frá því grundvöllur veraldarinnar var lagður."
„9. v.: Hafi nokkur eyru, sá heyri."

Hèr sjáum vèr, að enginn gètur staðið á þeirri tíð nema þeir, sem eru Guði og Kristó öldúngis samhuga í hjartanu. Aðvörunin í 9. versinu er ekki tilgángslaus. Það er Jesú eigin áminníng, er enginn má taka sèr í munn, sem prèdikar sinn eiginn vísdóm, eður hvar um minna er að gjöra enn eilífa sáluhjálp, og það, sem þar heyrir til.

## §. 155.

„10. v.: Þegar nokkur leiðir aðra í fángèlsi, skal hann í fáng-
„èlsi gánga; þegar nokkur slær í hel með sverði, skal hann
„fyrir sverði farast."
„Hèr er hinna heilögu þolinmæði og trú."

Þetta hefir tillit til ógnarlegra ofsókna, og Krists hótun er samkvæm hans stíl; Luc. 6, 38. Að annars þær ofsóknir munu verða meiri enn nokkrar aðrar áður, er ljóst af því, að hèr, en ekki annarstaðar í bókinni, gildir það hinna heilögu þolinmæði og trú, nefnilega undir dýrinu; það er þessvegna sú mikla freistíngartíð."

## §. 156.

„11. v.: Og eg sá eitt annað dýr, sem uppsteig af jörðunni,

„og það hafði tvö horn einsog lambið (eitt lamb) og talaði
„einsog drekinn.“
„12. v.: Og það gjörir (framkvæmir) alla makt hins fyrra dýrs-
„ins fyrir því, og gjörir, að jörðin og þeir, sem á henni
„búa, tilbiðja það fyrra dýrið, hvers dauðlega sár var lækn-
„að.“ [1]

Þetta dýr er hinn falski spámaður, sem síðar sèst, sá djöfulsins sonar aðtoðari, sem sífeldt og óaflátanlega, með allrahanda lokkandi viðleitni og falsi, dregur mennina til að hylla hann; um þess tælíngar meina eg talað sè 2. Thess. 2, 10. Það lítur mjúklega út, og lætur sem það sè mikið umburðarlyndt; en þess tal er samstemmandi heiðninni. Það sýnist gánga samsíða hinu fyrnefnda; nefnist seinna, af því það fylgir hinu sem oddvita.

§. 157.

Dankell heldur, að þetta dýr sè indifferentista (jafngildismanna) lærdómurinn, og jafngildi í trúarbrögðum, sem vilji hjálpa á fætur páfanum til meiri kraptar enn fyrri; en vèr fáum síðan að sjá, fyrir utan hvað þetta er á vorum dögum nærri því óþenkjanlegt, að það er ekki páfinn, sem það vill á fætur hjálpa. Öblugt fèlag, máskè í stjórnarefnum, sýnist það vera í fyrstunni, fyrst það kallast dýr. Það gjæti tekið líkindum, að það væri af jafngildismannanna eðli, og vèr höfum sèð á vorum dögum það, sem Dankell ekki sá, meir enn jafngildismenn, þarsem þeir berlegri eður frekari rationalistar eru (sem neita syndafallinu, Kristí forlíkunardauða og eilífri töpun). Þetta dýr kynni þá líklega að verða með enn frekari hætti í því enn það, sem vèr höfum ennþá framkomið sèð. Og hinn falski spámaður (þetta fèlag) mun efalaust verða hinn mesti falski heimspekíngur, sem jörðin

[1]) Hvað hinir ensku útleggjendur, sem vilja heimfæra allt uppá páfann og páfadóminn, hafa sagt um þetta dýr, og mínar athugasemdir þar við, hefir eg allareiðu framfært í nótunni (athugagreininni við 141. §.), hvar það má lesa, en eiginlega hefði það átt að standa hèr. Bengels ætlanir hèr um gèta heldur ei komið til svara; þær eru líkar hinum og falla með þeim.

hefir nokkurntíma þekkt, eður mun þekkja. Hver mun gèta staðist í þvílíkum tíðum! einasta fyrir Guði er ekkèrt ómögulegt.

§. 158.

„13. v.: það gjörir mikil teikn, jafnvel það, að eldur fellur „niður af himninum fyrir mennina.“

„14. v.: Og það villir þá, sem á jörðu búa, fyrir sakir þeirra „teikna, sem því eru gèfin að gjöra fyrir dýrinu, segjandi „til þeirra, sem búa á jörðunni, að þeir skuli gjöra bílæti „(eptirmynd) dýrinu, sem hafði sárið af sverðinu og lifði.“

það, sem hèr er sagt um teiknin, er allt of mikilvægt til að þýða uppá (marklaus) múnka-kraptaverk, og bílætið, sem hèr á að gjörast, er engu því líkt, sem ennþá hefir sèst í heiminum. Til vorra daga hafa annars naturalistar og rationalistar verið óviljugir á að trúa þeim kraptaverkum, sem Kristur gjörði; nú ætla þeirra væntanlegu eptirkomendur á sínum tíma, að fara að gjöra kraptaverk sjálfir, dýrinu til þjónustu,[1] gèta það einninn líklega vegna hinnar miklu kunn-

[1]) Hversu samstemma er ekki þetta hinu, að manneskjan strax fèllst á djöfulsins ráð í aðferðinni til að líkjast Guði, og enn þá vill líkjast honum á sama hátt, með því að skilja og verka allt af sjálfum sèr; en Guðs myndar Krists vegvísun, til að líkjast Guði í þolinmæði (umburðarlyndi), og þessum hans syni í auðmýkt, er hún óviljug að fylgja. Hin fyrri sjálfbyrgíngskapar aðferðin eptir satans áeggjun, er allareiðu á vorum dögum lofuð hjá hinum fyrstu manneskjum, sem sönn framfarar viðleitni, af nokkrum, sem látast kènna guðfræði. Hvílíkt undirlag!

Hver kraptaverk eiginlega hinn falski spámaður mun gjöra, kunnum vèr, sem áður sagt, ekki enn að fullyrða, þar vèr höfum enn ei sèð hans verkanir. Eitt af þeim má vissulega kallast afgrunnsdýrs bílætið, sem hann skapar, lífgar og gèfur mál, og orsakar einninn allra dráp, sem ei tilbiður það. Hvað ef Liberalitets (svokallaðs frelsisanda) æðið, sem rètt nú árið 1836, þá eg sá Bengel — hvers útleggíngu hèr kann annars ei meðtaka heldur enn annara — hefir mjög aukist í næstliðin 6 ár, þó það í fyrstunni sýnist gèta miðað til einhvers gagnlegs, kynni með tímanum, að verða að þessu bílæti (þar ókristnir falslærendur næra það mikið); já, um

ustu í maskinuverkum, sem Norðurálfan þá (eptir nú komnu undirlagi) mun hafa fengið, hvað útaukið verður með prettum;

síðir ektabílæti hinnar frönsku skèlfíngartíðar eður annarar líkrar stjórnar, sem nú eður hèreptir uppkjæmi! Menn beri saman þánka í minni tilraun yfir 16. og 17. v., og Guldbergs gáta sýnist ekki ólíkleg, að í einhvern máta sjáist framkoma. Eg hefi opt sagt, að eg ætli dýrið af afgrunninu sè ei enn komið 1829, og ei enn 1836, það er svo að skilja, að ei sè á þann hátt komið, sem bókin málar það, og von er á því, miklu síður sem nokkur katólsk makt í páfans nafni. Það er merkilegt, að afgrunnsbrunnurinn, sem stjarnan 8. kap. 1. v. opnaði (hverja eg held Móhammed og hans lærdóm) frammleiddi smádýr, sem sýnast Serkir, og í næstfylgjandi bílæti Tyrkir, og af sama afgrunni uppkèmur seinna það mikla og hræðilega dýr, og að þau þrjú vei hánga saman. Þetta sýnir að minnsta kosti að afgrunnsdýrið heyrir heldur til tyrknesku eða deistisku (sem trúir Guðs tilveru kristinndómslaust, eður það er frá afgrunnsins stærra djúpi atheistisku (Guðs afneitara) eðli, enn páfatrúar, enda verður það hórunnar óvinur. Eg hefi hreift því, að eg óttaðist fyrir, að hin franska skèlfíngartíð, og í sumu Napóleons ríki væri forspil þessa dýrs, og held þartil nokkur rök, því mörg eru þar lík kènnimerki, svo ei er undarlegt, þó sumir hafi haldið þessa stjórn og það einveldið fyrir dýrið sjálft, og ætlað síðan þess ríki hjálíðið, þá það þraut. Nærri því almennilegt affall frá kristinndóminum (þó hann kjæmi upp aptur í krapti) var skèð áður skèlfíngartíðin hófst; vottarnir, Guðs orð, vóru um það bil deyddir á Frakklandi, og máskè víðar. Sú stjórn hataði og rændi hóruna, og hún hafði falsspámanninn, guðleisíngjana á Frakklandi og hina frekari rationalista með sèr; hennar makt var ómótstæðileg, og veröldin furðaði sig á henni; hún ofsókti kristinndóminn og var yfir höfuð svo anti-kristileg og lastafull í sínum ástæðum, að aldrei hefir nokkurt þvílíkt stjórnar fjelag uppkomið á jörðunni, sízt síðan kristindómur hófst; leitaðist og við að koma öllum þjóðum til að gjöra bílæti eptir sèr; hún var og inntekin af hinna seinni heiðnu og trúarbragðalausu Rómverja (þessvegna drekans) þánkahætti, jafnvel í því sèrstaka, sýndist spádómurinn um dýrið ná þar heim; bæði það fólk, sem hóf það, og þess ríkis herstjóri og umboðsmaður seinna, Napoleon, voru lítilsvirðtir menn í fyrstu; Ægyptaland umflúði þá ekki, og eitt kall úr norðri og austri (Englandi og Rússlandi) skèlfdi þá — sjá Dan. 12, 9. — að það talaði skèlfileg orð móti hinum allra hærsta, er

einasta verða þau furðuverk eingin velgjörandi, heldur afvega leiðandi.

---

efalaust hvað Jacobinana áhrærir; Anacharsis dots er jafnvel sagt hafi hatað Jesum persónulega; en Napoleon, þó ei hefði önnur Antikristsins merki, og væri betri enn skèlfíngarmennirnir, mikilmenni í heiminum, og þarfur í því, að stöðva rannsóknarrèttinn og trúarleysuna innan lands, talaði þau líka, þá hann í Ægyptalandi lèzt Tyrki, og hafa fyrir Móhammeds lærdóm niðurbrotið krossinn, og hvert sem þessi hans orð hafa verið meiníngarlaus með öllu, eður töluð af trúarbragða og guðlausri ríkisgirni og kjænsku, eru þau hræðileg, og ei koma slík fyrir óhegnd í ritníngunni. Eg gèt boðið eldstraumi að ofanstíga af himni, „og leiðt hann og stýrt honum á jörðunni (hversu líkt dýrsins væntanlegu, „eldfurðuverkum af himni); er nokkur svo blindur, að ekki sjái, að eg er „forlaganna umboðsmaður, eður svo vantrúaður, að efi þeirra vald yfir öllu „er mönnum kèmur við? Segið fólkinu, að síðan veröldin var veröld, var „fyrirfram ályktað, að eg, þá eg hefði eyðt óvinum Tyrkja-trúar, og „brotið krossinn, skyldi koma híngað frá fjarlægum vesturlöndum til fram-„kvæmdar þeirri sýslan er mèr var ætluð. Segið því að víðar enn á 20 „stöðum Alkoransins (Tyrkja ritníngar) er koma mín fyrir sögð — „eg fengi heimt hvern yðar til reikníngs fyrir huldustu þánka því mèr er „enginn hlutur dulinn" (er þetta ei að gjöra sig að Guði?) „Enn sá dag-„ur skal koma, þá öllum mun raun á verða frá hverjum eg hefi umboð „mitt, og þó neytt sè allra mannlegra krapta saman lagðra, orkar það engu „á móti mèr." Ríki og vald með öllum slíkum einkènnum var víst hið allra líkasta til að vera hið umspáða dýr; og hver annar ómerkilegri spádómur enn Opinnber. bókin hefði mátt sýnast fyllilega uppfylltur með slíku, en samt er afgrunnsdýrið ekki með vissu ennþá komið, það er á þann hátt, sem bókin lýsir í sínum fulla krapti og fullu verkun. Hið stutta æði, — en þó meira enn allt æði, sem menn vita framfarið í heiminum — var óverðugt til að útmálast í Opinberunar-bókinni með svo margföldu og ýtarlegu umtali og lángyrðum, nema inni lukt í og uppsvelgt af öðru meira merkilegu og stórkostlegra líku atriði, sem enn er ósèð (og að minsta kosti hlýtur að verða svo miklu varanlegra og meira útbreiðt, að þessvegna gèti haft allt yfirborð yfir hinu). Forspilið gètr verið komið, og dýrið máskè (og mèr er nær að halda það); en satans sonur gètur dulist, og undir búið sýnar verkanir, áður enn hann kèmur framm í sinni fullu orku; vill og líka máskè eptirapa Guðs syni þarí, sem rètt kallaður anti-kristur.

## §. 159.

„15. v.: Og því varð gèfið að gèfa dýrsins bílæti anda, og

---

Dýrið kann vera fætt, segi eg, en var enn ekki fullþroskað til að gánga fram á sjónarflötinu í afli sínu, því kröfur hinnar óguðlegu stjórnar voru að sinni, þá hún uppkom, allt of hátt reistar og ófærar í verk að setja. Veröldin hefði í það sinn ekki fallist á þær, og hin helztu einkènni eru ósèð enn þá; en eg hefi til greina lagt, að spádómurinn með ásetníngi og af alúð útliðar þau öll svo nákvæmlega við dýrið, að hverr, sem ekki lokar augunum, verður að þekkja það í þess eiginlegu verkunartíð. Þeir 10 sambands konúngar (stjórnir) hafa enn ekki gèfið neinu stjórnarsamkvæmi allan sinn styrk og sín ríki. Hinn falski spámaður hefir enn ekki sýnt himna-elds furðuverkin, vottarnir eru enn ekki deyddir nema á Frakklandi um tíma; hóran enn ekki eyðilögd; dýrið hefir enn ekki gètað fyrirboðið neinum kaup og sölu; enn er ekki þolinmæði og trú hinna heilögu sett í meiri reynslu enn nokkurntíma hefir fyrri verið; enn er ekki þvílíkt stríð upphafið á móti lambinu, sem vara hlýtur til Kristí komu. Það er þá ekki uppkomið í mætti sínum. Þvíþað var samkvæmt Guðs vísdómi og gjæðsku, að brúka Napóleon sjálfan til að aftaka guðleysið og að uppvekja samsíðis með skèlfíngartíðunum þann engil, sem prèdika skyldi æfinlegt Evangelíum — 14. kap. 6. 7. v. — til þess að láta veröldina ekki yfirfallast aðvörunarlaust og undirbúa sína heilögu í millirúms tíðinni til að mótstanda dýrinu.

Sè nú þetta svo, gjæti Guldberg líka haft rètt í þeirri ætlun, að engillinn með hið æfinlega Evangelíum komi fyrst upp eptir dýrsins uppruna, það er að segja, eptir þess fæðíngu (en þá áður enn höfuðið nærst undan dýrinu særist til bana), alleina ekki á þess maktartíma, sem er það eg eiginlega mótmæli í 169. §.; já, hann gjæti kannskè hafa hitt á fyrir utan aðra hærri þýðíngu, sem enginn gètur enn vitað — það hann segir, bendandi til þess tíðar sem mánaða, sem yrði $55\frac{1}{2}$ ár, frá 1793 til 1848—49 ef það kjæmi þá í krapt; (ekki þess tilverutíð, sem einsvel gjæti verið árstíðin, eður $166\frac{1}{2}$ ár), hvað hèr þó enganveginn neitt er látið heita annað enn frammsett gáta; er þó sèrlegt, þar það samstemmir því, sem eg í athugasemdinni (nótunni) við 244. §. hefi útleiðt frá öllum öðrum sjónarpúnkti — og eins sèrlegt er það, að seinasta stundin af hinum sjötta Guðs (þúsund ára) degi, verður $166\frac{1}{2}$ ár hèrumbil, eður frá 1848 til 2015; einsog frá dauða Karls mikla til falls Napoleons, er einn heill þvílíkur dagur, en frá honum til ársins 2015 — 200 ár. Þetta fyrir

„að dýrsins bílæti skyldi tala, og láta þarhjá hvern, sem ekki „vildi tilbiðja dýrsins bílæti, líflátinn verða.“
Hvað þetta afgrunnsdýrsins lífgaða bílæti er, sem hinn falski spámaður skapar, gètur tíðin ein kènnt einsaman, Guldberg heldur það verði umboðsmaður (Repræsentant) dýrsins sameinuðu maktar.

§. 160.

„16. v.: Og það gjörir, að öllum smáum og stórum, og ríkum „og fátækum, og frjálsum og þrælum, verður að gèfast kènni-„merki í þeirra hægri hönd eða í þeirra enni.
„17. v.: Og að ekki nokkurr kann að kaupa eður selja, nema „sá, sem hefir það kènnimerki, eður dýrsins nafn, eður töl-„una á þess nafni.“
Þetta er svo nákvæmlega málað, að það framar öllum hlutum í bókinni verður að þekkjast af hverjum, sem vill þekkja það, þegar það er skèð, sem hlýtur að vera eptir forsjónarinnar sèrdeilis tilætlan.

Híngaðtil hafa fyrirkomið margir hlutir í bókinni, sem ekki gèta verið kjærkomnir þeim, er stjórnast af veraldarinnar anda, og það mun vera hin helzta orsök, hvarfyrir þeir niðurdrepa þessari bók svo mikið. Á hinni umspáðu tíð munu menn heldur ekki sjá hinn skýrasta sannleika.

---

utan hvað eg hefi áminnst við þessi tímabil, og sextöluna við þau. En að hin síðasta stund sè Anti-Kristsins höfum vèr tillit til 1. Jóh. 4, 3. og 2, 8. og fleiri líkindi fyrir. Annars er það öldúngis víst í mínum þaunkum, að afgrunnsdýrið verður af guðleysisins (Atheisterios) eður deista trúareðli, hvar sem það kèmur upp. En sèu það nú á þennan hátt veraldarinnar mikilmenni og vitríngar, sem uppalið hafa dýrið, hvað satt finnum vèr þá ekki að vera það Kristur segir: „það, sem er hátt fyrir veröldini, er svívirðulegt fyrir Guði.“ Annars er það aðgjætandi, að framanskrifuð athugasemd er af mèr seinna tilsett enn athugasemdin við 244. §., eptir að eg hafði sèð Bengel; er því eptir hvorugri einúngis farandi um varanlegleika dýrsins sem afgrunnsdýrs, hver þar fyrir utan ei kann byggjast á öðrum enn líkinda-gátum; en þetta þó vel saman berandi.

§. 161.

Merkin (einkènnin), sem hèr umtalast, voru venjuleg á þrælum á Jóhannesar dögum; hvað sem þau nú merkja á dýrsins þrælum, sýna þau þó að ekki verður auðveldt að dyljast, og komast undan þess klóm. Þá höndlanin þarfyrirutan ætíð er nauðsynleg, en á þeirri umtöluðu tíð, eins og sjálfsögð afleiðíng af undanfarandi mannblendnis hætti (Cultur), mun sýnast ómissandi til lífs uppheldis, virðist líka lífið sjálft allstaðar fyrirmunað þeim, sem ekki hlýða afgrunns dýrinu. Dýrsins nafn á líka að tilbiðjast einsog Jesú nafn hjá kristnum.

§. 162.

„18. v. Hèr er vísdómur, hver sem hefir skynsemd, útreikni „tölu dýrsins, því það er manneskju tala, og þess tala er „sex hundruð sextýu og sex."

Hèrum verður nokkuð að tala.

§. 163.

Eg hefi fyrir laungu yfirgèfið Dankell, því hann sýnist mjög að mistaka hèr hinar mikilvægustu greinir í þessum spádómi um dýrið og heimfærir margt uppá þýzkar trúarbragða þrætur, eptir trúarbótina; en nú vill hann að dýrsins nafns tala sè hins seinna dýrs eður falska spámanns tíð, sem hann heldur að sè indifferentistar (jafngildismenn), og þó hann með varfærnis hlífni segist ekki gèta reiknað þetta tal, gètskar þó á að vera kunni ár frá 1546, eður eptir Luthers dauða, til 2212; en væri það svo, og menn gjæti svoleiðis gètskað á fyrirfram, þyrfti ekki sèrlegan vísdóm til þess að gèta rètt. Þessi tala eður nafns tala er ekki heldur dýrsins af jörðinni eður hins falska spámanns, heldur afgrunnsdýrsins.

§. 164.

Newton, sem heimfærir allt uppá páfann eptir sinnar tíðar hætti og ætlar að nafns tala verði að vera tala, sem liggur í nafninu sjálfu, hefir útfundið (þó eptir eldri meiníngum á Grísku: Lateinos, og á Hebresku: Romajit eða Ro-

mjjt að innhalda (innibinda) 666, og fleiri líkar útleggíngar hafa aðrir gjört. En fyrir utan það, að dýrið sýnist ekki eiginlega rómverskt (og þó svo væri og þetta gjæti staðist í því tilliti, og væri þó aldrei aðalaugnamið þess að talan er ákveðin) ætlar Guldberg, að ekkèrt cabbalistiskt (bókstafa-leindardóms-kènnt) og slíkum spádómi óverdugt meigi þar með skiljast, segist og finna til — og hverr finnur það ekki? — að hann ei gèti útlagt það, en leyfir sèr þó einúngis gètska — þar og talan ei sýnist öldungis nauðsynleg til að þekkja dýrið, og ekki er svo mikið sem nefnt hvað talið sè, verður einna trúlegast það skiljist ekki af neinum, fyrri enn máskè höllunartími dýrsins er kominn; og jafnvel á þeirri tíð sýnist bókin benda til, að hinn mesta mannlegan vísdóm þurfi til að finna hina rèttu merkíngu; en að þetta gèti þó skèð með mannlegum vísdómi, þar það sè mannlegur hlutur án Guðs sèrlegrar meðverkunar. Samt gètskar Guldberg á, að vanta kunni það orð: mánuðir, og dýrsins heila tíð (að því leiti það er afgrunnsdýr) frá þess fyrstu byrjun til þess enda, skuli verða 666 mánuðir, eður $55\frac{1}{2}$ ár, þar það eigi að vara stuttan tíma (hvað hann byggir á 17. kap 10. v.) og þess hin mesta harðstjórnar tíð: $3\frac{1}{2}$ ár; — sjá athugasemdina hèr að framan undir §. 160 seinast í henni. — Bengel, sem vill láta þessa tölu vera ár páfadómsins kraptar, gètur þar ei líklega til, því það kèmur hverki páfanum við nè heldur má bæta við orðinu: ár; engin nákvæm aðgjæzla tímanna teikns, sem Jesús helzt kallar vísdóm, heldur reikníngskunstar-tilbúníngur þyrfti til að ákveða einhverra 666 ára upphaf og enda, og því er þarmeð víst skeikað frá spádómsins meiníngu. En ef árið 1836, sem Bengel heldur einkar merkilegt og ætlar þessi tími endi á, fer nokkuð nærri hans gátum, að vera svo athugaverðt, þá kynni það heldur, og þó ei það sjálft ákveðið, heldur tíminn hèrumbil þar nærri, eptir og áður ef samanber við tíðar kennimerkin, að fara ekki fjærri þeim tíma, þá hóran fer að steypast, hennar dýrs sjö höfuð eru á enda, og afgrunnsdýrið upprís.

Afgrunns dýrið gjæti sjálft fallið uppá að teljá ára eður

tímatal frá sinni stjórnarbyrjun (því kristinn tíma reikníngur verður víst aftekinn), og menn hafa dæmið uppá að franskir gjörðu þetta í skelfíngar tíðinni.[1]

[1]) Hèr koma nú hinir ensku. Doddridge segist halda helzt með Newtons meiníngu, sem eptir Irenæusi álítur bókstafanna tölugildi í grísku og Hebresku: Lateinos og Romjjth miði þartil, eptir fornra þjóða atferli. Croly heldur þarámóti, að hèr meinist tímatal frá páfadómsins byrjun, og þá hann hefir sett hana 532, bætir hann við 666 árum, og fær út rannsóknarrèttarárið 1198. þessi útleggíng er mikilstil of þvíngnð; þurfti og engan vísdóm, þvert á móti bókarinnar fullvissu, sem heimtir hann, til að gèta sèr þanninn til. Og ekkèrt gètur verið ólíkindalegra enn að spádómurinn bindi sig við þvílíka tíð, til að telja frá sjálfsmíðuðu ónafnkènndu ári (þó farið væri þá að telja frá Kristsburði) til byrjunar rannsóknarrèttarins. Hvað þýðir og þá, að meðtaka dýrsins nafns tölu, og að það gildi eilífa töpun? En það er orsökin til þessarar villu, að þessi tala, sem í fyrstunni mun verða vandi að skilja, verður seinna mjög þekkjanleg og ein af dýrsins einkènnum, í staðinn fyrir að áðurnefndir útleggjendur vildu heimfæra allt uppá páfann, og hafa þessvegna fundið það, sem ekki var enn orðið til, og þeir gèta þarfyrir forgèfins uppá; mun og hvorki eiga að ákveða við töluna ár nè annan tímareikníng, nema ef dýrið fynndi uppá hann sjálft. Menn gèta annars sèð mína þánka þarum í 165. §., sem jafnvel þó þeir sèu mjög ófullkomnir, og eptir öllum líkindum, að miklu eður máskè öllu leiti bregðist; eg ætla þó, að í allra þenkjenda augum sèu þolanlegri enn þeir hèrtöldu, og það ekki vegna míns nákvæmara skilníngs enn hinna lærðu manna, heldur sakir þeirra hleypidóms, að allt merki páfann, hver enganveginn gètur opnað neina líklega útsjón hèr.

Ennþá bætir ritsmiðurinn (Williams) við þeirra meiníngu, sem trúa, að þessi tala 666 bendi til þessa dýrs uppkomu, sem vara skal 1260 ár, á þann hátt, að nær þeim tíma, þá Jóhannes fèkk opinberun sína árið 96, bættist hún við sem áratala, kèmur þá upp 762, þá páfinn fyrst tók að verða veraldlegur stjórnari á Italiu (dýr í spádóma stíl), og þá þar leggjast til 1260 ár, kèmur árið 2020, þá skal Babylon falla. þessi þánki er skarpsinnugur og allsjálffær (ótekinn af öðrum) og líkist nokkuð minni ætlan um dýrsins (nefnilega hafdýrsins og afgrunnsdýrsins sem framhalds af því), þess tilverutíma, og ei einúngis páfadómsins, sjá 148. §.. og yfirhöfuð minni, og margra annara tíma-tiltekníngu við upphaf þúsund ára ríkisins; svo að engin útleggíng sýnist í sumu lagi betur fara. En mætti það ekki skè, að hèr væri að því leiti rètt tilgètið, að þetta millirúm 666 ára frá Jóhannesar dögum, skyldi með einum eður öðrum hætti minna á hina töluna á sínum tíma, að það sè hún sjálf, er þetta í móti, að spádómur fullyrðir, að vísdóm þurfi til að skilja hana, þar hèr þyrfti einúngis

§. 165.

Eitt af hinu vandasta við útleggíngu Opinber. bókarinnar, eður máskè hið eina vanda í undangenginni (umliðinni) tíð, er að finna, nær hin opt umgètnu 1260 ár byrja, sem hin sanna kyrkja telst landræk á og í eyðimörku, og páfadómurinn ríkir, við hvers enda uppkoma skal dýrið af afgrunninu; þó gètur maður varla villst í að setja þá byrjun milli 550 og 720, því á þeim tíma jókst páfans makt mest, og hófst bílætadýrkun, og leiddist inn hin mesta og ókristilegasta vanbrúkun. Byrji maður nú að telja fyrr enn við 550, ætti afgrunnsdýrið allareiðu að vera uppkomið, sem þó ekki er. Dankell heldur rèttast sè að byrja þessi ár, þá páfinn ofsókti fyrst rètta kènnendur, sem reiknast að hafa skèð í upphafi áttundu aldar. Ef svo væri, ætti enn að vera yfir 100 ár til þess ógnarlega dýrs uppkomu; en það sýnist þó ei vel líklegt af tíðarmerkjunum. Nokkrir hafa, og jafnvel flestir, ákveðið byrjun þessa tíma, (sem sýnist dulin með vilja, til þess ei verði nákvæmlega sagt fyrirfram, hvenær dýrið uppkomi) við árið 607, þá Phocas upphóf páfann til allsherjar biskups, og hèr kèmur það uppá sama, hvort Krists árin eru talin of fá frá Krists fæðíngu, eður ei. Menn kynni og segja, að hin fyrsta ofsókn af páfanum var ekki svo sèrlega merkileg, að framar þyrfti að byrja tímabil með henni enn þessum hans maktar grundvallarstólpa; en sè nú þetta hið rètta, ætti dýrið að koma upp við 1867, eður og svo miklu fyrri, sem mána-ár eru sólar-árum styttri (þá þau dragast saman á svo laungum tíma hèrumbil 18), um árið 1849. Að sannur kristinndómur verði þá að hafa fengið mikinn styrk, er dýrið uppkèmur, hvað mikið sem hins mikla hóps fráfall verður orðið, sèst þaraf, að hann heldur lengi út á móti því, og síðan undirþrykktur, kèmur fljótt upp aptur, og mun undirbúa allar jarðarinnar þjóðir til Kristí kvöldverðar. Og þar nú dýrið yrði að hafa tíma til að vaxa, meðan það á stríð við Jesú votta, áður það fær þá und-

---

að gètska rètt; og að þessi tala skuli viðtakast og tilbiðjast af hinum mikla hóp, en yfirvinnast ásamt með dýrinu sjálfu af hinum útvöldu. Hún mun víst ókomin og ófundin ennþá.

irtroðið með öllu., kynni máskè líklegast ætlast til þess 30 ára tíð í samanburði við venjulegan vaxtar- og kraptaaukníngartíma manneskju, og sjálfs Krists uppvaxtar, áður hann byrjaði sitt embætti, þessvegna til 1897 eður 1879; þareptir ætti að fylgja 3½ ár, sem það æðir, til 1900—1901, eður 1883, þá vottarnir skyldi upprísa aptur, og þareptir dýrinu smámsaman halla. Þá mundi líða lángur tími meðan sjö hinar síðustu plágur gengi yfir það, og því finnst mèr Guldbergs reikníngur yfir þess heila tíma mikið of stuttur, hvartil hann mun leiðst hafa, af því að halda 17. kap. 10. v. ætti hjá því heima, en ekki stjórninni nærst fyrir það.

Nú hefir einn fallið uppá, að þessi 666 gjæti verið árstíðir, eður fjórðúngur árs, og mannleg uppáfinníng kynni verða að telja svo, og reiknist þær frá dýrsins upphafi, sem Guldberg heldur vera eigi, kjæmi út alls 166½ ár (hin seinasta í Guðs degi) eður til 2034, eptir hinum styttri reiknígshætti (mána-áranna) 2015, hvað eð kèmur mjög nærri því, sem áður er ávikið, og mun hitta hèrumbil eður nær því á 2000 ár, eptir það Kristur kènndi á jörðunni, og á byrjun sjöunda þúsundar ára mannkynsins jarðnesku tíðar, sem margir hafa ætlað fyrirmyndaða með hvíldardeginum og hvíldarárinu. Þó vil eg ekki þræta við neinn, sem tryði að þau 1216 ár hafi tekið að undirbúast með Gregoríusi mikla, en þeirra sanna upphaf hafi verið 622, þá Serkir tóku einninn að hjálpa til kyrkjunnar flótta. Samt eru allt þetta gátur einar, því að ákveða víst það ókomna, er óskynsemi, einkum hvað tölunnar merkíngu áhrærir, sem trúlegt er, að meiri vísdóm þurfi til að skilja rètt, enn nokkur ennþá, svo laungum tíma fyrirfram, gèti ætlað sèr. Það er líka lángt frá, að eg afgjöri neitt hèrí, svo að eg ekki jafnvel vildi hreint mótmæla neinum, sem byrjaði 1260 árin með 714. Aðskilnaðar tímabilin, tíð, tíðir og hálf tíð; þau tvö framkomnu (því hið seinasta ætti þá að enda 1946) hefði þá og innfallið á merkilegum tímapúnktum, ef mána-ár eru reiknuð, jafnvel þó mèr sýnist mikið annað á móti því (að það dragist svo lengi), og dýrsins verkunar og plágutími styttast allt of mikið. Það eina er eg

fyrst um sinn sannfærður um, að dýrið af afgrunninu var ei uppkomið (einsog því er lýst) ennþá 1829. Hvað þess eiginlegu tíð áhrærir, færi eg síðan fleiri líkindi til hinna framsettu meinínga, en, sem náttúrlegt er, ekki með vissu, eður til að kènna nokkrum, heldur einúngis til íhugunar.

---

Annað undir-atriði í hinni litlu bók um sannan kristinndóm samsíðis dýrinu, á hafdýrsins síðustu tíð til afgrunnsdýrsins hnignunartíðar.

---

## 14. kapítuli.

§. 166.

„1. v.: Og eg sá, og sjá! eitt lamb stóð á Zions fjalli, og „með því hundrað fjörutíu og fjórar þúsundir, sem höfðu „þess hins sama föðurs nafn skrifað í sínum ennum.“

„2. v.: Og eg heyrði rödd af himnum, sem margra vatna „hljóm, og sem hljóð mikillrar þrumu, og eg heyrði hörpu-„slagara hljóm, sem slógu sínar hörpur.“

„3. v.: Og þeir súngu sem nýan saung fyrir hásætinu, og „fyrir þeim fjórum dýrum (lifendum) og öldúngunum, og eng-„inn gat numið þann saung, nema þær hundrað fjörutíu og „fjórar þúsundir, sem keyptir eru af jörðunni.“

„4. v.: þessir eru þeir, sem eigi eru saurgaðir með konum, „því þeir eru sveinar (saklausir); þeir eru þeir, sem fylgja „lambinu hvert sem það gengur; þessir eru keyptir af manneskjunum, frumgróði fyrir Guð og lambið.“

„5. v.: Og í þeirra munni eru ekki svik fundin, því þeir eru „óstraffanlegir fyrir Guðs hásæti.“

þetta var nú aptur fagnaðarfull sjón af ennþá tilverandi Guðs og lambsins innsigluðum. En af því hèr á að talast um sannkristna, sem er öldúngis ólíkt atriði hinu fyrra, þá verður byrjunin á því að taka nokkuð fram fyrir, og hefir upphaf miðt á hinum myrkvu miðöldum (á 1260 ára tímanum).

§. 167.

þeirra saungur var nýr á þeim tíðum, þá almenn afguða-

dýrkun og andvaraleysi ríkti á jörðunni; þeir höfðu Guðs innsigli, en hvorki hórunnar nè dýrsins. Þeir voru ósaurgaðir af lauslæti, það er: afguðadýrkun, og fylgdu lambinu, þ. e.: trúðu á Kristí orð, og hans fullnægjugjörð, því í tilliti til hennar kallast hann lambið. Þeir voru þá ekki af hinum rammspilltu jarðarinnar manneskjum, og voru keyptir lausir frá þeim, og þessar manneskjur skildu þá ei heldur þeirra saung. Þeir voru hinir frumgètnu, eptir hina miklu fordjörfun, og útaf henni, og einsog eldri bræður þeirra núverandi trúarboða, og þeirra, sem stríða við dýrið og yfirvinna það. Hèr gèta nú engir aðrir verið málaðir enn þeir sannkristnu á páfadómsins tímum, Paulicianar, Waldensar, Wiclifítar og Hússítar, að svo miklu leiti sem þeir höfðu kristinndóminn í hjartanu, er flestir af þeim munu víst haft hafa, þar þeir liðu ofsóknir. Til þeirra kann og sèrílagi að teljast Lúther og allir góðir trúarendurbótarmenn og sannir kristnir meðal Protestantanna, einninn nokkrir guðlegir mystikar meðal Kathólskra sjálfra, sem framar trúðu á Jesús enn páfann og hans afguðadýrkun og múnkahjátrú.

Svo fljótt yfirfarandi er opinberunarbókin, og svo lítið gèfur hún sig inní að útmála smáþrætur í kyrkjunni, sem Dankell og aðrir hafa haldið.

## §. 168.

„6. v.: Og eg sá einn engil fljúga miðt í gègnum himininn, „sem hafði eitt eilíft Evangelium að boða þeim, sem búa á „jörðunni, og öllum heiðíngjum (þjóðum) og kynkvíslum og „túngumálum og fólki."

„7. v.: sem sagði með mikilli raustu: óttist Guð og gèfið „honum dýrðina; af því hans dómstími er kominn, og tilbiðjið þann, sem hefir gjört himininn og jörðina og hafið „og vatnsuppspretturnar."

Þetta er nú nærst í tímaröðinni í hinni merkilegu kristinndóms historíu, en verður þó að vera skèð fyrri enn dýrið af afgrunninu var uppkomið (í nokkrum krapti). Þareptir gètur ei

lærdómur á þann hátt haft framgáng. það sèst af 171. §. hèreptir, að það ogsvo komi eptir þetta.

§. 169.

Dankell lifði ekki á vorum dögum, hann hèldt þessvegna, að þessi engill væri formula concordiæ (trúareiníngarbókin Saxneska). Án þess eg neiti henni um sína nytsemi á Saxlandi, hvað mikið sem hún fjarlægði alla reformeraða frá Lútherskum, ætla eg ei að hèr sè talað um flokka-trú (Sekter), ekki heldur um trúarbragða lærdómsgreinanna verkun í einu eða tveimur löndum; heldur um miklu mikilvægari hluti. Guldberg lifði ekki heldur nú á vorum dögum; hann sýnist þarfyrir, á móti sínum siðvana, og allt fyrir sína miklu varúð og djúpa skilníng, án hvers vegleiðslu, eg játa það, að eg ekki hefði komist nærri því svo lángt, sem eg vona nú að orðið sè; að hafa farið afvega að því leiti, að hann heldur þessi boðskapur útgánga muni eptir dýrsins uppkomu; en lángtum sannsýnilegra er, að það þá, (eptir þess uppkomu algjörlega) verði ómögulegt að prèdika þann veg fyrir öllum þjóðum. Vèr höfum lifað eitt atriði tímanna, hvers líki aldrei hefir verið síðan á postulanna dögum; þarfyrir svo óverðugar og ómerkilegar sem trúargreinaþrætur í þýzkalandi og Hollandi voru fyrir Opinberunarbókina að spá um, svo verðugt var þetta þartil, og menn hefði gètað grunað, að eitthvað hefði vantað í bókina, ef það hefði ekki staðið þar; en það stendur þar, og er þarfyrir ný röksemd fyrir því, að bókin heldur áfram með alla merkilega tilburði í hinni sönnu kyrkju, allt til þessa dags. það er og í tímaröðinni hið nærsta merkilega skref til að útbreiða Guðs ríki eptir trúarendurbótina. þetta er trúarboða (Missions) fèlögin, til að boða Guðs eigið orð, öldúngis eptir bókarinnar orðtökum, fyrir öllum þjóðum í þeirra eigin túngumálum, og áminna þær um að trúa á Guð skaparann, hvar við bætist, að hans dóms tími sè kominn, nefnilega: yfir kristinndómsins óvinum, sem þekkjanlegir eru, og sem Kristí tilkoma innan ekki lángrar tíðar skal steypa, þá hin sjötta básúna er úti og

hin sjöunda heyrist, hórunni, og hverjum fleiri, sem vera kunna, en ekki tíminn til hins síðasta dóms. Hafi trúarboðarnir ekki ennþá haft þetta fyrir aðvörunarefni, þá gètur það enn skèð fyrr enn þeir yfirgèfa sjónarplátsið, og ef það yrði ekki, þá notaði heldur ekki í fyrstunni að boða heiðíngjunum aðra Guðs dóma, enn þann, sem þeir í raun prèdika, að þeirra upplýsíngartími sè kominn, og Krists ríki nálægist í krapti sínum, því þetta hafa trúarboðarnir gjört, og hinir aðrir dómar verða þarfyrir utan úthrópaðir af hinum síðar komandi englum, bæði fyrir hinum nýlega og að fornu kristnuðu heimsbúum. Að þessa engils hróp skuli verka á óvenjulega marga heiðíngja, er að sönnu ekki sagt; en undirbúa hlýtur það veröldina undir nokkuð stórvægilegt, og væntanlega heiðíngjana, þángaðtil þeirra fyllíng innkèmur, Rómv. 11, 25., og þareptir G y ð í n g a n a, til að meðtaka kristinndóminn, þegar þeir seinna sjá, að hefndin er komin yfir óvini hinnar sönnu kyrkju.[1]

---

[1]) Af hugleiðíngu um þetta hið mikla Guðs verk ætla margir, að Guðs ríkis fullkomnun sè nú bráðum væntanleg. Er það ekki undarlegt, að vel þenkjandi manneskjur óska að þetta gjæti skèð án nýrra ófara, tilburðameiri enn nokkurntíma hafa áður skèð, — eða þó trúarboðar á vorum dögum vænti eptir þessu. Þeir (trúarboðarnir) eru svo miklu framar þarí afsakanlegri enn aðrir, að alvara þeirra ágjætu köllunar sýnist nærri því að útheimta, að sálir þeirra fyllist af þessari von. En svo mikið, sem sýnist að þeirra alvarlegu viðburðir muni verka til Guðs ríkis útbreiðslu á jörðunni, hvarvið þeir fullkomlega heimila sèr, að minni ætlan, spádóminn um þann umgètna engil; þá gèt eg þó ekki gripið þann þánka, að hin seinasta fordjörfun áður þúsund ára ríkið byrjar, sè allareiðu nú á enda; hvarí sá lærði og spádómafróði biskup H o f k i n, í sínum hèr að framan innfærðu hugleiðíngum, fyllilega samsinnir mèr. Eg hefi í minni útleggíngartilraun leitast við að framfæra ýmisleg rök, bæði af bókarinnar undirlags-aðferði og framgángi með tímanum, og líka spádómsins orðatiltækjum, og samanburðarstöðum í ritníngunni, fyrir minni meiníngu, og veikleika þeirrar, sem þar er á móti. Eg hefi prófað sjálfa historíuna og framfært þeirra eigin játun, sem móti mèr hafa, um það, að vottarnir sèu enn ei deyddir, og enn fleiri röksemda hefi eg vitnað til; en við það, að yfirvega þetta enn nú nákvæmlegar með og móti, hefi eg ekki fundið neitt merki-

Þetta er nú hið allraseinasta í Opinberunarbókinni, sem vèr höfum röksemd til að trúa, að allareiðu hafi verið komið

legt, sem ekki er áður gègnumgengið, og mèr kynni í móti að vera, heldur því fleiri nýar styrkíngar í mínu áliti. Þó — ef nokkur gètur rekið allt hvað áður er sagt um mína meiníngu, áhrærandi dýrið, og hvað eg ennþá hefi að segja — með rökum og af Guðs orði, svo að hans röksemdir verði rètt skýrar, skal það vera mèr yfirmáta kjært; eg hefi þá þó stuðt nokkuð til sannleikans prúfunar, og hann hlýtur að vinna við það. Það, sem eg ennú hefi að segja til gildis minni meiníngu, er það, sem eptirfylgir, hvarí þó kann innfljóta eitt og annað áður ávikið, sem eg þá bið haldist til góða: a) Það eru nú yfir 30 ár síðan Guðs orð byrjaði að verka í sínum krapti í Norðurálfunni (eptir hina frönsku óöld); afleiðíngar þaraf hafa sýnt sig að vera, að sannur kristinndómur hefir fest rætur hèr og þar í fjarlægustu löndum, kann og vera hann útbreiði sig enn miklu meira enn híngaðtil í meðal heiðíngja og annarar trúarmanna, og í hinni fornu kristni hafa líka trúarboða-fèlögin vakið marga af svefni. En hinn mikli fjöldi í hinni forn-kristnuðu Norðurálfu skeytir þar ekkèrt um, sumir vegna þeirrar af frekasta jafngildi fyrir sálarinnar frelsi orsökuðu óvizku, sumir sakir hofmóðs, og hleypidóma á móti öllum kristinndóms anda; en allrahelzt af sældargirni, eigingirni og óvilja til allrar sjálfs afneitunar, forsmá þeir allt slíkt, og nokkrir setja sig þar í móti, og auka sig í að hæða og hata allan sannkristinn anda. Hvað gèfur oss von um, að Guð vilji enn lengur og kröptuglegar frambjóða þessari kristni sína náð enn Gyðíngunum? Hvað um að þessar manneskjur láti sig framar yfirvinna enn þeir, þar þær í raun eru (að minnsta kosti margar af þeim) enn meira forherðtar? Hvað um það, að þessi mikli hópur, sem nú hefir enga ávexti borið í 30 ár, verði hèreptir áunninn til þess, svo að ekki verði nema fáir óumvendtir eptir? allt annað sýnir sig: munaðarlíf, eigingirni, hofmóður, óhlýðni og uppreistarandi fer æ vaxandi og útbreiðist æ víðar, hversu sem Guðs orð, sem nú skín yfir heiminum, er brýnt fyrir mönnum á kjærlegasta og skynsamlegasta hátt; og svo drambsamir, skeytíngarlausir og sjálfræðisgjarnir Norðurálfubúar almennt eru heima í sínum löndum, trúi eg varla þeim farist betur í America. Eins lítið gèta menn vænt, að trúarboða-fèlögin og þeirra andi fái umvendt öllum heiðíngjum, Mahomedönum og Gyðíngum; hið trúlegasta er, að nokkur hluti þeirra einúngis ávinnist til verkunarsams kristinndóms fyrir slíkra viðburði, og það má þykja mikið. Látum oss jafnvel gjöra ráð

á skoðunarflötinn, þá þetta var skrifað, árið 1829, vèr skulum sjá hvað bókin sjálf segir bráðt komi þareptir.

---

fyrir, að einhverntíma takist þeim að leiða þriðjúng af öllu mannkyninu til verkunarsamrar trúar; en hversu mikið má ekki sú framför aukast áður enn það fær skèð! og þá yrði þó tveir þriðjúngar eptir, sem annaðhvort væri forherðtir í móti kristinndómi, skeytíngarlausir eða þekkíngarlausir um hann; og hvað yrði um alla þessa? Mundi jörðin verða hæfileg til að taka á móti lambsins brúðkaupi og þúsund ára ríkinu, full með slíkar manneskjur, hvar af máskè mestur fjöldi kynni að verða annaðhvort einúngis nafn-kristnir, eður opinberir háðsmenn af naturalista eða rationalista flokki? Mun það samkvæmt Guðs rèttlæti, og öllu því, sem fyrri tíðir sýna, að eyða ekki slíku illgresi af jörðunni með hegníngardómum, fyrri enn, og ef hans ríki á að sýna sig í sinni vegsemd? Er það ekki trúlegra, að Guð leyfi jarðarinnar illsku að þroskast fyrst, og að satan neyti síns ýtrasta kraptar til að ofsækja sannleikann og verja lýgina, áður enn hann og hún steypist — sjá Opinber.b. 12, 12.; 16, 13. 14. — hvað menn vita ei skèð hafi, á nærst undangengnum tíðum? Og hefir ekki hæði Kristur sjálfur á sínum holdsvistardögum, og hans postular, og Opinberunarbókin, fyrirsagt allt þetta á þennan hátt?

b) Þó ráð sè fyrir gjört, hvers varla er samt að vænta, að þvílík blessun gèfist trúarboða-fèlögunum og þeirra anda, að þau megni að umvenda þriðjúngi mannkynsins til verkunarsams kristinndóms, en tveir partar verði þó þar fyrir utan, og flestir af þeim eptir tiltölu fólksfjölda, og í samanburði við miklu meiri þekkíngu sína, finnist í Norðurálfunni, og þeim löndum frá henni eru útbyggð, sem líklegt mætti sýnast; yrði þó jafnframt sannsýnilegt (líklegt), að Guðs orðs innflot mundi smámsaman kólna, hvort sem heldur trúarboða-fèlögin og þeirra andi fær hindrun í verkun sinni, eður veröldinni leiðist að þau verki lengi. Hver sem mótmælir þessari meiníngu röksemdalaust, sýnist mèr ekki þekkja heimsins gáng og eiginlegleika, og bæði dæmi Gyðínganna og annara þjóða. Þó gjæti skèð, að hin óumvendta veröld hlífði nokkra stund sannkristnum fyrir meiri áreitíngum enn þeim venjulegu, og hindraði ekki opinberlega þeirra viðleitni. En kjæmi þar upp makt nokkur (ríki), sem hræsnaði fyrir heimsins, holdsins og augnanna girndum og hofmóð, en styddi rationalista og naturalista lærdóm með nýum og máskè híngaðtil óheyrðum krapti, mundi efalaust hinn mikli óumvendti hópur gèfa sig í fylgi með þvílíkri; og ekki það einúngis: allir óstyrknaðir, meðal þeirra, sem þó væri nokk-

## §. 170.

„8. v.: Og einn annar engill fylgdi eptir, sem sagði: hún er

---

urnveginn sannkristnir, mundu þá láta sig tæla af hennar valdi og ofsóknum, þeirri vanvirðu og þreyngíngum, sem hún mundi uppáleggja öllum öðruvísi þenkjandi enn hún sjálf væri, og hins falska spámanns lokkunum og furðuverkum. (Segi menn: þessir tælendur verða aldrei til; þá spyr eg: hverja reynslu útstendur þá hinn mikli nýi kristinndómur? Með hverju styrkist hann? Mun hann þá ekki fljótt úrkynjast aptur, og öll veröldin verða skeytíngarlaus á ný)? þetta er þó öldúngis samkvæmt því, sem Opinber.bókin segir um dýrið af afgrunninu og þess spámann, og eg gèt með engu móti skilið hvernig framvegis gèti gengið til í veröldinni öðruvísi enn að nokkuð þvílíkt fyrirfalli. það er ei heldur von, því rationalistar, sem alls góðs vænta af sinni upplýsíngu, skilja ei það verði með öðru móti að þau gjæði nái þroska, enn að hún gèti útrýmt trúnni á Krists forlíkunarverki og öllu andlegu kristinndóms hugarfari. Öll einkènni benda þartil, þó menn hefði ei opinberunina og aðra spádóma fyrir sèr; og yfirhöfuð verður mèr ógrípanlegt, að vantrúin ekki verki meira hèreptir í veröldinni, og á verri hátt, enn páfadómurinn, sem er á fallanda fæti; fyrir utan það, að spádómarnir vitna í einu hljóði, að hin seinasta óvina makt, sem stendur í móti Krists ríki muni æða allramest seinast áður hún steypist, hvað ekki er trúlegt eða náttúrlegt að kunni að seigjast um páfadóminn hèreptir. Vildi nú nokkur efast um, að vantrúin verði hinn síðasti æðandi óvinur, sem notar sèr þartil manneskjurnar, gèt eg ei annað skilið enn að eiginlega þetta hljóti einhverntíma að verða afleiðíngin af vaxandi skeytíngarleysi, eigingirni og sællífi meðal hinna óumvendtu. Yfrið vel kèmur það saman við spádómsins orð: hver, sem er íllur, verði enn verri, o. s. frv. það er sjálfsögð afleiðíng af því, að forherðast mitt í ljósinu. Eg gèt þessvegna enga hugmynd gjört mèr um, að veröldin full af rationalista lærdómi, sjálfselsku, sældargirni og Guðs orðs vanvirðu gèti verið undirbúin til að taka á móti Krists hvíldardegi, einúngis þó páfadómurinn falli; heldur að Drottinn verði að hreinsa hana fyrst með sínum hefndardómum í sinni tilkomu, einsog hann gjörði á Nóa dögum, sem hann sjálfur líkti hinum seinustu sjálfræðistímum við; og sama heldur Hofkin og finnur það í öllum spádómum.

c) Eg veit ekkèrt dæmi til, að vanvirðíng Guðs orðs hafi lengi verið óhegnd; hin fyrsta veröld galdt þess, að hún ekki hlýddi Nóa; Sódóma, að hún forsmáði Lot; Gyðíngarnir í Babylonar herleiðíngu virðíng-

„fallin, hún er fallin, Babýlon hin mikla borg, því hún „hefir gèfið öllum heiðíngjum (þjóðum) að drekka af sinn- „ar hórunnar áfenga víni.“

arleysis þeirra fyrir spámönnunum; hinir síðari við Jerúsalems eyðileggíngu foröktunar sinnar við Krist og hans postula; hin gríska kyrkja síns umsnúníngs á orðinu, þrætugirni sinnar og villudóma, og allir þessir straffsdómar voru hræðilegir. Hverninn ætti Guð þá að vera orðinn umbreyttur, ef Róm og páfadómurinn, hin mikla hóra, sem hefir syndgað miklu meir enn allir áðurtaldir, skyldi ekki fá hinn harðasta dóm? Hverninn, ef naturalista vantrú, sem brýtur sinn eið við sinn frelsara, og útskúfar honum mitt í Evangelii ljósi, rengir kristinndóm og Guðs óverðskuldað gèfna frelsismeðal, og hæðir það; kènnir þann veg allavega út frá sèr og heimilar alla glæpi, og þessvegna syndgar enn meira enn hóran; — komast hjá fordæmíngunni eður nokkurri ólukku? Og þó ekki nema einúngis — eitt fèlag af þesshàttar manneskjum, því heldur ein þjóð eða svo margir, sem gjæti verið heil þjóð, yrði eptir á jörðunni, hlyti þeir sömu, þegar Guðs dóms tími er kominn, að straffast eptirtakanlega; jafnvel hver einn ókristinn í kristninni, hver einstakur ritníngarinnar forsmánari, hlýtur samkvæmt áðursögðu að einkènnast með guðdómlegu straffi, áður enn jörðin gètur helgast. Og verði jafnvel tveir þriðjúngar af mönnunum þvílíkir á þeirri tíð, þá jörðin er fyllt af Guðs þekkíngu, og þó ei væri nema einn þriðjúngur, og þó ekkèrt afgrunnsdýr væri til, sem þeir tilbæði; yrði þeir þó að eyðast með Guðs þekkjanlegri hefnd, áður enn Guðs hvíld kynni að verða á jörðunni. Svo lángt er þar frá, að eg gèti trúað, að allir óguðlegir umvendist af orðinu, þó eg hefði engan spádóm fyrir mèr, sem hreint neitaði því; ellegar að þeirra mikla fjölda verði hlíft fyrir tímanlegu straffi, og Krists ríki uppreisist á jörðunni samt; ellegar að Guðs dómar sèu fullendtir jafnskjótt og páfadómurinn er fallinn; ellegar að trúarboða-fèlögin orki að uppreisa á jörðunni Krists mikla ríki, þar þau eru einúngis undirbúendur, og Kristur verður að gjöra það sjálfur, einsog bókin líka seinna sýnir að verður. Menn þurfa engin önnur rök til að trúarboðs-engillinn muni ei fullkomna það, en bókarinnar eigin orð, að annar engill kèmur eptir hann, sem úthrópar Babylonar fall, og hinn þriðji þar á eptir, sem prèdikar þær skèlfilegu hótanir fyrir dýrinu og þess tilbiðjendum. Allt frá englinum með það eilífa Evangelíum hefir bókin heldur ekkèrt annað innihald enn hótanir og hegníngardóma þángaðtil dýrið er eyðilagt, hvers straffi er svo lýst, og hvað meira er, allra, sem það gètur með

Babýlon segir bókin seinna sjálf hvað er svo greinilega, að jafvel einn franskur konúngur, sjálfur kathólskur, hefir sett á peníngamynt sína í reiði sinni: perdam Babylonis nomen: eyða skal eg Babýlonar nafni, og páfamenn sjálfir gèta ei neitað að Róm sè meint þarmeð, þó þeir snúi því svo, að það sè hún meðan kristin heitir. Sama spádóms ljósleiki styrkti Valdensana forðum í móti öllum ofsóknum hennar. Það er sú mikla hóra. Þegar nú sterk kènníng kèmur á vorum dögum eða síðar, og það í tímaröð nærst eptir engilinn með hið eilífa Evangelíum, sem boðar hennar vissa fall, vitum vèr að oss hefir ei skakkað í hinni fyrri útleggíngu. Af tímalengdinni þartil sú boðun kèmur, gètum vèr og nokkuð nærri farið, hvað lángt verður til þess dýrið af afgrunninu kèmur upp, því englarnir fylgja hver eptir öðrum. Og þessi boðun um fall páfadómsins sýnist nú að líkindum vís á hverri stundu. En hitti spádómurinn á þá tvo fyrstu engla í röð, mega menn ætla hann bregðist ekki um hinn þriðja.[1]

---

sèr dregið, að engra Guðs óvina straff líkist þarvið, hvað berlega sýnir, að það er sá rètti Anti-Kristur. Annars hafa hinir ensku ritsmiðir fallist á mína útleggíngu um þennan engil, og eg ætla allir sèu þarum á einu máli orðnir. En að páfadómurinn ekki sè hinn seinasti Krists óvinur á jörðunni, skal eg nú framar við tækifæri tala um.

[1]) Williams gètur þess, að bæði cathólskir og prótestantar haldi eitt um það, að Róm sè hóran. Bókin sýnir það svo ljóslega, að cathólskir sjálfir gèta ekki mótmælt því; en þeir halda, að hin heiðna Rómaborg í fornöld afmálist þar með. Og þeir skynsamari, sem sjá, að þar sem hún er máluð, sè talað um tíðir eptir heiðni, vilja leysa þann knút með því, að standa á, að hún verði heiðin á ný, þegar Anti-Kristurinn kèmur. Svo ónáttúrlega nú, sem hinn cathólski Wolmesley þenkir, þegar hann heldur, að prótestanta lærdómurinn (Lútherskur og reformeraður) sè hið mikla fráfall, og það muni enda taka 1825, sýnist þó sem þessa villtu kyrkju gruni nokkuð rètt um það, að vanbrúkaður prótestanta lærdómur einhverntíma muni halda á sama og fráfallinn páfalærdómur, og að hvorutveggi muni uppreisa eitt vantrúarríki; og hver veit nema þar hittist á, að Róm undir hinum sanna Anti-Kristi, hinn rètta

## §. 171.

„9. v.: Og hinn þriðji engill fylgdi þeim, sem sagði með mik-

---

afgrunnsdýri, verði í raun heiðin, þá páfadóminum er lokið? Menn vita þó, að þessi borg, miðt undir kristinni hjátrú, hefir varðveitt fjölda heiðinna siða. Máskè þessvega talist á tvöfaldan máta um hennar eyðileggíngu, fyrst að því leiti hún er hóra, undir dýrinu, þá hennar cathólska vald verður afmáð, og þarnærst að því leiti hún er staður af Guðs tilverknaði. Þó nú svo verði, villast cathólskir vissulega á því, að halda Róm heiðin orðin sè hóran; einsog kristinn afguðadýrkari gètur hún einúngis verið hóra; en einsog heiðin, einn hluti dýrsins ríkis; mögulega eitthvert þess höfuðsæti. Svo rugluð, sem cathólskra ímynd því er, sýnist mèr þó, hvað dýrið af afgrunninu áhrærir, að hún sè fullt eins samkvæm sjálfri sèr, sem prótestantanna í því, að allt á að merkja páfadóminn, og sú útleggíng einsvel gèta komið af trúarbragðahatri, sem hin cathólskra, að prótestanta lærdómurinn sè hið mikla fráfall; og hvorutveggi sýnast í þessu að vera mikið skammsýnir. Menn gjæta ei að því, að Opinb.bókin gjörir sèr ekkèrt far af um trúarflokka (Sekter), að því leiti það eru trúarflokkar, sem menn hafa gjört sèr svo mikið ómak fyrir að heimfæra hana uppá, talar ekki heldur um neina stöku hluti, heldur einúngis mikla og áríðandi, sem hafa innflot á allan kristinndóminn. Þeir lærdómar, sem hún hatar og hótar, eru afguðadýrkun papista (hórunnar hórdómsvín) og þeirra ofsóknargirni; og mótstandið í móti Guðs orði og forlíkunarlærdóminum (dýrsins væntanlega kènnimerki), í hverju tilliti hún svo sífeldlega talar um lambið og þess blóð. Hún dæmir þessvegna allstaðar einúngis, eður einkanlega ofsóknarandann og ókristilegar ódygðir, og ritníngunni ósamkvæma (mótmælandi) hjátrú og vantrú.

Ennframar segir Williams og þeir, sem fylgja honum, að dýrið (af afgrunninu) sè augsýnilega hið sama, sem uppkom af hafinu og bar hóruna; en fyrir utan, að það dýr, sem uppkom af hafinu í þjóðaflutuíngannatíð, við hins rómverska ríkis steypíngu, og sem bar síðan hóruna, ekki gat fengið sitt banasár undir Augustulusi (rètt í því það uppkom), þá liggur í þessu allur misskiluíngurinn, sem orsakar allar þær rugluðu útleggíngar, sem menn hafa gjört til að komast útaf þeirri meiníngu, að allt þýði páfadóminn (hverjar eg meina nú margfaldlega fullreknar). Þó sýnist mèr, að danskir útleggjendur hafi í þessu yfirburði (betri röksemdir) yfir hina ensku — fyrir utan máskè Faber — og svo eg nefni ekki Guldberg, þá sýnir Dankell sjálfur, að dýrið af jörðunni, eður

„illi röddu: ef að nokkur tilbiður dýrið, og þess bílæti, og „tekur þess kènnimerki í sitt enni eður í sína hönd.“

„10. v.: Sá skal drekka af Guðs sterka víni, sem er byrl-„að skjært í bikar hans reiði. Og hann skal pínast með „eldi og brennisteini fyrir (augsýn) heilagra engla og „lambsins.“

„11. v.: Og reykur þeirra pínustaðar skal uppstíga til eilífð-„ar (um eilífð) og þeir hafa enga ró dag eða nótt, sem til-„biðja dýrið og þess bílæti, og ef nokkur hefir meðtekið „þess nafns kènnimerki.“

„12. v.: Hèr er þolinmæði hinna heilögu; hèr eru þeir, sem „halda Guðs boðorð og Jesú trú.“

Hèr gètur maður gjört fleiri athugasemdir.

## §. 172.

Menn sjá, að þegar þessi engill hrópar, er dýrið uppkomið; en hvert hanns hróp skèður fyrri enn það hefir enn nú yfirunnið Jesú votta, eður eptir það þeir eru upprisnir aptur, veit Guð. það sýnist í tilliti til þeirra ógnarlegu ofsókna og svikræða sem Guðs lánglundargèð án frekari aðvörunar ekki vilji fordæma alla þá, sem fallið hafa, og hvar til skyldi aðvörunin, ef ei væri svo? En eptir það að þessi hræðilega prèdikun er heyrð, sem má verða mikið þekkjanlegt í allri víðri veröldu að fyrir sögð sè í Opinberunarbókinni, og sem enga líkíngu hefir við nokkra aðra aðvörun, sem heyrst hefir til vorra daga, ekki heldur sinn líka að skèlfilegum orðtökum í allri ritníngunni, kann engrar náðar lengur að væntast fyrir dýrsins tilbiðjendur. þeirra straff er fyrir sjónir sett í spámanna bílætum, tímanlega sem beiskju drykkur, hvarmeð afmálast eyðileggíngar og öll ólukku, og eilíflega eins og Sódómu eldur og brennisteinn og hin harðasta fordæmíng, og það jafnvel fyrir lambsins augliti; sem að sönnu sèr allt, en er þó skelfilegt að þenkja svoleiðis fyrir sjónir sett, og gètur ei annað enn vakið þann þánka, að þeir ei einasta sèu orðnir

---

hinn falski spámaður, heldur verður að merkja trúarjafngildismenn enn papista.

óverðugir til að vera endurleystir, heldur líka til að vera Guðs skèpnur, og ekki einúngis að vera orðnir óverðir til þess, heldur einninn hafa svo yfirmáta fjandskaparfullt hagað sèr við Guð, sem allt gott hefir í sèr fólgið, að rètt vegna þess, að þeir voru endurleystir, sèu þeir orðnir straffsverðari enn djöfullinn sjálfur, og orðnir einsog verulegt íllt öndverðir öllu góðu, hverra náttúrlegi skuggi allar ósælur eru, og gèta ekki annað enn verið. Hvað gètur valdið svo hörðum dómi jafnvel yfir þeim, sem neyddir eða tældir verða til að meðtaka dýrsins einkènni, ef ei það, að þeir afneita Guði, sem þá hefir endurkeypt, og Jesús sè Guð, og dýrið hans rètti mótstandari eður sanni Anti-Kristur, og allir, sem í nokkru gèðjist því, fái þess sinni? Að þessi prèdikun ekki komi fyrri enn vottarnir eru upprisnir, sýnist það sanna, að nokkrir áttu að gèfa Guði dýrðina við þann tilburð;*) sá skèlfilegi dómur hafi þessvegna þá ekki verið uppsagður — sjá §. 117. — Hvílík röksemd fyrir Kristí guðdómlegu forþènustu og endurlausn, að hennar spott og ofsókn á að draga þvílíka ógnarlega hluti eptir sèr!

## §. 173.

Einn skynsamur og góður prèdikari vor á meðal hefir sagt: að þegar makt heiðíngja og vísdómur Gyðínga stóð hærst að þeirra ætlan, þá hafi hinir verið svo voldugir og þessir svo vísir, að þeir hafi krossfest Drottinn dýrðarinnar. Hversu satt er það þó, að Guð gjörir vitrínga veraldar þessarar til skammar, þegar þeir stóla á sinn vísdóm, og að það, sem er hátt fyrir mönnunum, sè svívirðilegt fyrir Guði? Hversu ósamkvæmt væri það þarhjá ekki Guðs stjórnar-atferli í heiminum, ef þær mest upplýstu tíðir ekki ætti að prófast á mestu freistíngunni? Hversu ósanngjarnlega hefði hann ei annars breytt við Ísraelítana á Makkabæanna dögum, og kristna á þremur hinum fyrstu öldum, við Valdensa, Hússíta, Húgónotta og fleiri, í samanburði við oss, sem ætlum okkur fyrir utan mótgáng, og án þess að útgèfa neitt af voru sældarlífi, að

*) dubitatur af afskrifaranum.

inngánga strax til Kristí kvöldverðar? Þarfyrir hljóta að koma upp á slíkum tíðum (sem vorum) þeir, sem sína hinn mesta dáraskap og íllsku, og krossfesta Kristum á ný og hæða hann, svo að lángtum tilreiknanlegra verður þeim enn Gyðíngum forðum; og líka einninn þeir, sem sýna mesta þolinmæði og trú, til hverra 12ta versið bendir. Því aldrei á dýrsins tíð, og allrasízt eptir það skèlfilega hróp þriðja engilsins, gètur nokkurt jafngildi eður umburðarlyndi við öðruvísi þenkjandi haft stað, því hver einn verður annaðhvort að setja sèr fyrir, að halda fast við Jesú lærdóm, og útstanda allt íllt í veröldinni, eður gèfa sig dýrinu á vald og fordæmast með því eilíflega. Jesú tilbiðjendur gèta þá allra sízt verið jafngildis-menn, og dýrið sýnir ekkèrt umburðarlyndi, þar er mikið lángt fra. Það er þó sèrlegt, ef umburðarlyndis-kènnendurnir á vorum dögum, sem þó eiginlega kènna að sýna sèr það (því rètt kallað umburðarlyndi (Tolerance), sem hatar einasta ofsóknir, en óttast Guð og elskar sálirnar, og þess kènnendur, meina eg enganveginn), skuli verða til þess, að orsaka þessa umburðarlyndislausa dýrs tilveru upphaf.[1]

---

[1]) Jafnvel þó Williams og þeir, sem honum fylgja, trúi, að engillinn með hið eilífa Evangelíum sè trúarboða-fèlögin á vorum dögum, og bókin sjálf segi, að þessir þrír englar komi hver eptir annan, og þessvegna komi sá þriðji seinast; og það þarfyrirutan sè þekkjanlegt, að þeir tveir fyrstu hafa sitt eyrindi hver, og hinn þriðji væntanlega þarfyrir verði að hafa eitt sèrílagi; því það er bókinni miklu verðugra og hennar aðferð, að tala ekki aðskilið tvisvar um efni; — svo heldur hann þó (með öllu þessu), að þriðji engillinn tali um papiska afguðadýrkun. Hvarfyrir átti hann þó að flytja nær sama eyrindi sem hinn annar, og þó vera svo aðskilinn frá honum í svo merkri og hraðt yfirfarandi bók sem Opinberunin er? Hvarfyrir átti hann að prèdika lángtum ógnarlegar í móti dýrsins (hafdýrsins) tilbiðjendum (þeirra veraldlegu papisku konúnga undirsátum eptir ritsmiðsins meiníngu) enn hinn í móti hórunni sjálfri? já, ógnarlegar í móti hverjum einum kathólskum, sem tók á móti þessara stjóra (sinna yfirherra) teikni eða bílæti, enn nokkurstaðar fyrirkèmur í móti nokkrum í allri ritníngunni, og það eptir vora daga, þá hóran er komin undir að falla eða fallin? Er það ekki miklu líklegra, að hann

## §. 174.

„13. v.: Og eg heyrði eina raust af himninum, sem sagði til

prèdiki í móti einu, á móti Guði og Kristi, upprísandi með ásetníngi hæðandi vantrúar-ríki? Og hvarfyrir gildir það nú meir enn nokkurntíma þolinmæði og trú heilagra, þegar hóran er komin að hröpuninni?

Uppá ekkèrt af þessum spursmálum eru þeir færir að svara með minnstu rökum, sem trúa, að allstaðar sè meintur páfinn og páfadómurinn.

Í tilliti til þessa verð eg þó enn meir að útliða þennan minn þánka svoleiðis: það var aldeilis óviðurkvæmilegt í spádóminum, að einn engill boðaði Babýlonar fall, án þess framar að áminna hennar elskendur og þènara, og einn annar kjæmi þareptir, sem úthrópaði hina allraskèlfilegnstu hegníngardóma, ekki yfir henni, heldur yfir þeim, sem tilbæði, ekki Babýlon eður hóruna, heldur dýrið, sem bar hana, og það eptir það húu var fallin (hún var þó verri enn það, og það verra enn þeir, sem það tilbáðu eður báru þess merki). Páfann hafa menn þó tilbeðið, en ekki konúngaríkin, sem hann sat á, eður nokkurt veldi (Dynastie) á meðal þeirra. Ei heldur hafa menn meðtekið konúngaríkjanna kènnimerki eður þeirra nafnstölu; þetta gètur ekki heldur álitist fyrir svo hræðilegt, og það teiknar ekki til þess á vorum dögum, að konúngaríkin verði tilbeðin. Þó að einhver vildi umsnúa orðunum, og halda það merkti að tilbiðja páfadómsins makt í konúngaríkjunum, svo væri þó bæði hegníngardómarnir og þeirra boðun mikið ósamboðið tilefninu. Menn máttu heldur hafa vænt, að heyra þvílíkan dóm yfir þeim, sem tilbáðu hóruna, enn þau ríki, sem hún sat á, heldur þeim, sem tilbáðu páfans andlega vald, sem var guðlöstunarkènnt, enn hið veraldlega, sem þó nokkrir halda fyrir dýrið (af afgrunninu). Hèr hljóta menn nauðsynlega að játa, að um nokkuð annað sè talað enn það dýr, sem hóran reið. Inn til þessa dags vita menn og ekki hvað hórunnar eður hennar dýrs tala er, ellegar þess merki; og ef spádómurinn bendir til slíks, er hann ósannsögull, ef það er ekki til; en sè talan til, og þó ekki skilin, er hann tilgángslaus alla þá stund, sem páfadómurinn var í hinum mesta krapti sínum, þá menn helzt hefði þurft að skilja þennan stað af honum.

Nei, hèr verður að vera nokkuð óuppfyllt og enn þá eptir, og það er víst, að það er eptir, þar þriðji engillinn hrópar fyrst í móti dýrsins tilbiðjendum, og hann er enn ósèður. Enn framar minnist eg þess, að í 17. kapítula kallast hóran (ekki dýrið, sem bar hana) drukkin af blóði heilagra, hvað bókstaflega var uppfyllt á Waldensunum og öðrum; en um hennar

„mín: skrifa þú: sælir eru þeir frammliðnu sem deya í „Drottni hèr eptir. Já, andinn segir, að þeir hvíli af þeirra „erfiði, en þeirra verk fylgja þeim.“

---

dýr er alleina sagt, að þess höfuð hafi verið full með löstunarnöfn, því þess höfuðríki tóku við hórunnar lærdómi og fylgdu honum fram. Þetta dýr varð þó alltíð að vera minna sakbltið enn hún sjálf. En þó sagt sè um hana, að hún hafi verið drukkin af blóði Jesú votta, finna menn þó hvergi, að hún eður það dýr, sem hún sat á, hafi stríðt við þá og yfirstígið; það var og ei heldur með þeim hætti. Páfinn og honum fylgjandi stjórnir áttu ekkèrt eiginlegt stríð við Jesú votta, þeir drottnuðu yfir þeim með harðræði. Trúarbragða styrjaldir voru að sönnu á seinni tíðum, en Opinber.bókin mun ekki meina þær; þau stríð, sem hún talar um, munu vera andleg, og við Guðs orð. Páfinn hefir og aldrei yfirunnið Jesú votta og deyðt þá, hvorki orðið eða sannleiksvottana; — það játa menn mèr — en vantrúin mun að öllum líkindum eiga hið harðasta andlega stríð, ei að eins við þvílíka Jesú votta, hverra blóði hóran úthellti; heldur einninn við þá tvo votta, sem eg hygg vera Guðs orð; en hver, sem vill, má fyrir mèr, ásamt halda þá, sem vitnuðu með orðinu; hún mun, að minni meiníngu, drepa Guðs orðs verkun um lítinn tíma; en að allir Guðs orðs meðkènnendur deyðist eða niðurþrykkist og undirtroðist, og það af páfanum, jafnvel eptir núverandi tíð, er, þó mjúkast sè til orða tekið, harla ólíkindalegt. Sýnir þó ekki allt, að afgrunnsdýrið er enn eptir?

Það er fjærri mèr, að vilja mæla bót páfanum, Rómaborg og hinni papisku kyrkju; eg vil lýsa henni og hennar dýri, og því dýri, sem eg ætla sè það af undirdjúpinu, eptir því, sem bókin lýsir hvorutveggju, og historían ásamt, hórunni og hennar dýri.

Hóran, Róm og páfinn og hans kyrkja var fyrst gipt Kristi, en tók síðan framhjá honum engla og helga menn, krossa og bílæti, og hóraðist með þeim, lang síðan upp, sèr til ágjætis, og til að auka dramb sitt og vald, að hún hefði Krists umboð, og kunni ei annars að vera, enn að slíkum stórglæpum mundi verða framfylgt með allrahanda prettvísi og afvegum; þessir komu fram í því, að kúga konúnga og stjórnendur til að hlýða sèr, og öllum almenníngi til að fylgja sínum lærdómi, veita viðtöku hverskyns mannasetníngum, kaupa syndafyrirgèfníngu, og allrahanda annari sjálfsmíðaðri helgi og trúarvillu, sem allt flaut náttúrlega af því, að mennirnir, sem jafnan eru spilltir og fljótir til að trúa lýginni, gripu feiginsamlega við því svikræði, að Kristur ætti umboðsmann á jörðunni, sem lifði í veraldar

Þetta vers brúka menn allt of iðuglega og greinarlaust um þá alla, sem deya; en hèr er hátíðlega vitnað af himninum

---

yfirlæti, og gjæti afplánað glæpi þeirra fyrir fègjafir og sjálfbyrgíngslega útvalda Guðsþjónustu, en vildu ásamt dýrka Guð eður gèfa honum nokkuð af hjarta sínu, og þóttust gjöra það ef þeir heiðruðu í öllu hans umboðsmann; fannst þeim þetta auðveldari vegur til samvizkufrónnar, eður rèttara: andvaraleysis, enn sá, er ritníngin kènnir: til saunrar farsældar, að elska Guð af öllu hjarta og allri sálu. Þegar hóran hafði nú komist svo lángt áfram í prettum sínum, að ávinna allt slíkt, tók hún í sama kristinndóms og Guðs vandlætíngarskyni, að gjörast blóðþyrst og loksins drukkin af blóði Jesú votta, sem fundu að eða vildu ekki fylgja hennar athæfi, og hafði dýrið, sem hún sat á, sem að eðli sínu var grimmt til að framfylgja ofsóknum sínum, hvað það með sumum höfðunum einkanlega gjörði, sem undir ættmönnum Ferdínands katólska og Philippusar annars á Spáni, og Loðvíks 14. á Frakklandi, en sum höfuðin hafa að eins verið full löstunarnafna, afguðadýrkunar og upplogins lærdóms. Sjálf hefir hóran með aðstoð þjóna sinna framar enn dýrsins, sem hún sat á, svosem Dominicana, Jesúíta og annara, komið af stað ransóknarrèttinum og öðrum íllræðum og ofsóknum, samt drápi konúnga og annara, þegar henni hefir ráðið svo við að horfa; en með öllu þessu hefir hún borið fyrir sig kristna trú og vandlætíngu hennar vegna (hvað hún þóttist verða að gjöra til að halda virðíngu sinni); hún er þá hóra og blóðþyrst hóra, og hefir gjört allar (svokallaðar) kristnar þjóðir drukknar af sínum hórubikar, þ. e.: afguðadýrkun sinni, og falsað Guðs orð, sem þekkjanlegast varð í aflátssölunni. En einsog hinir forherðtu Gyðíngar, Pharisæarnir og skriptlærðir, hverjum hún mjög líktist (og var því verri, sem hún tók sèr og hafði valdið meira), þóttust vera Guðs fólk, og höfðu hans vandlætíngu, þó ei væri eptir skynsemi, hèldu þessvegna nokkrum góðum reglum eptir, hverjum Kristur jafnvel bauð að hlýða, og í þeirra söfnuði fundust nokkrir hreinskilnir menn, sem ei höfðu inndrukkið íllsku þeirra, og hefði jafnvel látið lífið fyrir Guðs lögmál; eins var, hún kènndi nokkuð gott, sem var að trúa á Guð föður, Son og heilagan Anda, Guðs endurlausn og hjálparráði, og útbreiddi á þann hátt kristinndóminn, þó hann væri mjög rángur og fullur af hennar hórdómum, og sjálfhelgi. Á seinni tímum hefir hún, án þess að sèrlegar plágur hafi yfir hana gengið, látið nokkuð af frekju sinni, en haldið nokkurnveginn við þá siði, er kristnir kölluðust og nýtilegir voru, margir og af hennar undirsátum hèr og hvar

um þá, sem fyrir Jesú lærdóm hafa þolað allar nauðir og pínu, og eru burt dánir frá hinni allra hörmulegustu tíð fyrir þá, hverrar kvalræði þeir þó hafa yfirunnið.

§. 175.

„14. v.: Og eg sá, og sjá þú! þar var eitt hvítt ský, og einn, „sem sat á skýinu, líkur einum mannsins syni; hann hafði „gullkórónu á höfði sjer, og hvassan sigð í sinni hendi."

„15. v.: Og einn annar engill út gèkk af musterinu, sem hrópaði „með mikilli röddu til þess, sem á skýinu sat: högg til með „þínum sigði, því tíminn er kominn til að uppskèra (haustyrkja), „af því uppskèra(kornsáð) jarðarinnar er þornað (fullsprottið)."

„16. v.: Og sá sem sat á skýinu, rètti út sinn sigð yfir jörð„ina, og jörðin varð haustyrkt."

Allt þetta heyrir til sjónarinnar tignarlegs útlits, nema það, að

---

verið á vissan hátt guðhræddir, og ýmsir þolað ofsóknir af heiðíngum og látið lífið með harmkvælum fyrir kristna trú, hvarum ljóst vitni bera ofsóknirnar í Japan og víðar. Hún hefir þanninn aldrei hafnað Guðs sannleika að öllu leiti; en eptir lánga misbrúkun hans, tekur hún nú að smáveslast upp, og sýnist líklegt, að nú muni bráðum undir lok líða.

Það dýr af afgrunninu þar á móti, som hana á að eyðileggja, er ei uppkomið af Krists ríki eður tekur af því neinn skugga, fylgir og engum Krists lærdómi, heldur einni saman vantrú; þekkti kristinndóminn, en afsór hann, og fylgir og elskar heiðni; neitar föðurnum og syninum og heiögum Anda, syndafallinu og endurlausninni og allri kristinni trú; hæðir hana og alla þá henni fylgja; mun hata og eyðileggja hóruna, ei svo fyrir glæpi hennar, sem hitt, að hún lætzt fylgja Guðs orði, ofsækir með öllu móti (sem bókin segir og líkindi eru til) alla sannkristna; trúir einúngis á sig sjálft, og kènnir einan saman sjálfbyrgíngsskap og glæpi; tekur engri sannfæríngu, og hefir engan Guð, en hatar sèrílagi Krist og endurlausnarverkið; safnar öllum þjóðum saman til stríðs í móti honum; niðurtreður Guðs orði, og stríðir við hann til þrautar, og bognar fyrir engum plágum; fær síðan loksins enda með skèlfíngu á Guðs mikla stríðsdegi, sem Kristur sjálfur verður að framkvæma með sínum almættiskrapti. Hvert er nú sá rètti Anti-Kristur, hóran, dýrið, sem hún sat á, eða þetta dýr, sem úr því verður?

jörðin varð haustyrkt; eyðileggíng gèkk yfir hana, því hennar íllska var fullvaxin. það er trúlegt, að þetta afmáli eyðileggíngu í hórunnar ríki, hinnar rómversku kyrkju, og sè yfirgrips-spádómur fyrirfram af því, sem seinna verður meira umtalað.

§. 176.

„17. v.: Og einn annar engill gèkk útaf musterinu, sem er „í himninum, og hann hafði hvassan sigð."

„18. v.: Og annar engill gèkk útaf altarinu, sem hafði vald „yfir eldinum, og hrópaði með mikilli röddu til þess, sem „hafði hvassa sigðinn, og hann sagði: högg til með þínum „hvassa sigði, og skèr vínklasana af jarðarinnar vínfjalli, „því hennar þrúgur eru fullsprottnar."

„19. v.: Og engillinn sló sínum sigði til jarðarinnar og yrkti „jarðarinnar vínfjall, og fleygði þess þrúgum í hið mikla „pressukèr Guðs reiði."

„20. v.: Og pressukèrið varð troðið utanborgar, og þar gèkk „blóð útaf pressukèrinu allt að hestanna beizlum, um þús„und og sex hundruð stadía lengd."

Vínyrkjan er seinna enn haustyrkjan; hún málast hèr í bilætum, og merkir hegníngardóms hræðilega eyðileggíngu. Væntanlega þýðir hún í stuttu máli hinar síðustu plágur, og eyðileggíngu dýrsins af afgrunninu. þetta verður hèr að víkjast á, svo að uppfyllíng undanfarinna hótana ekki sýnist að undandragast oflengi; en það verður útlistað hèreptir greinilegar í nýu atriði; allt til að benda til aðgæzlu þess, að englarnir úthrópuðu áður, fyrst fall Babýlonar, og síðan dýrsins, því koma þessir dómar hèr fram í sömu röð. Að vínþrúgurnar voru troðnar utanborgar er óvíst að hafi aðra merkíngu enn líkíngu venjunnar; en það mikla þrúgnablóð víðt og breiðt sýnir, hversu ógnarleg eyðileggíngin verður. Sè þar nokkuð ýtarlegar ákveðið við, verður það ei útskýrt fyrr enn á sínum tíma.[1]

---

[1]) Hinum Ensku kèmur hèr saman við Guldberg og mig, nema þeir deila ekki korn- og vín-yrkjunni milli hórunnar og dýrsins, sem ekki gèt-

§. 177.

Nú eptirfylgir að útfæra með sundurdeilíngum hinn síðasta hluta þessa atriðis, um kornyrkjuna og vínyrkjuna og fyrst undirbúníng.

---

Hátíðleg sjón fyrir framan þriðja undir-atriði í litlu bókinni.

---

## 15. kapítuli.

§. 178.

„1. v.: Og eg sá eina aðra sjón í himninum mikla og und-„arlega; sjö engla, sem höfðu hinar sjö síðustu plágur; „því með þeim er Guðs reiði fullkomnuð.“

þessar eru plágurnar yfir dýrinu og þess ríki, hið þriðja vei, undir sjöundu básúnu.

§. 179.

það er merkilegt, að hin eilífa fordæmíng kallast hèr ekki fullkomnun Guðs reiði (hegníngardóms); heldur þessar plágur. Hið fyrrnefnda kèmur og varla fyrir í ritníngunni, með því nafni, þó eg vel viti, að í einum stað kallast hans reiði brenna til neðsta helvítis, og að þetta er að svo miklu leiti eptir bókstafnum satt, að hin harðasta fordæmíng er afleiðíng af hans óþóknun. það kèmur mèr fyrir sem hin eilífa fordæmíng sè sjálfkrafa afleiðíng óguðlegleikans, og fjarlægðarinnar frá Guði alls góðs uppsprettu, og að Guð uppáleggi ekki hennar pínu sem álagða hegníngu í sjálfri sèr, þó að þeim ósælu verði að vísast til hins versta staðar, hvar þeir,

---

ur orðið eptir þeirra undirlagi. það blóðbað í vínyrkjunni, sem sagt er að nái eins lángt yfir og kyrkjulöndin, sannar ekki, að hèrmeð meinist páfans eyðileggíng, sem eptir minni ætlan yrði að vera áður skèð; en gjæti merkt (ef að nokkuð verulegt yfirborð af landi á þarvið að skiljast) annaðhvort svo stórt land, hvar dýrsins mesta innflot ræður fyrir, eður kyrkjulöndin sjálf, sem kynni verða inntekin af dýrinu, sem eitthvert helzta aðsetur eptir hórunnar eyðileggíngu, og væri nú tvöfaldlega straffs-sek fyrir þá nýu þjónustu, sem þau hefði nú veitt tèðu dýri. þetta er samt óvíst.

einsog aðskildir frá öllu góðu, eiga heima; en hans óþóknan á syndinni, þegar hún gengur yfir öll takmörk, heimtar álagðar hegníngar hèr í heimi, og eyðandi straffsdóma, hvarmeð hans reiði kallast að fullkomnast. þó læt eg hvern setja sèr þetta fyrir sjónir sem honum líkar.

§. 180.

það er víst, að einsog Guð er hin mesta gæðska sjálf, svo er hann líka hinn mesti strángleiki sjálfur í móti íllskunni, öldúngis ólíkt því, sem vorir rationalistar ímynda sèr; eins víst er það, að hann hefir gjört allt hvað komið gètur saman við hans eiginlegleika og hlutanna eðli til manneskjanna bezta. Hann varð að uppáleggja manneskjunni hlýðni, fyrst hún hafði skynsemi, og án hlýðni gat hún ekki orðið sæl, því í kjærleikanum til hans er öll sæla, og fyrir utan hann engin; og þegar hún braut þetta, og varð að öllu óhlýðin, svo að enginn lifði eptir þeirri skyldu, sem hann heimtaði, eða samstemmdi hans vilja; en hver einn hefði hlotið meir og meir að fjarlægjast frá honum, nema fyrirheitið hefði komið, og hann þessvegna hefði haft fullan rètt til að fordæma allar manneskjur, — gaf hann þeim þó sinn son til einkis minna enn að sameina þær sjálfum sèr aptur og lèt hann líða pínufullan dauða. Að hann útvaldi svoleiðis eina þjóð fyrir sitt fólk, og hèldt henni svo lengi undir lögmálsins þvíngun, þar til sá endurlausnari kom, og lèt allar aðrar þjóðir vera óvitandi þar um svo lángan tíma, kynnu menn þenkja (þó ekki viti maður Guðs ráð), að hann meðal annars hefði haft þær orsakir til, að vilja fyrirbyggja meiri straffs-sekt mannanna, sem þeir hefði dregið yfir sig með meiri þekkíngu, á meðan þeir voru enn öldúngis óþroskaðir til að gèta brúkað hana. þetta gètum vèr ráðið bak eptir af því, hversu stórilla fjöldi kristinna hefir brúkað kristinndóminn. Á meðan hèldt hann Gyðíngunum við sína þekkíngu með öllum mögulegum meðölum, og leyfði, að hlýðni þeirra og traust á honum mætti duga þeim, í staðinn fyrir hinar fullkomnari hjartans dygðir, sem þeir voru ekki færir um að grípa; þanninn hafa ótal af

þeim orðið sáluhólpnir í voninni, sem máskè hefði farið afvega, ef þeir hefði sèð glöggvara. Eg efast og ekki um, að margir heiðíngjar, bæði fyrir og eptir Krists daga hafa orðið hólpnir, og það fyrir hann, þó þeir hafi ekki þekkt hann, þegar þeirra sál hefir í frómleika leitað Guðs og dygðarinnar, því Jesús er allrar veraldarinnar frelsari, og í engum öðrum er sáluhjálp (hvað væntanlega rángt er útlagt svo: að engin sáluhjálp sè til fyrir utan þekkíngu á honum; því Guð frelsaði oss þó áður enn vèr þekktum hann). Sumpart kristinndómsins misbrúkun — þó margir með óskynsamlegum skynsemdar útbrotum í 4. og 5. öld spilltu honum, nefnilega: svokallaðir villumenn og aðrir þáverandi rètttrúarmenn lètu hann einúngis vera fólginn í vissum trúar-atriða ástæðum, en gengu frammhjá hans krapti; hver misbrúkun hinna guðdómlegu trúarbragða sífeldt hafði aukist meðal mannanna, og orsakað þeirra fullkomna eyðileggíngu, nema myrk óvizka hefði tekið við; — og sumpart hinar áðurnefndu orsakir, nefnilega: að hlífa mönnunum fyrir meiri straffs-sekt — sýnast að hafa valdið, að Guð þoldi svo lengi hórunnar yfirráð, þángaðtil hann sá ólukku af þeim að hafa fengið ofmikið yfirborð. Síðan þá tíð hann rèði bót á því, hefir hann upplýst manneskjurnar á ný með sínu orði og öllum undanförnum eptirdæmum, og ásamt með mörgum öðrum vísdómi, sem augsýnilega fylgdi orðsins upplýsíngu, svo að trúlegt hefði verið, að þær væri nú orðnar varúðarsamar, og líka hefði krapta til að halda sèr við sannleikann. En hvað skèði? Stuttu eptir það hin heilaga ritníng hafði lètt af þeim páfa-okinu og veitt þeim allt gott, lögðu þær hana til hliðar, og tóku fyrir sig að dæma um misklíðina milli vantrúar og hjátrúar. Hina síðarnefndu, undir hverrar merki þeir jafnvel vilja láta nokkuð af ritníngunni, þeirra heilaga velgjörara, eiga heima, hrakyrða þeir hið allrafrekasta, og gèfa henni að sök öll harðræði og ofsóknir (hversvegna líka ritnínguna á líkt með að fara). En við áðurnefnda vantrú, sem er hjátrúarinnar herra, og enn þá lángt verri enn þènarinn, vilja þær halda sèr; vilja og ekki láta hana heita vantrú, meðan menn trúi, að

Guð og eilífðin sè til (til hvaða gagns meiga aðrir umdæma). Og loksins taka nokkrar af þeim til að ofsækja ritnínguna sjálfa sem hjátrúarinnar stoð eður barn. Hverninn gètur það nú öðruvísi verið, enn að Guð leyfi vantrúnni líka að sýna sig í sínum styrkleika, þar mennirnir verða ekki öðruvísi sannfærðir um hennar skaðsemi? Hún er þarfyrirutan einn af Krists óvinum, sem einninn á af honum að undirleggjast, og það sá sterkasti og versti.

## §. 181.

Hóran, ekki ætíð sjálf svo hjátrúarfull sem hjátrúarinnar fósturmóðir, hofmóðug, spottandi, blóðgírug og harðstjórnargjörn, á fyrst að falla undir dýrinu af afgrunninu, hvarum síðar talast; væntanlega á þeirri tíð, þá það er í mesta blóma sínum, og einsog Guð á jörðunni. En þar þetta nú verður verra enn hún var, skulu sjö hinar síðustu plágur gánga yfir það undir sjöundu básúnu, sem hèreptir verður sagt. Allar þessar plágur gjörir Dankell andlegar, sálartrublun, gremju og þvílíkt. En þar menn sjá, að dýrið ekki missir móð undir þeim, og þeim er þó lýst svo ógnarlegum, og þarfyrirutan verða þær að vera þekkjanlegar fyrir öllum heimi, og veikjandi dýrsins makt, sýnist mèr ekki sú útleggíng vel meðtækileg.

## §. 182.

„2. v.: Og eg sá sem eitt glerhaf meingað eldi, og þá, sem „höfðu unnið sigur yfir dýrinu og þess bílæti, og yfir hins „sama kènnimerki, og yfir hins sama nafns tölu, sem stóðu „hjá því glerhafi, og höfðu Guðs hörpu.“

„3. v.: Og þeir súngu Móses Guðs þjenara saung, og lambs„ins saung, segjandi: mikil og undarleg eru þín verk, Drott„inn! þú ert sá almáttugi Guð; rèttlátir og sannarlegir eru „þínir vegir, — þú konúngur heilagra!“

„4. v.: Hver skal ekki óttast þig. Drottinn! og prísa þitt „nafn? Því þú einnsamann ert heilagur; því allir heiðíng-

„jar (allar þjóðir) skulu koma og tilbiðja fyrir þèr, þar „þínir dómar eru opinberaðir.“
þetta skal stuttlega yfirvegast.

§. 183.

Hvað glerhafið skal eiginlega merkja veit maður ekki, nema það sje Guðs undirlag og vegir, sem nú eru skjærir (augljósir) orðnir, meingaðir eldi, sem er hans brennandi vandlæti í móti hinum óguðlegu; hjá því standa þeir, sem hafa unnið hinn sanna sigur yfir dýrinu; í gègnum gengið þess ofsóknir með staðfesti til dauðans meðan það enn þá fór vaxandi. Nú standa þeir fyrir Guði, og sýngja honum lof, því dýrsins hegníngartíð er komin, og það sýnist sem þess ofsókna-kraptur hafi rènað strax eptir upprisu vottanna, og sè á enda, þegar plágurnar byrjast, eins og það gèkk Pharaó. þessar sælu manneskjur sýnga Mósis og lambsins lofsaung, það er: prísa vitnisburð hins gamla og nýa Testamentis. Hvað mikilvægt og vondt dýrið er, sèst meðal annar á því, að allt hvað því viðkèmur á að yfirvinnast, hvað fyrir sig; og hvað öflugt það er, á því, að Guðs almætti er sèrílagi lofað, fyrir að hafa steypt því; en lofsaungurinn stendur hèr á undan plágunum.

§. 184.

„5. v.: Og þareptir sá eg, og sjá! vitnisburðarins-musteri „var upplokið í himninum.“

„6. v.: Og þeir sjö englar, sem höfðu þær sjö plágur, gengu „útaf musterinu, klæddir í hrein (hvít) skínandi línklæði, og „girdtir kríngum brjóstið með gullbeltum.“

„7. v.: Og eitt af þeim fjórum dýrum (lifendum) gaf þeim sjö „englum sjö gullskálar fullar með reiði Guðs, sem lifir um „alla eilífð.“

„8. v.: Og musterið (hið heilaga) vard fullt af reyk af Guðs „dýrð, og enginn gat gengið inn í musterið, þángað til sjö „plágur þeirra sjö engla tóku enda.“

Samlíkíngarnar eru teknar af altarinu og eldinum, sem af því

var tekinn í gamla Testamentinu, og undirbúníngur hegníngar-dómanna er meiri enn fyrri hefir sèst í bókinni; því hljóta straffanir dýrsins að verða mestar. Af öllu og sèrdeilis seinasta versinu sèst, að plágurnar eiga að fylgja hver á eptir annari.

§. 185.

Þó að plágurnar eigi að fylgja hver rètt á eptir annari, er þó varla skiljanlegt, að hverrar einnar aukníng og þverran, og millibilið, sem aðskilur þær, gèti tekið upp minna enn 70 ár að jafnaðartölu, ef þær eiga að verða þekkjanlega og greinilega sundurdeildar fyrir allrar veraldar augum; en þetta er líka nóg. Nú hefir eg sett einúngis sem gátu til skoðunar eður eptirþánka, að dýrið kæmi upp, eptir því, hvort árin frá 607 og svo fr.veg. reiknuðust fyrir sólar- eða mána-ár, 1849 eða 67, væri að vaxa til 1879 eða 97, æddi til 1883 eða 1901, og hnignaði til 2015 eða 2034; þá ætti hinar síðustu plágur að taka upp 70 ár eða lítið meira, til dæmis frá 1945 til 2015. Hin önnur talan, fyrir utan þess uppkomu, mætti þó setjast fyrri, ef það snemma á sínum tíma deyddi vottana, sem það yrði þó nokkra stund að stríða við. Sem áður er sagt, ætti ofsókna-kraptur dýrsins mikið að mínka eptir vottanna upprisu, líkt og páfans við trúar-endurbótina, en þrjóta þegar plágurnar tæki til. Nú stendur Dan: 12. 11. v., að frá þeirri tíð hið ævarandi offur takist af (væntanlega nálægt sömu tíð, sem þau 1260 ár byrja) og þartil sett er hin eyðileggjandi svívirðíng (hvar með eg held afgrunnsdýrið meinist, þar það burttekur Guðs orð, en engillinn talar um fjarlægar tíðir, og ekki um fyrirmyndina Antiochus, sem tók burt Guðs þjónustuna í $3\frac{1}{2}$ ár) sèu 1290 dagar, sem furðulega kèmur nærri gátu minni um þann tíma dýrið ætti að deyða vottana, eða á ár, eptir mánaára-tali, 1880. Enn sagði engillinn framar við Daníel: sæll er sá, sem bíður og gètur náð 1335, sem þá yrði nálægt 1925 eða 42, einsog dýrsins ofsókna-máttur þryti frá þeirri tíð, og trúaðir fengi vissu af Guði, að dómur þess væri þá nærri. Svo víst sem eg trúi spádóminum, mætti eg

og hver annar, sem svo gjörir, biðja Guð af hjarta, ef mögulegt væri, að dýrið kæmi ei upp fyrrenn í 20tu öld og varaði því skèmur, svo Guldbergs útleggíng þar, um 56 ár, væri rèttust; en máskè hið skèlfilega í þeim hlut gjöri mig ófyrirsynju óttafullan um, að ekki verði svo. Að dýrið viðvari til hèrum 2000, 2015, í allra lengsta lagi til 2034, kèmur uppá: að hverju leiti þessar gátur eru rèttar. En áratalið 2000 eður nokkuð þareptir, þá Kristí ríki á jörðunni skyldi byrja, samstemmir ei alleina fornum sögum, heldur einninn fyrirmyndun um það, að á sjöunda þúsundi ára mannkynsins tíma eigi Kristí hvíld að uppbyrjast á jörðunni. Vissulega eru slík tímabil ákveðin af forsjóninni, þá þvílíkir merkilegir hlutir skulu fullkomnast; hvað bannar þá að gèta þess til, sem alls vegna er líklegast? það er annars sèrlegt, að sagt er maðurinn hafi verið skapaður á sjötta degi, og sýnist líkast syndgað hafi á hinum sama, eður á sama degi í nærstu viku; Kristur leið pínu sína þann dag; og enn nú sá sami dagur, þó í hærri meiníngu (eður að því leiti hann í rítníngunni kallast Guðs dagur, þúsund ár) hefir mest lagað, fullskapað, upplýst og sælt gjört mannkynið, og eptir Opinber.bókarinnar spádómi mest spillt því, og gjört það ósælt, og líka krossfest Krist að nýu (með að afneita hans forþènustu og endurlausn), fyrir utan að sextalan allan spádóminn í gègnum er ósælutala; og einsog hinn sjöundi, Guðs hvíldardagur, var einninn Kristí hvíldardagur eptir sína pínu, og sjöundi þúsund ára dagurinn væntanlega verður manneskjanna hvíldardagur í Guðs verkum. Hinn fyrsta þareptir, eður áttunda daginn, gjörði Kristur að Drottins degi með sinni upprisu, og á sömu ára þúsundar byrjun sýnist spádómurinn að benda til að hin almenna upprisa verði og upphaf hins eilífa lífs, sem Kristur hóf sitt eilífa líf með upprisunni. Undrunarleg samstemma, sem að minnsta kosti er ekki verðt að hæðast að.

---

Þriðja og síðasta undir-atriði í hinni litlu bók — sem hins annars uppfylling og ýtarlegri afmálun.

## 16. kapituli.

### §. 186.

„1. v.: Og eg heyrði mikla rödd af musterinu, sem sagði „til þeirra sjö engla: gángið burt, og úthellið skálum Guðs „reiði á jörðina."

„2. v.: Og hinn fyrsti gèkk burt, og hellti sinni skál á jörð„ina, og þar urðu ill og skaðvænleg kýli á þeim mann„eskjum, sem höfðu dýrsins kènnimerki, og þeim, sem til„báðu bílæti hins sanna."

Hèr kèmur nú hin tímanlega hegníng, sem engillinn hafði fyrirsagt, yfir þá, sem dýrkuðu dýrið, hverja hann kallaði bikar Guðs beiska víns, máluð eptir Egyptalands plágum.

### §. 187.

Þessi plága afmálast úthellt á jörðina, nefnilega: dýrsins þènara; menn gèta útlagt hana fyrir ógurlega drepsótt, eða innbyrðis ólæknanlega óstjórn. Vildi nokkur annars spyrja: til hvers skyldi þessar plágur yfir ólagfæranlega og allareiðu fordæmda? svarast: að sönnu boðaði engillinn þeim hærstu fordæmíngu yfirhöfuð; — en máskè það hafi enn þá ekki verið Guds dómur undantekníngarlaust. Mögulegt fyrir honum, að einhver kynni að betrast þar við, (hvartil sýnist benda, að segir enginn hafi bætt sig við seinni plágurnar); en annars þurftu þær, einsog yfir Pharaó, þó Guð vissi hann mundi ei batna, til þess að verða seinni tíðinni til eilífrar aðvörunar.[1]

[1]) Eitt sinn fyrir öll sè það sagt, að eg held alls ekki af þeirri rugluðu frekjutrúar-meiníngu, er nokkrir hafa hreift, að afgrunnsdýrið komi bráðlega upp, og hinar síðustu plágur svo að segja í sama augnabliki, hvaraf fólk verður svo viljugt til að trúa allrahanda líkindaleysi, og að þess plágur komi svo sjálfsagðar án tillits til betrunar eða vestnunar í mannanna framferði. Nei, breytist fyrri mínar ágèzkuðu tíma-ákvarðanir, sannleikurinn kèmur samt á sínum tíma. Undandragist og styttist fyrri plágurnar, enn að dýrið gèti uppkomið og troðið niður kristinndóminn, nema

§. 188.

„3. v.: Og hinn annar engill úthellti sinni skál í hafið, og
„það varð blóð sem af dauðum, og hver lifandi sál í
„hafinu dó."

Hafið er sem optast bílæti hermanna-umrótunar, gjæti þarfyrir meinast hèr, að dýrsins hersafli yrði með öllu hamíngjulaus. Mèr sýnist menn kynni líka þenkja sèr óveujulega storma, sem drekkti öllu þess sjóarherliði og sjófarendum, og tæki fyrir höndlunina, sem það hefir svo vanbrúkað.

§. 189.

„4. v.: Og hinn þriðji engill úthellti sinni skál á vatnsföllin,
„og vatnsuppspretturnar, og það varð blóð."

„5. v.: Og eg heyrði vatnanna engil segja: Drottinn! þú
„ert rèttlátur, sá, sem er, og sá, sem var, og hinn heilagi,
„að þú hefir dæmt þessa hluti,"

„6. v.: af því þeir hafa úthellt rèttlátra og spámannanna
„blóði, og þú hefir gèfið þeim blóð að drekka, því þeir eru
„þess verðir."

„7. v.: Og eg heyrði einn annan af altarinu segja: já, Herra!
„þú ert almáttugur Guð, þínir dómar eru sannir og rèttlátir."

Samlíkíngin er tekin af Egyptalands vatnsföllum, sem urðu að blóði; hèr útmálast grimmleg innbyrðis styrjöld, því þeir áttu að drekka blóðið, og Guðs skèpna prísar hans rèttlæti þarí. Hann er nú kominn til dóms, og þessvegna stendur ekki lengur: sá sem kèmur.

§. 190.

„8. v.: Og hinn fjórði engill úthellti sinni skál í sólina, og

---

hinn mikli manneskju-grúi hafi fyrri náð einslags toppmáli vondskunnar, og fyrst þareptir gèta plágurnar komið. Hvað tíma ákvörðunina áhrærir, er mannanna lifnaður og ásigkomulag vissasti spádómurinn. Minn tilgángur hefir verið, að vara við fráfalli (kristinndómsins), ef nokkrum sálum færra kynni verða, sem hluttakandi yrði þarí; og þegar það (fráfallið) eitt sinn er komið, þá að gjöra mína skyldu (mitt til), að hughreysta hina rèttsinnuðu með spádóminum, en ekki að innbyrla neinum ruglaða hluti (sem fortakslaus ókjör eru).

„henni varð gèfið að brenna manneskjurnar með eldi."
„9. v.: Og manneskjurnar brunnu af miklum hita, og hæddu „Guðs nafn, sem vald hefir yfir þessum plágum, og umvendu sèr ekki til að gèfa honum dýrðina."

Sólarhitinn merkir í Austurlöndunum hina frekustu ángistarþraung; hèr hlýtur þvílík að gánga yfir öll takmörk, og nú merkir dýrið fyrst, einsog Pharaó, að hèr sè Guðs fíngur (sú ástæða við tilfinnanlegar óhamíngjur, sem menn á vorum dögum leitast við að brjóta þá meiníngu niður um, að Guð hafi þarmeð að gjöra,' því engu má skjóta nema til náttúrunnar); en dýrið er harðara enn Pharaó, það heitir engri bót, því síður auðmýkir sig, heldur hæðir (guðlastar). það er sönn veraldar hetja, verðugri að kveðið sè um hetjukvæði, enn faðir þess djöfullinn. Hann er refur, og ekki ljón, nema meðan hann fær framgáng.

## §. 191.

„10. v.: Og hinn fimti engill úthellti sinni skál yfir dýrsins „hásæti, og þess hins sama ríki varð formyrkvað, og þeir „tugðu sínar túngur af kvöl."
„11. v.: Og þeir hæddu (löstuðu) Guð í himninum fyrir „þeirra kvöl, og fyrir þeirra sár, og þeir umvendu sèr ekki „frá þeirra athöfnum."

Æ harðari plágur, því Guð brúkar ætíð þær mýkstu fyrst. Nú vofir eyðileggíng yfir sjálfs dýrsins ríki, en ekkèrt gètur heygt þess íllsku, það ólmast og æðir æ því meira. Guð! hvílíkra tilburða atriði eru enn ókomin í veröldinni! þessa plágu hafa eldri útleggjendur af einfeldni skilið um hina eilífu pínu; en þó ekki sè svo, gèfur dýrsins eptirdæmi (sem enn þá er hèr á jörðunni) litla von um, að hinir fordæmdu í eilífðinni, meðal hverra allt er eitrað, gèti betrast. Hvenær hefir hinn forherðti betrað sig?

## §. 192.

„12. v.: Og hinn sjötti engill hellti út sinni skál á hið mikla „vatnsfall Evphrat, og vatnið þarí þornaði burt, svo

„vegurinn skyldi tilreiðast fyrir þá konúnga frá sólarinnar „uppgaungu."

Bílætið er tekið af því, þegar Cýrus vann Babýlon, eður þó heldur af Ísraelítanna yfirför frá austri yfir Jórdan. Þá Cananítarnir áttu að eyðileggjast, og hinir inntaka hið fyrirheitna land, þeirra hvíldarland, og hin fyrsta borg í því, Jerichó, sem aldrei átti aptur að byggjast upp. Í sjö daga básúnuðu prestarnir í kríngum þennan stað, einsog þær sjö básúnur hèr um talast, og hinn sjöunda dag básúnuðu þeir sjö sinnum, einsog plágurnar eru sjö í hinni síðustu básúnu, þá og borgarmúrarnir hrundu við í seinasta sinni, líkt og dýrsins kraptur við seinustu plágu. Þekkjanleg fyrirmyndan var þessvegna hitt fyrir þessu, og sýnir, að hinn sanni Guð stýrir hvorutveggju. Hèr afmálast einn öblugur framhaldandi óvinur mót dýrinu, en í hverju samhengi, gètur enginn gètskað á, þar tíminn er enn fjarlægur. Menn gèta nærrl því ekki hugsað hèrtil, án þess það veki minníngu um þá upplýsíngu og kristinndóm og siðafegrun, sem nú er verið að útbreiða sunnarlega og austarlega í Austurálfunni.

§. 193.

„13. v.: Og eg sá af drekans munni, og af dýrsins munni, „og af hins falska spámanns munni, koma út þrjá óhreina „anda, einsog fenjapöddur (Fröer),"

„14. v.: Því það eru djöfullegir (dæmoniskir) andar, „sem gjöra teikn, er gánga út til jarðarinnar og alls jarðríkis konúnga, að safna þeim saman til hins almáttuga „Guðs mikla stríðsdags."

„15. v.: Sjá! eg kèm einsog þjófur; sæll er sá, sem vakir „og gjætir sinna klæða, svo að hann ekki gángi nakinn og „þeir sjái hans blygðun."

„16. v.: Og hann safnaði þelm til þess staðar, sem kallast „á Hebraisku Harmageddon."

Hèr er mikið að segja um.

§. 194.

Það í öllu tilliti í mesta lagi óguðlega, í mesta lagi lastafulla og í mesta máta guðlastandi dýr, og þess ríki, er nú í ýtrustu formyrkvun og háska; en að meðkènna Guðs sannleika er ei af því fáanlegt. Sú helvítis þríeiníng (hvert orðatiltæki eg vona hèr megi vel standast) dýrið, þess faðir, og þess andi hinn falski spámaður, gjöra þessvegna sitt frekasta, því forherðtur heiðinn glæpafyllíngar-andi gjörir þau öll að einu, og útsenda ennþá af sínum munnum þrjá sèr undirgèfna anda, sem þó sýnast vera nokkuð mismunandi hver frá öðrum og sem gjöra fals-furðuverk; þeir gèta ogsvo vel talað uppi manneskjur sinnaðar eptir heiminum; en að öðruleiti hefir tal þeirra litla innvortis dáð, og líkjast í því suðandi fenjapöddum (eg gèf til eptirþánka, hvert engir allareiðu nú taka að líkjast í ræðu, anda og krapti þesshátttar öndum); þessir eiga að yfirtala alla jörðina til að fara í stríð með dýrinu í móti Jesú, til að halda orustu til þrautar, á Guðs mikla stríðsdegi, hvarum Jóel talar 3, 2. 11—19.; en þar Jesús nú vill gánga framfyrir sinn her og slá sinn mikla óvin á þeim sama degi, sem sèrílagi kallast í ritníngunni hans tilkomudagur; og þá er að óttast fyrir, að við hans komu margir kristnir, sem fyrir laungu eru opinberlega frásnúnir dýrinu, muni þó máskè verða saurgaðir af því, eða ekki þannveg ásigkomnir, sem þeir ætti að vera við hans komu; þá talar hann til þeirra kjærlega, mitt í þessum útbúníngi, að þeir skuli hafa gát á sínum klæðum, hans lærdómi og hans rèttlæti, og ekki verða naktir, þegar hann kèmur. Það er sú tilkoma, sem hann talar um, þá hann segir: einsog það gèkk á Noah dögum, og svo frv. Þau orð heyra ogsvo til dýrsins tíð enn fyrri, meðan það var enn í styrk sínum; þegar þeir segja: þar er friður og tryggleiki, þá er ólukkan þeim nærri; og það er líklega einninn þessi tilkoma, sem þeir segja um: hvar er fyrirheit um hana, m. m.?

Staðinn, áhrærandi, hvar hin stríðandi veldi eiga að mætast, þá er eptir Guldbergs meiníngu bílæti þartil dregið af fjallinu við Megiddo, hvar Cananítarnir urðu slegnir,

og nafnið Harmageddon er og sagt að merki bölvaða hermenn. Orustuna sjálfa á hinum mikla bardaga-degi færir sjónin ekki út hèr til enda; það kèmur fyrst í 19. kapítulanum; af því það, sem fullframkvæmt er í tilliti annara Krists óvina, áður enn þessi orusta skèður, verður að talast um fyrst; einasta útfærist hèr sú seinasta skál, til þess atriðið verði fullt, og skálirnar aðskiljist ekki.

§. 195.

„17. v.: Og hinn sjöundi engill úthellti sinni skál í loptið;
„og mikil rödd gèkk út af musterinu í himninum frá há-
„sætinu, sem sagði: Það er skèð (fullkomnað)."
Þetta er merkilegt.

§. 196.

Sjö innsigli voru opnuð í örlaganna bók; í hinu sjöunda inniföldust sjö básúnur; í sjöundu básúnu aptur sjö hinar síðustu plágur, og í sjöundu plágu fullkomnast Guðs leyndardómur, hans dómur yfir Jesú óvinum. Óefanleg röksemd fyrir því, að bókarinnar undirlag og augnamið tapast, ef sjö básúnurnar eru taldar samsíðis innsiglunum; fyrir utan að þetta samstemmir betur historíunni. Hvílík niðurraðan!

§. 197.

Hóran hin mikla Babýlon hafði verið fyrri enn dýrið, en gèkk seinast samsíða dýrinu. Um hennar verkun og stjórnartíð er allareiðu talað, en ekki hana sjálfa, af því hún komst ekki vel inn í þá niðurröðun, sem bókin fer eptir, án þess að rugla hana. Dýrið hafði að nokkru leiti eyðilagt hana, meðan það var enn í mætti sínum, sem seinna skal heyrast; en hèrumbil undireins og dýrið eða litlu áður hættir hún að vera lengur til (máskè af því hún hafi toppmælt sínar syndir með því, að þjóna því líka, því hennar eyðileggíng sýnist tvöföld, sumpart að því leiti hún hafði valdið, og sumpart að því leiti hún var stór staður); hún verður þarfyrir afmáluð hèreptir einsog að hröpun komin, og þá hið helzta

af hennar historíu að undanförnu ásamt með fyrir sjónir leiðt.[1]

[1]) Til þess menn sjái þó einusinni (þó eg haldi þess sè varla þörf hèðanaf), til hvílíkra undarlegra meiníngga sjálfir þeir lærðustu menn neyðast, þegar þeir vilja heimfæra þær sjö síðustu plágur einsog allt annað uppá páfadóminn, innfæri eg hèr ætlanir hinna Ensku þarum. Lowmann reiknar byrjunina á því, að skálunum sè úthellt, frá miðju 9. aldar til enda 19.; Morell frá miðri 16. til enda 19. Í tilliti orðatiltækjanna: jörð, vatn og haf (sem vèr væntanlega enn ekki fullskiljum, en þeir meina sig að skilja, sem trúa, að skálunum sè allareiðu úthellt), bindur Williams þau við viss lönd, Spán og Portúgal, Róm og Savojen; en þar hleyp eg hreint yfir, og gèt einasta þess, að menn vilja halda þessar skálir sèu að miklu leiti innifaldar í þeim plágum og blóðsúthellíngum, sem orsakast hafa af hinni frönsku stjórnarbyltíngu, og Napóleons herförum, samt óspektunum á Spáni og Portúgal, öllum einasta kathólskum löndum, hvar páfadómurinn hefir drottnað og ransóknarrètturinn æðt.

Án þess eg neiti því hreint, að hèr kèmur fyrir einslags líkíng með hinum síðustu plágum, gèt eg þó ei annað enn furðað mig á hinni manneskjulegu skammsýni, og að lærðir menn hafa trúað slíku; en þarf þó ekki að furða mig svo mikið á því, þegar eg aðgjæti orsökina til þess; hún er sú einúngis, að þessir menn vildu enganveginn þola, að ekki væri haldið áfram með að heimfæra hina heilögu bók uppá veraldar tilburðina; en sá hleypidómur þeirra var nú einusinni fastur, að allt bendti hèr til páfans og páfadómsins; hversvegna þeir gátu ei annað enn heimfært spádóminn uppá þessa hluti, sem þeim líka þóttu ógurlegir. En þegar maður aðgjætir, að þessir sömu menn hafa með öllum sínum lærdómi, vegna tèðra orsaka, trúað, einsog alþýða er vön að trúa, að einúngis þeir mikilvægustu hlutir hafi skèð fyrir, við, og um þeirra daga; og að sjálf þriðja öldin, eptir allra sagnaskrifara vitnisburði, hin ógurlegasta af öllum skèlfíngartíðum síðan Nóah flóð, ekki afmálast í Opinberíngarbókinni eins ógurlega, einsog þær í minnalagi voru af þeim sjö síðustu plágum; og þeir kunna ekki betur að gjöra samlíkíngar enn svo, að þeir halda, að fleiri af þessum plágum sèu allareiðu liðnar, jafnvel sú hræðilegasta fjórða í tölunni; þar þó ekki nein af þeim eymdum, sem þeir tilfæra, frátekinni máskè skèlfíngartíðinni á Frakklandi, gètur líkst því, sem opt hefir gengið yfir heiminn á fyrri tíð — þegar menn aðgjæta, að þeir játa sjálfir vottarnir sèu enn ekki deyddir; og þar loksins þriðja engilsins hróp í móti

§. 198.

Vegna þess hin sjöunda básúna varð að umtalast í þessum kapítula, til að koma atriðinu á enda, þá varð líka að talast um dýrsins ríkis fall, jafnvel þó talað sè um hina stóru orustu sjálfa seinna í 19. kapitulanum. Nú er þá sagt fullkomnað, þegar dýrið var ei lengur, og Guðs dómar voru á enda yfir því.

§. 199.

„18. v.: Og þar urðu raddir, og þrumur og eldíngar, og þar „varð landskjálfti mikill, þvílíkur, sem ekki hefir verið frá „þvi manneskjurnar urðu til á jörðunni, þvílíkur landskjálfti „svo mikill.“

„19. v.: Og hinn mikli staður skiptist í þrjá hluti, og heiðíngjanna „(þjóðanna) staðir hröpuðu niður, og hin mikla Babýlon var „hugleidd fyrir Guði, að hann vildi gèfa henni sinnar reiði „áfenga vín-bikar.“

„20. v.: Og hver ey flýði, og fjöllin urðu ekki fundin.“

„21. v.: Og mikið hagl, 100 punda (Centener) þúngt, fèll „af himninum á manneskjurnar; og manneskjurnar hæddu „(löstuðu) Guð fyrir haglsins plágu, því þess plága er harla mikil.“

Við fall dýrsins og allra hins sanna kristinndóms óvina, verður svo mikil umbyltíng, að aldrei nokkur slík hefir verið í heiminum, hvað eð sýnir, ásamt öllu öðru, að dýrsins styrk-

---

dýrinu og þess tilbiðjendum ennþá er ókomið, hverjar báðar kríngumstæður náttúrlega verða að gánga á undan plágunum, þá hið fyrra er straffs-sekt, og hið síðara aðvörun — þá meiga menn furða sig á því rugli, sem er í því, að halda, að allareiðu fjórar fyrstu plágurnar sèu liðnar, já, jafnvel sú fimta skèlfilega, sem á að vera það, að Napóleon fángaði páfann. Eg bið að menn beri þessar útleggíngar hleypidómslaust saman við mína tilraun yfir 16. kapítulann og tímaröðina hjá mèr í því heila, og dæmi svo, hvað sannlegast er. Hvílíka smámuni hafa menn þó ei viljað láta Opinber. bókina innihalda, og gjört hana grunsama með því, að finna í henni fyrirsagnir, sem á margan hátt, og um marga hluti, gèta útlagst náttúrlegar, samt með því, að eigna henni þvílíkt tímarugl fram og aptur (fyrr eða síðar) Præposteritet.

leiki hefir óendanlega yfirgèngið hvað páfans á vorum dögum er orðinn — hin mikla Babýlon á þá líka hreint að eyðileggjast — en ennþá munu manneskjur verða til, ein vesæl og hjálparlaus eptirleif af dýrsins ríki; yfir þessa skal einninn koma þúng hefnd, einsog haglið yfir Cananíta á flóttanum í orustunni miklu hjá Gíbeon við Jesús Núns- eður Naveson, þar þessir og svo í spádóminum kallast með miklu meira rètti bölvaðir, sem hafa átt stríð við Jesúm Krist, og mega ei undan komast. En miðt undir þeirri hefnd hæða (guðlasta) þeir þángað til þeir eru engir lengur. Svo sterk mótspyrna er þar í milli Guðs og dýrsins, að enginn af þess fylgjendum gètur auðmýkt sig fyrir honum.

Hèrmeð ætla eg að litla bókin sè á enda, og ekki fyrst við lok 19. kapítula (hvarum þó hver kann halda það honum sýnist), en síðan heldur hún bókina til lykta.

---

## Millibils atriði.
### Útleggíng engilsins.

---

### 17. kapítuli.

§. 200.

„1. v.: Og einn af þeim sjö englum, sem höfðu þær sjö skál-
„ar, kom og talaði við mig og sagði til mín: kom! eg vil
„sýna þèr dóm hinnar miklu hóru, sem situr á mörgum
„vötnum.“

„2. v.: Með hverri konúngarnir á jörðu hafa hórast, og þeir,
„sem búa á jörðunni, eru drukknir orðnir af hennar hór-
„dóms-víni.“

þessi kapítuli, útleggíng engilsins sjálfs, er einn lykill, án hvers hvorki Jóhannes eða nokkur annar, hefði gètað fengið grundvöll í bókarinnar merkilegustu spádómum; hann hefir og líka í sèr mikið myrkt; en sannar þó til fulls, að bókin er frá Guði, þar enginn skapaður andi gat af sjálfum sèr sagt það fyrir á Jóhannesar dögum, sem hèr er ljóslega sagt í enda útskýríngarinnar.

§. 201.

„3. v.: Og hann flutti mig burt í eyðimörku í anda (frá mèr „numinn), og eg sá konu eina, sem sat á skarlatslitu (fagur-„rauðu) dýri, fullu með löstunarnöfn, og sem hafði sjö höf-„uð og tíu horn."

Menn þekkja hèr aptur dýrið af hafinu, á því situr hún; það verður að sjást aptur (koma fyrir sjónir) fyrir hennar sakir, af því hún sat á því.

§. 202.

„4. v.: Og konan var klædd purpura og skarlati, og gullbúin „með gulli og dýrmætum steinum og perlum, og hafði gull-„bikar einn í sinni hendi, fullan af andstygðum, og hennar „hórunar óhreinleika."

„5. v.: Og á hennar enni skrifað það nafn: Leyndardómur, „Babýlon hin mikla, móðir hórdómanna og andstygðanna „á jörðunni."

„6. v.: Og eg sá konuna drukkna af blóði hinna heilögu, og „af Jesú votta blóði, og eg furðaði mig, þá eg sá hana, „með mikilli furðu."

Að konan situr á dýrinu, sem merkir samanlögð ríki, er mjög náttúrlegt, þar konúngar drýgja hór með henni, taka við hennar Guði og Kristi ótrúa lærdómi; og er viðurkvæmileg afmálun; hún leiðir og stjórnar þeim og þeir bera hana; hún er prýdd með gulli, purpura og gimsteinum, og einsog dýrið öll skarlatsrauð, bæði í tilliti blóðgirni sinnar, og eptir bókstafnum. Afguðadýrkun er í hennar bikar, og sálir villandi setníngar, útbreiddar með allrahanda lokkunum. Leyndardómur stóð skrifaður í hennar enni, því það var sannarlega leyndardómur, að hún var ekki sú, sem hún vildi láta halda sig, drottníng í kristninni, heldur Babýlon hin mikla, móðir afguðadýrkunar, villu og allrahanda ódygða á jörðunni, og svo grimm við sannkristna, að hún jós út þeirra blóði í straumum. Þetta lèt hún dýrið, sem hún sat á, liðsinna sèr að vinna. Jóhannes hafði sèð margar undarlegar sjónir, en furðaði sig á engu einsog að sjá hana, hann sá, að hún hafði ekkèrt við sig

af afguðadýrkun hinna fornu heiðnu stjórna; heldur þann tælíngarhátt, sem hann fèkk ei skilið mögulegur væri.

§. 203.

„7. v.: Og engillinn sagði til mín: hví furðar þig? Eg vil „segja þèr þeirrar konu leyndardóm, og dýrsins, sem ber „hana, sem hefir þau sjö höfuð og tíu horn."

„8. v.: það dýr, sem þú hefir sèð, það var og er ekki, og mun „koma upp af afgrunninu, og fara burt til fordjörfunar, og „þeir munu furða sig á því, sem á jörðu búa, og hverra „nöfn ekki eru skrifuð í lífsins bók, frá því grundvöllur „veraldarinnar var lagður, þegar þeir sjá dýrið, sem var og „er ekki, þó að það sè[1]."

„9. v.: Hèr er það sinni, sem vísdóm hefir.

„þau sjö höfuð merkja sjö fjöll, sem konan situr á; og þau „eru líka sjö konúngar."

„10. v.: þeir fimm eru fallnir, og einn er, og hinn annar er „enn ekki kominn, og þá hann kèmur, á hann að vara stutt„an tíma."

„11. v.: Og dýrið, sem var og er ekki, það er hinn áttundi „sjálfur, og er út af þeim sjö, og fer burt til fordjörfunar." Hèrum er mikið að segja.

---

[1]) þau orð: var og er ekki, þó það sè, útleggur Wiiliams og þeir, sem hann vitnar til, svo sem þanninn:

þeir voru forðum heiðnir afguðadýrkendur, en nú ekki á þann hátt, en halda þó við undir öðru nafni og atferli, ætíð heiðnir í hjarta, og fullir af ofsóknaranda, þó þeir kallist ekki heiðnir. þetta á nú að sanna, að hèr meinist líka með afgrunnsdýrinu páfans þènarar, en eg vísa til minnar útskýríngar-tilraunar §. 204—205 — þó — liggi nokkuð andlegt í þessum dulu orðum, samkvæmt meiníngu hinna Ensku, hví gátu menn þá ekki skilið þau þannig: það var fullkomlega heiðið dýr, og ofsókti kristinndóminn, er nú (nefnilega undir páfadóminum) ekki svo, jafnvel þó það sè, það er: heiðið og ofsækjandi með óberlegra hætti, en mun uppkoma af afgrunninu, nefnilega alheiðið, og með helvítis fulla krapti undir annari mynd enn það var þá það bar hóruna? Er ekki þetta að minnsta kosti meira óþvíngað, og betur leiðt til lykta enn hinar útleggíngarnar?

§. 204.

þessi hluti engilsins-útleggíngar, sem upplýsir, að dýrið af afgrunninu verður til, eður hefir sinn fyrsta uppruna af hafdýrinu, er þó í öðru tilliti einhver hinn vandasti staður í allri bókinni. Engillinn sjálfur gètur þess, að hèr þurfi vísdóm. það er þarfyrir ekki mögulegt, að maður gèti fyrirfram útlagt þennan spádóm, að því leiti ei gètur orðið af bókinni sjálfri, og hana hefir Guldberg notað til að skilja mikið þaraf, nefnilega þetta: „konan varð að koma Jóhannesi fyrir sjón-„ir, ef hann átti að læra að þekkja hana á þeim tíma, þá hún „var enn-nú í blóma, þá hún sat á hafdýrinu, þessvegna „ekki í tímaröð við fyrra kapítula nálægt dýrsins falli eður „undir sjöundu básúnu, ekki heldur seint undir hinni sjöttu, „þá afgrunnsdýrið fyrst var uppkomið.“ það var ekki þènanlegra fyrir Jóhannes til að þekkja hennar eiginlegleika, enn þó hann hefði sèð hana eins og hún var í sjöttu öld eða fyrri; hann sá hana þessvegna í hennar veldi fyrri enn dýrið af afgrunninu var uppkomið, og dýrið af hafinu, sem bar hana, varð hann að sjá nálægt sama tíma, ef sjónin átti ekki að vera raung. Hann sá þá dýrið af hafinu, eptir því, sem Guldberg meinar, með sjötta höfðinu, sem hann heldur sè það sama, sem dauðsært var og að því leiti dauðt, en það átti að verða lifandi þegar það kjæmi upp aptur af afgrunninu með sjöunda höfði, það hafði þá verið — lifandi, nefnilega: var það ekki nú þegar hann sá það, þó það væri til, en á að koma upp af afgrunninu, og fara aptur seinast burt til fordjörfunar. En — þegar það væri uppkomið af afgrunninu, áttu allar jarðlega sinnaðar manneskjur að furða sig yfir til hvers veldis það var komið, eptir það, að það var endurlifnað af sínu dauðlega sári. þau sjö höfuð merkja sjö fjöll, þar sem talað er um drekann, því heiðna Róm stóð á sjö fjöllum; þau merkja og sjö fjöll í tilliti konunnar, sem sat á þeim (líkamlega), því hún var kristna Rómaborg; en í tilliti dýrsins merkja þau sjö konúnga eður æðstu ríki, sem koma upp hver eptir annan, og sem hver á sínum tíma á að vera helztur af þess samsetta ríkis stjórnarlíkama. Nú þegar Jóhannes sèr dýr-

ið, málast það fyrir honum ásamt, á þeirri tíð, þá fimm af þessum höfuð-stjórnum (konúngum) eru fallnar, og þessvegna dauð og hángandi höfuð, og það sjötta, með hverju dýrið nú sýnist að lifa, er dauðlega sært; hið sjöunda skal koma, en vara stutta stund; og hann er dýrið af afgrunninu eður dýrið með sjöunda höfði? (Guldbergs ætlan); en sjá nærstkomandi §. betur.[1]

## §. 205.

Þetta er nú Guldbergs útleggíng, og svo skarp- og djúp-sinnug, sem væntast kunni af nokkurri manneskju híngaðtil; sannlega hefir hann einn leyst upp hinn stærsta knút, sem máskè annars væri óleystur ennþá, og væntanlega haft mikla orsök til að trúa, að sjöunda höfuðið væri afgrunnsdýrið. En þar engillinn segir, að hèr þurfi vísdóm, og það máskè jafnvel eptir vora daga, þá er eg ekki fullviss í að þetta sè rètt skilið: það var og er ekki m. m., eða að dýrið með sjöunda höfðinu, sem á að vara stutta stund, sè dýrið af afgrunninu, þar það kallast hinn áttundi sjálfur, og af eður útaf þeim sjö. Guldberg játar og, að nokkuð myrkt og óuppleyst sè í þessu: hinn áttundi sjálfur; en heldur, að það kunni að verða dýrsins Repræsentant (umboðsmaður eður fulltrúi), einn af þeim sjö; skyldi hinn áttundi vera þvílíkur fulltrúi, og teljast útaf fyrir sig, væri hann líka eptir Guld-

---

[1]) Hvað Williams segir um höfuðin, hèrumbil eptir Newton, ætla eg ekki að leitast við að reka, þar fyrstu höfuðin gjörast að hinum fyrstu rómversku stjórnarformum, konúngum, Consúlum, o. s. frv., fleztöllum fyrir Jóhannesar daga og þvílíkum, að dýrið aldrei undir þeim bar hóruna, eða svo mikið sem orðið til; hvartil slíkir ritsmiðir hafa leiðst af þeirri hugarmynd, að Jóhannes hafi sèð hóruna einsog hún var á hans dögum, þá hún ekki var svo mikið sem orðin hóra og ekkèrt dýr bar hana — hvað allt fellur af sjálfu sèr, því hvað hafði spámaðurinn eða Krists kyrkja að gjöra með fornu Rómverja, konúnga, Consúla, Decemvira og Dictatóra, og nær báru þeir þá Kristó giptu ótrúu kyrkju? Það gjæti nærri þenkst útþenkt til að koma öllu til að passa uppá Róm, sem ei gat skèð öðruvísi, enn við þvílíkar ónáttúrlegar heimfærslur, hvaraf allt verður í rugli.

bergs meiníngu dýrsins bílæti, sem ætti að tilbiðjast. Og þó eg hafi hreift, að nokkuð annað gjæti orðið það, og haldi hinn áttundi sè sjálft afgrunnsdýrið eða þess höfuð, finn eg mig ofveikan í þessu efni til að bæta nokkru verulegu við það, sem Guldberg hefir sagt; einasta vari menn sig við að halda það fyrir víst, að sjöunda ríkið, sem stutta *) stund á að vara, sè sjálft dýrið af afgrunninu, sem ekki sýnist að vara svo stutta stund; því það er ekki ólíklegt, að öll höfuðin sjö standi undir páfadóminum; hin útleggíngin kynni við reynsluna að bregðast.

## §. 206.

„12. v.: Og þau 10 horn, sem þú hefir sèð, eru tíu konúng-„ar, sem ennþá hafa ekki meðtekið ríkið, en taka vald sem „konúngar eina stund með dýrinu."

„13. v.: þessir hafa eina meiníngu, og þeirra vald og makt „munu þeir ofurgèfa dýrinu."

þar dýrið var vanmáttugt þegar Jóhannes sá það, voru þessir tíu konúngar ekki í þess þjónustu; en þá það stígur upp sem afgrunnsdýr, verður þeirra konúngsríkja-makt að þess makt, og þess eiginlegasta ríki. Allt út sjónir, sem ei hafa sýnt sig ennþá ljóslega.

## §. 207.

„14. v.: þessir munu stríða við lambið, og lambið á að yfir-„vinna þá, því það er drottnanna drottinn, og konúnganna „konúngur, og þeir með því kölluðu, útvöldu og trúföstu."

Krists útvöldu skulu sigra með honum á hinum mikla stríðsdegi, þá hann eyðileggur dýrið; með hverjum hætti vitum vèr ekki.

## §. 208.

„15. v.: Og hann sagði til mín: þau vötn, sem þú hefir sèð, „þar hóran situr, eru fólk og skarar, og heiðíngjar (þjóðir) „og túngumál."

---

*) Dynasti frá 1789 til 1814 varaði víst stutta stund. Afskr. athugas.

„16. v.: Og þau tíu horn, sem þú hefir sèð á dýrinu, munu „hata hóruna og gjöra hana eyði og nakta, og eta hennar „hold, og uppbrenna hana með eldi.“

„17. v.: Því Guð hefir gèfið í þeirra hjörtu að gjöra hans „meiníngu (útfæra hans ályktun og það í einíngu) og að „gèfa dýrinu þeirra ríki, þángaðtil Guðs orð eru fullkomn„uð.“ [1]

---

[1]) Orðin og orðtökin í öllu 16. og 17. versi, taka fyrir allan efa í móti þeim, sem halda að afgrunnsdýrið sè hið sama, sem ber hóruna. Hverninn gètur hèr umgètin meðferð komið saman við að þjóna henni? Og vel að merkja, að þetta dýr skal þekkjanlega ríkja eptir hóruna, og eiga stríð við Kristum sjálfan; það er óskiljanlegt, að það í þessu stríði fylgi hórunnar, síns í mesta lagi hataða óvinar og eyðilagða óvinar, grundvallar ástæðum, og vera verri í þeim enn hún. Nei, það hatar hóruna og eyðileggur hana, öldúngis á sama hátt, sem frekasta vantrú hatar og eyðileggur klerkadrottnunar hjátrú; og það er ljóst, að þeir konúngar, sem hafa ofurgèfið því sína makt, hafa gèfið sig undir nokkuð annað enn páfalega hjátrú, ransóknarrètt, sem kallast kristinndómur, og annan klerkaveldis grimmleík. (Nú í 6 ár síðan eg byrlaði mína tilraun hafa nokkur ný, áður kathólsk ríki, sýnt sig í að hata og ræna hóruna, munu þau ei líkust til að fylgja afgrunnsdýrinu, því hver á að ræna hana og eyða nema það og þess fylgjarar)? Það er á móti veraldarinnar gángi, ef það og þess fylgjendur ekki hefði tekið fyrir sig aðrar ástæður, enn sá hafði, sem þeir hötuðu og eyðilögðu; og hvílíkar ætti þær að vera, ef ei nýtt vantrúar óhóf? Það stendur hvergi um hóruna, að hún stríði við lambið, enn síður ætti það að standa um þau ríki, sem hún sat á; hún málast alleina sem blóðþyrst og villandi hóra, það er: sem grimmur afguðadýrkari, sem tælir allt annað fólk til að dýrka afguði með sèr jafnframt sönnum Guði, og hversu nákvæmlega hefir ekki þessi spádómur fyllst? Eins ljóst og þekkjanlega mun hinn uppfyllast, um það dýr, sem ekki einúngis stríðir andlega við þá tvo votta, heldur með fylgi sinna konúnga við lambið sjálft, það er: neitar, að Jesús sè Guðs sonur og hafi endurleyst mannkynið, og uppfyllast ei með snúnum útleggíngum (uppá kathólska), heldur bókstaflega, eptir þeim þánkahætti, sem Jóhannes eignar Anti-Kristinum. Hverninn sem það allt gengur til, verður mín fasta meiníng, þángaðtil eg sannfærist með sterkari rökum, að jörðin verði eins óhæf sem híngaðtil að taka á móti Kristí hyld, hvert páfadómurinn steypist,

Hóran situr ekki á dýrinu eptir það, að það kèmur upp af afgrunninu, það stjórnar sèr sjálft; en áður sat hún á mörgu fólki og þjóðum með sínu svikaveldi. Nú vill Guð snúa því svo, að afgrunnsdýrsins horn, þeir tíu konúngar, sameini sig um að eyðileggja hana, meðan dýrið ennþá er í makt sinni; og nærri þess falli sýnist það af því undanfarna, að Guð vilji sjálfur gjöra útaf við hana.

§. 209.

„18. v.: Og konan, sem þú hefir sèð, er hin mikla borg, sem „ríki hefir yfir konúngum á jörðunni."

þetta gat Jóhannes aldrei grunað eða nokkurn á hans dögum, að Róm, sá staður, sem hann þekkti að ríkti yfir konúngum, og sem heiðinn ofsókti stundum kristna, mundi verða kristinn, og þó hóra og dýrka afguði, dylja samt sitt sanna ástand, tæla fólk, ofsækja sannkristna og drepa þá hópum saman, og loksins ætti hún að verða rænd og eydd af sínum fyrri þjónustumönnum, og þar eptir dæmd af Guði til eilífrar eyðileggíngar, sem vèr nú skulum heyra. Við þennan kapítula hafa sannarlega Waldensar og aðrir ofsóktir huggað sig á sínum dögum, og hèreptir munu víst nokkrir í dýrsins tíð hugga sig við slíkt og fleira í þessari bók.

---

eður ei, og hvað mikið sem Guðs orð á bezta hátt útliðast og leggst á hjarta hennar innbúum, þángaðtil Kristur sjálfur, með einni oss ókunnugri, óvenjulegri aðferð, eyðir sínum óvinum, og sýnir sig með sannfærandi móti fyrir alla. Samt er núverandi trúarboða verk ágjætur undirbúníngur fyrir seinni tíðir; og sjálf uppkoma fyrrverandi flokkamanna (Secta), að því leiti, sem þeirra lærdómur virðist kristilegur, var sem ljós í dögun, sem verka skyldi til ágjætari viðleitni. Í flestu þessu áliti verður biskup Hofkin mèr samdóma, sem fyrr er gètið.

# Fimta Deild.

Fullkomnun Guðs dóma.

## Fjórða höfuð-atriði,

sem nókvæmari útfærsla hins undanfarna um Babýlonar eyðileggíngu.

---

### 18. kapítuli.

§. 210.

„1. v: Og hèreptir sá eg einn engil, sem fór ofan af himnin-
„um og hafði mikinn krapt, og jörðin varð upplýst af birti
„(ljóma) hans."
„2. v.: Og hann hrópaði með krapti með mikilli röddu: hún
„er fallin, hún er fallin, Babýlon hin mikla, og er orðin
„bústaður íllra anda, og geymslustaður hvers óhreins anda,
„og geymsla hvers óhreins og haturlegs fugls."
„3. v.: Því af hennar hórunar áfenga víni hafa allir heiðíng-
„jar (þjóðir) drukkið, og konúngarnir á jörðunni hafa hór-
„ast með henni, og kaupmenn á jörðunni eru orðnir auðugir
„af hennar stórfenga, mikla sællífi."

Þessarar táldrægu maktar eyðileggíngu er lýst ýtarlegar enn öllu öðru, og allra annara stjórna og makta eyðíngar lýsíng er samantekin í eitt í móti henni, og óskað hamíngju fyrir hennar fall, hún hafði bæði verið í mesta máta óguðleg, og líka ríkt lengi.

§. 211.

„4. v.: Og eg heyrði eina aðra rödd af himninum, sem sagði:
„gángið út frá henni, mitt fólk! svo þèr skulið ekki verða
„hluttakandi í hennar syndum, og ekki fá (neitt) af hennar
„plágum."
„5. v.: Því hennar syndir ná allt til himinsins, og Guð hefir
„minnst á hennar íllskuverk."

Jesús aðvarar hèr sitt fólk kjærlega að flýa frá þeim hræðilega vonda og synduga stað (vèr megum nú kalla hann svo eptir englinum), sem lýst er einsog Sódóma, og telst full-

þroskuð til eyðíngar fyrir sinn óguðlegleika; en ekki er hèr heldur gètið, að hún eigi stríð við lambið, þar mun hún eigi hafa hug til.

§. 212.

„6. v.: Endurgjaldið henni sem hún hefir gjört, og gjörið „henni það tvöfaldlega eptir hennar verkum, í þeim bikar, „sem hún hefir byrlað, byrlið tvöfaldt fyrir hana."

„7. v.: Svo mikið, sem hún hefir gjört sig veglega og framið „sællífi, svo mikið gèfið henni af pínu og sorg, af því hún „segir svo í sínu hjarta: eg sit (sem) ein drottníng (og er „drottníng) og er ekki ekkja, og skal ekki sjá sorg (barn-„leysi)."

„8. v.: Þarfyrir skulu hennar plágur koma á einum degi; „dauði (drepsótt), harmur (barnleysi) og húngur; og hún „skal brennast upp með eldi; því sterkur er sá Drottinn „Guð, sem dæmir hana."

Guldberg víkur á (mikið vel að venju), að þetta sè ekki talað til Guðs fólks, heldur hórunnar eyðileggjara, afgrunnsdýrsins og þess fylgjenda, meðan það enn nú var á dögum.

§. 213.

„9. v: Og konúngarnir á jörðunni munu gráta hana, og barma „sèr yfir henni, þeir, sem hafa framið hórdóm með henni „og lifað í kjæti, þegar þeir sjá reykinn af hennar bruna."

„10. v.: Þeir standa lángt frá fyrir ótta sakir hennar pínu, „og segja: vei, vei! Babýlon hinn sterki staður! því á „einni stundu er þinn dómur kominn."

Það sýnist sem þessi eyðileggíng verði þegar klerkavaldinu er kollkastað af dýrinu, því páfadómurinn gjæti þá enn sett sig í móti vantrúnni, ekki svo fyrir Guðs dýrðar sem eigin sakir, og páfinn og hans ríki þó fyllt mælir synda sinna með því, að mótstanda útbreiðslu Guðs orðs. Við það tækifæri gjæti ei alleina hins mikla staðar fornu töfranir inntekið jarðarinnar fólk, og komið því til harmaklögunar, og eru fyrst nefndir til konúngarnir. Er ei sagt það sèu þeir 10 konúngar, sem eig-

inlegast fylgja dýrinu, heldur margir aðrir þarfyrirutan, sem enn hylla páfadóm, fyrirutan marga vissulega stjórnandi klerklegs umdæmis herra, erkibiskupa, o. s. frv. og aðra fursta, sem konúngar kunna að kallast. Og er það ekki að furða um hina klerklegu stjórnendur, sem sjá, að þeirra sjálfra fall hljóti að fylgja páfans — fær og skèð, að jafnvel þeir 10 konúngar, sem hata hóruna, eyðileggi hana óviljandi sem Títus Jerúsalem, en meðan hún er ekki eyðilögð, gètur ekki vantrúarinnar ríki drottnað yfir öllu, sýnist því að þetta verði að skè nokkuð snemma á dýrsins tíð — en þar sagt er, að Rómaborg sjálf verði með öllu eyðilögð, og er að sjá verði af Guði sjálfum, mjög skömmu fyrir eða rètt við dýrsins fall, svo gjæti verið það, sem eg í einum stað hefir hreift, að dýrið endurbætti hana og hefði til sinnar þjónustu, eður þó að minnsta kosti kyrkjulöndin, áður enn seinasta eyðileggíngin, sem gètur í 21. v., gengi fram. Á annan hátt gèt eg ekki vel komið þessu saman, og þó kann það að verða miklu öðruvísi, sem menn nú ekki fá ágètskað, hversu nákvæmlega, sem það kèmur fram.

## §. 214.

„11. v.: Og kaupmennirnir á jörðunni munu gráta og harma „yfir henni, þar enginn kaupir framar þeirra vöru.“

„12. v.: Vöru af gulli og silfri, og dýrmætum steinum og perl„um og dýrum, línklæðum, og purpura og silki og skarlati, „og allrahanda ilmandi viði, og allrahanda kèrum af dýr„mætu trè, og kopar og járni og marmara.“

„13. v.: Og cinnamomum og reykèlsi, og salve og virak, og „olíu og hveiti, og similíu (mjöl) og kvikfènað og sauði, og „hesta og vagna, og mannanna líkami og sálir (þræla).“

„14. v.: Og sá ávöxtur, sem þín sál hafði lyst til, er frá þèr „vikin, og allir hlutir, sem voru feitir og glansandi, eru frá „þèr viknir, og þú átt ekki að finna þá framar.“

„15. v.: Þeir kaupmenn með þvílíka vöru, sem eru orðnir „auðugir af henni, munu standa lángt frá, sakir ótta henn„ar pínu, gráta og syrgja (barma sèr).“

„16. v.: Og segja: vei! vei! hinn mikli staður, sem búinn var
„með dýrum línklæðum, og purpura og skarlati, og gullbú-
„in með gulli og dýrum steinum og perlum; því svo mikil
„auðæfi eru eyðilögð á einni stundu.“

„17. v.: Og allir stýrimenn (skiparar) og allur sá hópur, sem
„kaupfarir hefir á skipum, og allir, sem um hafið fara (í
„þeim eyrindum), stóðu lángt frá,“

„18. v.: og æptu, þá þeir sáu reykinn af hennar bruna og
„sögðu: hver var lík þeirri miklu borg?“

„19. v.: Og þeir fleygðu dupti á höfuð sèr, og hrópuðu, þá
„þeir grètu og hörmuðu, og sögðu: vei! vei! hinn mikli
„staður, i hverjum allir eru auðugir orðnir, sem höfðu skip
„á hafinu, af hans dýrindum (dýra yfirlæti), því hann er
„eyðilagður á einni stundu.“

Víst má Rómaborgar eður kyrkjuríkisins eyðíng orsaka kaupferðunum tjón á yfirlætis-vörunni og margri annari; en þó sýnist, að annaðhvort verði hún að valdi og auðæfum, höndlun og íllsku á ný áður enn þetta skèður, eður að spádómurinn gjöri meira úr því, sem ekki er yfirmáta mikið, enn hann er vanur. Að sönnu málar hann með orðtæki hinna fornu spámanna þann stað, sem á Jóhannesar dögum var yfirmáta mektugur, og hinnar fyrir kristna og aðra laungu þareptir stórmerkilegu borgar forlög; hversvegna spádómurinn máskè þurfti að vera ýtarlegur, og einkum til huggunar fyrir þá, sem ofsóktir voru meðan hann var í stærsta blóma sínum; en það er þarfyrirutan líka trúlegt, að þeir, sem harma hann, telji upp samantekið í eitt allt hans forna og seinna ágjæti, sem menn opt plaga að gjöra við þvílík tilfelli.

## §. 215.

„20. v.: Fagna þú yfir henni, þú, himin! og þèr, heilagir post-
„ular og spámenn! því Guð hefir dæmt yðar dóm (rètt) á
„henni.“

Himininn og þeir, sem dýrðlegir voru gjörðir, hafa allt annað álit enn hinar jarðlega sinnuðu manneskjur, þarfyrir hata þær þá; en mun það ekki eiga svo að vera, að menn gleðji sig

yfir Guðs rèttlæti í því, að hefna fyrir óteljandi þúsundir saklausra, einsog yfir öllum hans verkum, og kènni í brjósti um hina píndu dygð meir enn þá frekjufullu ránglætismenn, þegar þeir fá hefnd?

§. 216.

„21. v.: Og einn sterkur engill lypti upp steini sem mylnu-
„steini miklum, og fleygði honum í hafið, og sagði: svo
„skal Babýlon hinn mikli staður kastast í burt með flugi,
„og finnast ekki framar."

Málverk þess, að hún hverfi eilíflega sem steinninn á hafsbotni.

„22. v.: Og hörpuleikara og saungvara og pípublásara og bá-
„súnublásara hljómur, skal ekki heyrast í þèr framar, og
„ekki nokkur kunnstverkamaður í nokkurri kunnst finnast
„í þèr framar, og kvarnarhljóð ekki heyrast í þèr framar."

„23. v.: Og ljósið skal ekki skína í þèr framar; og brúð-
„guma og brúðarödd skal ekki heyrast í þèr framar; því
„þínir kaupmenn voru stjórnendur á jörðunni, af því allir
„heiðíngjar eru töfraðir af þinni fjölkýngi (töfradrykk)."

Allt sýnir ljóslega, að hin babýloniska hóra á að brennast upp og eyðileggjast, og aldrei (síðan) að eilífu byggjast upp aptur; að hennar kaupmenn hafa verið stjórnendur á jörðunni, villt og töfrað þjóðirnar, skilur hver, sem þekkir historíuna.

§. 217.

„24. v.: Og blóð spámannanna og heilagra er fundið í þèr,
„og allra, sem slátraðir eru á jörðunni."

Óteljandi kènnendur og sannkristnir hafa líflátnir verið af hórunni á öllum tíðum; og það verður ekki ofmikið sagt þó menn segði, að sá staður hefði úthellt saklausu og herfara blóði samantöldu meiru enn nokkur annar staður á jörðunni; ei kann eg að segja hvað miklu (meira); í öllu tilliti verðskuldaði hann að eyðileggjast, nema til þeirra yfirburða, sem veröldin metur mikils, en Guð virðir ekki. Hans mesta sök

var þó hans sviksamlega meðferð á Guðs orði, grimdarfulla harðstjórn, og framyfir allt, að hann villti allar þjóðir frá sannleikanum. Hann sýnist að fá sína fullkomnu eyðileggíngu nærri því á sömu tíð sem dýrið, eður litlu áður, og verður eyðilagður að eilífu. En nú er eptir að tala um lyktir stríðsins sjálfs á hinum mikla stríðsdegi Drottins, og hvað þar kèmur eptir.

§. 218.

Guldberg innfærir sem tilheyrandi þessum 18. kapítula, nærstskrifuð 10 vers; það er og náttúrlegast; en eg verð að fara að versatali í útleggíngum vorum, tillögðu kapítulanum seinna og halda því, þar hann hefir hèr enga versatölu.

## Milli - atriði

til lofgjörðar innleiðslu.

§. 219.

„1. v.: Og þareptir heyrða eg mikils skara sterka rödd í „himninum, sem sagði: hallelúja! sáluhjálpar-verkunin, og „dýrðin, og lofið og maktin sè Drottni vorum Guði."

„2. v.: Því hans dómar eru sannir og rèttir, og hann hefir „dæmt hina miklu hóru, sem spillti jörðunni með sínum „hórdómum, og hefir hefnt sinna þènara blóðs á henni."

„3. v.: Og þeir sögðu annað sinn: hallelúja! já, reykurinn „gengur upp um alla eilífð."

„4. v.: Og þeir tuttugu og fjórir öldúngar, og þau fjögur dýr „(lifandi) fèllu fram og tilbáðu Guð, sem sat á hásætinu, „og sögðu: amen, hallelúja!"

„5. v.: Og ein rödd gèkk út frá hásætinu, og sagði: lofið „vorn Guð, allir hans þènarar! og þèr, sem óttist hann, „bæði smáir og stórir."

„6. v.: Og eg heyrði sem röddu mikils skara, og sem margra „vatna hljóm, sem sagði: hallelúja! því Drottinn, sá al- „máttugi Guð hefir inntekið ríkið (sýnt sitt konúngsveldi)."

„7. v.: Látum oss gleðja oss og fagna, og gèfa honum dýrð,

„því lambsins brúðkaup er komið, og hans húsfrú hefir til-
„búið sig.“
„8. v.: Og það verði henni gèfið, að færa sig í hreint og
„skínandi (glansandi hvítt) línklæði, en þessi línklæði eru
„rèttlæti heilagra.“
Hèr var nú engin afmálun jarðnesks yfirlætis í öllum þessum fögnuði, og allar tilreiðíngar Kristí brúðar öldúngis ólíkar skrauti hórunnar; hin fyrrnefnda mátti nú tilreiða sig, því hóran var eyðilögð; dýrið kom rètt inní eyðileggínguna, og öll jörðin sá Guðs dóm; hinir sanntrúuðu voru nú rètt komnir að sigrinum allaleið.

## §. 220.

„9. v.: Og hann sagði til mín, skrifa þú: sælir eru þeir, sem
„kallaðir eru til lambsins brúðkaups kvöldverðar; og hann
„sagði (enn) til mín: þessi eru Guðs sönnu orð.“
„10. v.: Og eg fèll niður fyrir hans fætur til að tilbiðja
„hann; og hann sagði til mín: sjá til, að þú gjörir það
„ekki; eg er þinn samþjónn og þinna bræðra, sem hafa Jesú
„vitnisburð; tilbið þú Guð; því sá Jesú vitnisburður er
„(þessa) spádóms andi.“
Hann sagði: er ætíð sagt um engilinn, sem undirvísaði Jóhannesi, þegar ekki aðrar kríngumstæður, eður útþrykkileg orð, sýna annað.

## §. 221.

Jesú kvöldverður hefir verið tekinn af flestum fyrir eilífa sáluhjálp; en hèr í bókinni er allt sagt fyrirfram, sem maður á að taka til íhugunar; hèr meinast þá það sæla ástand, sem hann ætlar nú að innleiða í sinn söfnuð, eptir þessa sína tilkomu. Veröldin, eður mannanna tilvera á jörðunni, í nærverandi ástandi, hnèg nú að aptninum, og þennan aptan vildi Jesús gjöra sínum trúuðum fagnaðarfallan með sinni nærveru, og nákvæmara sambandi við þá, þegar hinn fullkomni sigur væri fyrst auglýstur yfir óvinunum — sjá Sach. 14, 7. — Guldberg heldur, að það hafi ekki verið

nein eiginleg tilbeizla, sem Jóhannes vildi sýna englinum, heldur virðíngaróttafull undirgèfni; en hann vildi heldur ekki taka í móti því, og áleit sig einúngis sem samþjón til Guðs og Jesú dýrðar. Án efa átti þetta eptirdæmi líka að þèna í móti engla og helgra manna dýrkun, sem hóran hafði gjört sig seka í. Þannig er hvað eina niðursett á sínum stað. Hversu lángt er þetta frá allri frekjutrú (sværmerie)! Hversu nákvæmlega allt til Guðs dýrðar!

---

## Fimta höfuð-atriði,

sumpart um tillyktaleiðíngu hinnar sjöundu básúnu, og sumpart það, sem þar eptirfylgði beinlínis — einsog kyrkjunnar seinasta stríðs-atriði.

---

### 19. kapítuli.

§. 222.

„11. v.: Og eg sá himininn opnaðan, og sjá! einn hvítur „hestur, og sá, sem sat á honum, nefnist trúfastur og sann„orður, og hann dæmir og stríðir með rèttlæti."

Kristur, sem fór út í hinu fyrstu atriði, kèmur hèr aptur fyrir þekkjanlega í hinu síðasta, til að vinna fullan sigur á hinum mikla stríðsdegi.

§. 223.

„12. v.: En hans augu eru sem eldslogi, og þar eru margar „kórónur (konúngleg höfuðbönd) á hans höfði; hann hefir „eitt nafn skrifað, sem enginn skildi nema hann;"

„13. v.: og var íklæddur klæði, sem díft var í blóð, og hans „nafn kallast það Guðs orð."

Hans augu sýna þann, sem þekkir hjörtun, og hans mörgu konúnglegu höfuðbönd hans herradæmi yfir öllum konúngum; hans höfuðskart var markað með nafni sem höfuðprestsins, og mörg nöfn hefir hann, en eitt þekkir engin nema hann sjálfur, og þetta er: Guðs orð, samstemma Jóhannis guðspjalli Jóh. 1,; hans klæði sýndist díft í blóð í tilliti hans

óbrigðula sigurs yfir þeim dárlega djörfu óvinum (hver og kallast að troða Guðs vínþrúgu-kèr), og þetta finnst í mörgum fornum spádómum, sem án efa benda til þessa stríðsdags.

§. 224.

„14. v.: Og þeir herrar í himninum (eru) fylgdu honum á „hvítum hestum, klæddir hvítu og hreinu dýrmætu lín„klæði.“

„15. v.: Og af hans munni gèkk út hvasst sverð, (svo) að „hann með því skyldi slá heiðíngjana (þjóðirnar), og hann „mun ríkja yfir þeim með járnvendi (járnvaldsprota), og „hann skal troða hins almáttuga Guðs reiði áfenga víns „pressukèr.“

„16. v.: Og hann hefir eitt nafn skrifað á sínum klæðum „uppyfir mjöðminni: Konúngur konúnganna og Drottinn „drottnanna.“

Það er auðsèð á öllu, að óvinirnir munu sundurknúsast einúngis við hans orð, hans ályktun; og hans herar gjöra ei annað enn horfa á hans sigur.

§. 225.

Nú gèta þeir, sem hafa steytt sig á því, að sagt er Jesús muni stjórna heiðíngjunum með járnvaldsprota, og steyta þá sundur sem leirkèr, skilið hèr hvað það merkir, það er dýrið og hinn falski spámaður og þeirra hjálpendur, sem hafa ofsókt hans söfnuð hið grimmlegasta, niðurdrepið hans orði og svívirðt það, hæðt hann og hans himneska föður, og ennþá eptir margar plágur dirfist opinberlega að berjast við hann. Þessa vill hann sundurknúsa með járnvaldsprota; þeir eru það til uppskèru fullsprottna vínfjall, sem hann á að troða blóðið útaf. Þar er tími (kominn) til, að jörðin hreinsist af þessum holdlegu djöflum, og þeirra yfirmakt og tælíngum.

§. 226.

„17. v.: Og eg sá einn engil, sem stóð í sólunni, og hrópaði „með sterkri röddu, og sagði til allra fugla, sem fljúga

„miðt undir himninum: komið, og safnið yður til hins mikla
„Guðs kvöldverðar."
„18. v.: Og þèr skuluð eta hold konúnga, og hold höfuð-
„manna, og hold hinna sterku, og hold hestanna og þeirra,
„sem á þeim sitja, og allra frjálsra og þræla, og smárra
„og stórra hold."

Hèr er nú annarslags kvöldverður, sem Guð vill gèfa hræfuglunum. Allt er málað á spámanna hátt, allt boðar óvenjulega mikla eyðileggíngu, og úthrópandinn í sólunni svarar til hátignar hins komanda sigurherra.

§. 227.

„19. v.: Og eg sá dýrið og konúngana á jörðunni og þeirra
„hera samansafnaða, (svo) að þeir hèldi stríð í móti þeim,
„sem á hestinum sat og hans herum."

Að síðustu vita menn ekki, þar ekki er frá því sagt (í bókinni), hverninn þessi mikla eyðileggíngar-orusta gèkk til; það fer líka bezt, og er Krists dýrð verðugast, að segja einúngis frá endalokunum.

§. 228.

„20. v.: Og dýrið varð gripið og hinn falski spámaður með
„því, sem teikn hafði gjört fyrir því, hvarmeð hann hafði
„tælt þá, sem tóku á móti dýrsins kènnimerki, og þá, sem
„tilbáðu þess bílæti; þeir tveir urðu kastaðir lifandi í eld-
„sjóinn, sem brennur með brennistein."
„21. v.: Og þeir aðrir urðu til bana slegnir með sverði hans,
„sem sat á hestinum, hvert útgèkk af hans munni; og allir
„fuglar urðu saddir af þeirra holdi."

Þanninn lauk þá hinum miklu atriðum íllskunnar; hvar eptir fylgdi sem um er talað í 16. kap. 18. v. hin ógnarlegasta umbyltíng, sem veröldin hefir sèð og mun sjá.

§. 229.

Maður sèr hèr nú fyrst, að hinn falski spámaður er hinn sami, sem dýrið af jörðunni, er hafði horn einsog lamb, þar

það gjörði teiknin fyrir afgrunnsdýrinu. Og þetta er nú hinn mikli stríðsdagur, sem konúngarnir samansöfnuðust til í Harmageddon, og þeirra aðstoðarlið, sem þrír hinir fölsku andar, er útgengu af drekans, dýrsins og hins falska spámanns munni, höfðu dregið saman. Jesú þókti mál, að dýrið ekki sæist lengur á skoðunarplátsinu, og vildi það eyðilegðist, og það skèði; undir sjöttu skál hafði það fengið banasárið, og undir sjöundu var það ekki lengur til.

Skálirnar eru á enda, og atriðin eru á enda, af hverjum saga hórunnar, sem þó átti að eyðileggjast fyrri enn dýrið, er sem hjá-atriði. Lofsaunguriun eptir þennan sigur, er kominn á undan í 11. kapítula við sjöundu básúnu, og þarf því ei að takast hèr upp aptur, þar þessi eyðileggíng skèði undir sjöundu básúnu, hennar sjöttu og sjöundu skál. Þessar djúpu og sinnugu deilíngar eru Guldbergs og ekki mínar, og eg trúi varla að nokkur á vorri tíð finni þær betri — svo sem eg og ekkèrt, í þessu efni, læri af öðrum útleggjendum — svo er nú Guðs leyndur dómur orðinn fullkomnaður eptir engilsins eiði, 10. kap. 7. v., og allir Krists og hans sönnu kristni jarðnesku óvinir fallnir. Þær heiðnu ofsóknir eru kollsteyptar, villumennirnir orðnir til skammar, vanþekkíngin burttekin, hjátrúin dottin um koll, hóran með öllum sínum útsendurum eyðilögð og brend upp að eilífu, dýrið og hinn falski spámaður varpaðir í eldsjóinn, og allir þeirra hjálpendur og hjálpenda-aðstoðarar slegnir. Djöfullinn er alleina ennþá eptir; en hann verður bráðlega heptur, og á sinni tíð Gog og Magog, sem ekki afreka mikið, og dauðinn, sem eptir Páls vitni verður sá seinasti óvinur, hver fyrst á að undirleggjast við hina almennilegu upprisu og hinn síðasta dóm.

## §. 230.

Eg gèt ekki skilið öðruvísi orðatiltækið: að dýrinu og hinum falska spámanni hafi verið varpað lifandi í eldsjóinn, enn að þeir við þessa Krists tilkomu verði dæmdir sèrílagi, og ásamt með öllum dýrsins ríkis höfðum og öllum þess tælandi talsmönnum, einsog við hinn fyrsta dóm, og einsog þeir

straffssekustu af öllum, þekkjanlega varpaðir í eilífa kvöl, til ævarandi eptirdæmis og aðvörunar við líkum óguðlegleika; því svo segir, að hinir aðrir af þeirra fylgdarliði hafi verið deyddir, og eiga þeir þá að bíða eptir hinum almennilega dómi. Mína gátu hefi eg framsett, að þetta muni fyrirkoma nálægt árinu 2015 eða 2034, eður við þær tíðir, og nokkrar af þeim röksemdum, sem eg meina mig að hafa þarfyrir; en þarum getur nú hver ætlað sem vill. Til vissu mun það víst ekki verða við inngánginn til eilífðarinnar, því þúsund ár eru sögð eigi að koma þar á eptir, og enn þareptir Gog og Magog, fyrrenn hin almennilega upprisa verður.

---

## Sjötta Deild.

### Krists safnaðar hvíldarár og hinn síðasti dómur.

---

### 20. kapituli.

§. 231.

„1. v.: Og eg sá einn engil fara ofanaf himninum, sem hafði „lykil afgrunnsins og mikinn hlekk í sinni hendi."

„2. v.: Og hann þreif drekann, hina gömlu slaungu, sem er „djöfullinn og Satanas, og batt hann um þúsund ár."

„3. v.: Og fleygði honum í afgrunnið, og lokaði aptur, og „innsiglaði yfir honum, svo að hann skyldi ekki svíkja „heiðíngjana (þjóðirnar) framar, þángaðtil þau þúsund ár „verða fullkomin; og þareptir á hann að verða laus litla „tíð."

Hèrum er nú mikið að segja.

§. 232.

Margir kristnir, sem þó hafa trúað satans tilveru og innverkun í veröldina, sem mèr sýnist rèttskilinn kristinndómur líka útheimta, hafa haft þá ætlan, að hann sè bundinn, og hafa án efa tekið það af þessum stað (því eg þekki ekki aðra staði í ritníngunni, hvaraf þeir heldur gátu ráðið það eður vissara), rètt einsog Opinberunarbókin tali jafnvel seinast í

henni um þá hluti, sem fyrir laungu eru skèðir. Til að festa sig á nokkru, hafa menn haldið, að þetta djöfulsins fángelsi muni hafa byrjast við Kristí dauða; en ef svo væri, ætti hann að hafa orðið laus 1034, og það ekki um stutta tíð, heldur til veraldar enda. Hver höfuð-ólíkindi þetta hefir í sèr, mun hver einn sèð gèta; en undarlegt er það ekki, þó einfaldir kristnir, sem með allri hreinskilni hafa meðtekið Opinberunarbókina fyrir Guðs orð, en ekkèrt skilið í henni, og enga hugmynd haft um neina niðurröðun þar í, hafi sumpart þóktst sjá í henni það, sem skèði á Kristí holdsvistar dögum, sumpart hvað skèði fyrir mannsins sköpun, og sumpart síðasta dóm, og hverninn lítur út í tilkomandi eilífð, og allt þetta hefir verið fyrir þeim í rugli í bókinni. Annars upplýsir Bengel vel í sínu ágjæta riti um væntanina eptir Krists komu, hverninn þetta ruglaðist í miðöldunum, svo satan var haldinn laus orðinn á hinum seinustu þúsundum ára, og þúsund ára ríkið umliðið. Vèr vitum, að það er ekki svo. Við Krists dauða var grundvöllurinn lagður til satans niðurdreps og dóms; hans dauði átti að fullnægja Guði og sætta oss við Guð (ekki Guð við oss); en hann átti hverki að sætta djöfulinn við oss, eður oss við hann, ei heldur gjöra oss óhulta fyrir hans eptirsókn; vèr höfðum nú jafnvel meiri krapt til að mótstanda honum enn áður, og hann áttum vèr að brúka. Við heiðninnar fall í Rómverja-ríki fèll satan frá himninum, það er: frá sínu hærsta valdi, en geysaði þó lengi á jörðunni, helzt með fylgi síns sonar dýrsins, sem var hans útþrykkta eptirmynd, og að því leiti miklu skaðlegra, sem það gat framar meðalslaust verkað á manneskjurnar, og hafði enn þá þriðju persónuna til aðstoðar, hinn falska spámann. En nú, þegar þessir og þeirra styrkjenda aðstoðarar fá ósigur til fulls fyrir Kristi, sýnist satan verða hræddur og leggja á flótta, og afmálast tekin á honum og bundinn, og fleygður í afgrunnið, forbyrgi hins eilífa pínustaðar; hann sýnist þessvegna við þennan Kristí sigur, að hafa fengið nýtt stórkostlegt og ævarandi niðurdrep.

§. 233.

Orsökin, hvarfyrir satan var einúngis fleygt í afgrunnið, og ekki í eldsjóinn, er sú, að engill einn var brúkaður til að taka hann, og hann gat ekki dæmt hann; en einkanlega það, að honum á enn að leyfast að gjöra nýa tilraun, eptir lángan tíma, áður enn hann tekur á móti sínu fulla straffi. Að honum er hlíft lengur enn dýrinu og hinum falska spámanni, virðist koma þaraf, að þau álítast að því leiti verri og straffssekari enn hann, að þau breyttu við sinn endurlausnara allt eins fjandskaparfullt, einsog hann, sem enga endurlausn hefir, mundi gjört hafa. Gètur líka skèð, að ekki hefði hollt verið fyrir jarðarinnar innbúa í heil þúsund ár og lengur, að þeir hefði stólað uppá, að hann væri nú að öllu leiti úr vegi.

§. 234.

Vèr sjáum þá nú drekann einninn heptan; en nú þúsund ára ríkið, sem hefir komið misgrun á þessa heilögu bók (hver þó ekki spáir því ein, heldur og Dan. 7, 7., og fleiri spámenn á mörgum stöðum, svo vel sem Kristur sjálfur óljóst, og ýmsar fyrirmyndír) og vakið þá hugmynd, að allir, sem það nefna, sèu frekjutrúarmenn (Sværmere). Mun það ekki hafa sinn grundvöll í þessu? Vèr viljum tala uokkuð þarum.

§. 235.

Að nokkrir af vorra daga ritsmiðum, máskè hálf-rationalistar, eða betur, vilja kalla þúsund ára ríkið gamalt skrímsl, viljum vèr einkis virða; þeir taka qvi pro qvo, og vita ekki um hvað þeir tala. — En — Lúther, og margir lærðir og guðhræddir menn á fyrri og seinni tíðum, hafa þó verið af líkum þaunkum; hvað viljum vèr segja þarum? Menn kynni segja, þess hafi ekki verið von af þeim, að þeir gjæti fengið hina rèttustu hugmynd um þetta (þar vèr gètum það varla heldur), og það á meðan spádómarnir voru svo lítið gagnskoðaðir, og þessi bók einkanlega. Bengel hefir upplýst hverninn sú villa innkomst í miðöldunum, að halda þúsund ára ríkið annaðhvort fyrir umliðið, eða eiga öðruvísi að

skiljast enn spádómurinn hljóðaði. þeir hafa þarhjá trúað, að þeir grunduðu sínar meiníngar á öðru ljósara Guðs orði; og þaraðauki var lærdómurinn um þúsund ára ríkið, sem þó er mikið forn í kristninni, orðinn hataður. Vèr viljum sjá fyrst: hvarfyrir hann var hataður; þarnærst: hvert það ljósara Guðs orð var, sem þeir höfðu í móti honum.

§. 236.

Spener var sá fyrsti á seinni tíðum, sem grunaði nokkuð um Guðs kyrkju betra ástand síðar meir; hans lærisveinar gengu lengra í allrahanda mystiskum og fyrirfram segjandi meiníngum enn hann, og nokkrir leyfðu sinni ímyndun alltof hátt og víðt sveymandi flug; þessir voru kallaðir pietistar af guðræknis-samkomum sínum, og voru yfirhöfuð chiliastar eður forsvarsmenn þúsund ára ríkisins; nokkrir voru kallaðir frekir chiliastar, hverra meiníng ogsvo var rugluð ímyndun frá fornöld; þeir meintu að Kristur mundi í einu jarðnesku, og að nokkru leiti holdlegu, ríki stjórna á jörðunni með þeim heilögu um þúsund ár, í allrahanda sældarlífi, og allir óguðlegir mundu þá verða undirþrykktir. Aðrir voru kallaðir lempnir chiliastar; þeir meintu, að veraldarinnar góða ástand mundi viðvara eins lengi, eður alla hina sjöundu þúsund ára öld frá mannkynsins sköpun, Guðs hvíldar-ár í heiminum til enda; og að hinir heilögu mundu þá nokkurnveginn verða lausir við alla synd, alla óguðlega, og alla nauð í heiminum. En allir voru þeir á einu máli í því, að mennirnir skyldi með Guðs ótta sínum verka til upphafs þessa þúsund ára ríkis, og að því leiti byrja það sjálfir; hvartil þeir þóttust hafa röksemd af því, að bæði eptir þeirra og annara ætlan þá, var dýrið allareiðu uppkomið, þar sem páfinn var og hans aðstoðarmenn, og mundu þeir steypast til fulls, þegar þvílíkt guðlegt líferni kjæmi upp og færi vaxandi með fleirum ímyndunum, sem þeir gjörðu sèr. þeir gleymdu þá yfirhöfuð því, að þúsund ára ríkið á sinni tíð ætti að verða Guðs- og ekki manna-verk, og af þessu kom upp, sumpart frekjutrú, og sumpart þrætur, einkanlega af því, að or-

thodoxarnir eður rèttrúarmenn svokallaðir, báru einslags óvild til hinna (sem þeim sýndist vildi heita betri sèr) og stóðu á því, að kyrkjan ætti að verða stríðandi til enda, hinar seinustu tíðir ætti að verða verstar, og Kristí síðasti dómur væri ekki lángt í burtu. Og vegna þessara hluta, frekjutrúar og þrætu-efna, varð þúsund ára trúin, og þarmeð allur svokallaður pietista lærdómur, líka svo þegar hann var í alla staði saklaus og góður, mest hataður.

## §. 237.

Hvað nú orthodoxar (rètttrúarmenn svokallaðir) færðu til síns máls af ritníngunni, var ýmislegt; fyrir það fyrsta, að Krists ríki væri andlegt, ekki jarðneskt, og að sannkristnir sèu framandi á jörðunni; en þeirra föðurland sè í himninum. Að menn ætti að stunda fast veraldargagn og frekasta frelsi, og rèttlætast af sjálfum sèr, sem rationalistar kènna nú, datt þá engum í hug, því allir voru kristnir að útvortis meðkènníngu. Þarnæst (sögðu þeir): að sjálf Guðs börn gèti ekki lifað í veröldinni syndlaust, og að hinir óguðlegu verði jafnan í meðal þeirra, því íllgresið skal vaxa með hveitinu allt til kornskèrunnar; í þriðja lagi hljóti manneskjur ætíð að fæðast til mannlegrar mæðu, og allir guðhræddir ofsókn að líða; í fjórðu grein kallist Nýa Testamentistíminn, til hins seinasta dómadags, allur saman síðasta tíð, með fleiru; þar með að hinar seinustu tíðir mundu verða verstar, og þá ætti spottarar upp að koma, og ekki mundi mannsins sonur finna trú á jörðu við sína tilkomu, og annað þvílíkt. En þó að nokkuð af slíku mætti vel að röksemdum hafa í móti sumum chiliastanna meiníngum, og einninn í móti samanblönduðum frekjutrúarlegum hugmyndum nokkurra á vorum dögum, þá óvitrir menn blanda öllu saman, uppkomu dýrsins ríkis, og tilkomu Krists;[1] svo hefir þó ekkèrt af því neina

[1]) Það sýnist enn þá hafa fest fyrri aldar lærðu menn í þeirra ætlan um, að síðasti dómur einn kallaðist Krists tilkoma, að hann er í raun nefndur því nafni 1. Thess. pistli, en þar finnast aðrir staðir, hvar eins hans dómur yfir Jerúsalem sýnist að kallast svo. Þarfyrir verða menn að fallast

orku í móti lýsíngu bókin sjálf hèreptir gjörir á þessum hlutum.

§. 238.

Hvað það áhrærir, að Kristí ríki er andlegt, og sannkristnir framandi á jörðunni, þá hefir bókin sýnt, að Kristur stjórnar yfir jarðarinnar konúngum, og hefir nú, við dýrsins fall, tekið ríkið undir sig, en ekki fyrri, samanb. Lúc. 19, 15. Dan. 7, 27. segir og nógu ljóst, að öll makt undir himninum skuli gèfast hinu heilaga fólki, þegar guðlastarinn (dýrið) sè eyðilagður; þetta er samkvæmt því, sem Kristur segir: öll makt er mèr gèfin á himni og jörðu. Þarfyrir hlýtur kristinndómurinn, og að miklu leiti sannur kristinndómur, að fá yfirhöndina. Krists ríki er ekki fyrir það af þessum heimi, en það er nógu útþrykkilega sagt, að það komi eptir veraldarinnar ríki. Þaraf flýtur og ekki, að sannkristnir ekki hafi þeirra rètta föðurland í himninum. Að Guðs börn gèti lifað öldúngis syndlaust, stendur hvergi í þessari bók; en að óguðlegir verði sífeldt í meðal þeirra, af því íllgresið átti að vaxa með hveitinu, er ekki fullsannað. Hversu lengi átti þó íllgresið að vaxa? Til haustyrkjunnar. Hana hèldu þeir vera síðasta dag; en eg finn hann hvergi kallaðan uppskèru eða haustyrkjutíð; þó kann hann vera það á vissan hátt, því íllgresið gètur alltíð komið, án þess það vaxi (nefnilega óhindrað). Hèr í bókinni er greinilega talað um korn (haustyrkju, og vínyrkju, hórunnar og dýrsins eyðileggíngu, og Krists kyrkju hreinsun), og menn gèta vel trúað, að opinber óguðlegleiki missi lyst og hug til að æða lángan tíma eptir þá skèlfilegu tilburði, sem æfinlega munu verða í minnum, einsog líka sú

---

á, með því eg hefi sýnt, að Antikristsins burttekníng, og fleira, sem við hana fyrir fellur, sem þó verður að vera laungu fyrir þá almennilegu upprisu, kallast svo; að postularnir annaðhvort hafi nefnt alla þessa dóma sama nafni, og máskè ekki enn þá verið upplýstir af andanum til þess, að skilja þá nákvæmlega að, sem geymt var þessari bók; eður jafnvel verið óvissir ennþá um tímans lengd — sjá 1. Pèt. 4, 7. — eitthvað af þessu er miklu líklegra, enn að það sè ósatt, sem bókin segir (um þúsund ára ríkið).

sæla, sem Krists trúu þènarar hljóta. Ekki að tala um, að satans burtuvera hlýtur að hafa það með sèr, að freistíngar verða færri; og hvað, ef Guð gjæfi nú manneskjunni ríkuglegar sinn anda, sjá Jóel 2, 28. m. m., sem varla mun einúngis vera spá um postulanna tíma;[1] að allir verði eða muni

[1]) Williams samþykkist mèr í 20ta kap. 23ju Lectíon um það, að drekans fángelsi verði að verka mikla stöðvun á mannkynsins óhamíngju, og mikla þverrun vantrúar og glæpa, hindrun styrjaldar og vísdóms útbreiðslu (þó eigna eg allt þetta framar Kristí sèrlegu tilkomu dýrsinu til falls, haus dýrðlega sigri, og ennþá ókunnugum aðgjörðum); en ekki svo öldúngis fellst eg á þessi orðtök hans eða ætlanir: fljóta útbreiðslu kunnsta og vísinda, hvartil bókaprentun og siglínga-kunnátta hefir híngaðtil mikið hjálpað, samt standstíla prentverk með loptdampa og dampasiglíng. Kunnusta og vísindi, einkum hið fyrra, gánga nú á dögum fram með hröðum skrefum, og mannlegt eðli þolir varla, að hún á þann hátt skuli vaxa ennþá meira og þeim mun fljótara aldir í gègnum; svo lengi, sem mannanna edli er spillt, kann ei slíkur ómátalegur framgángur annars enn verða vanbrúkaður, og mèr sýnist, að hann allareiðu taki til að verka oftraust, meiri þokka á sjálfum sèr og andvaraleysi, og skaða á næríngarvegunum fyrir fjöldan, brúkun óþarfa í sömu tröppu mun og ætíð verða óaðskiljanleg þar frá. Og eg held að það samstemmi betur Guðs-ríkis krapti, að meðölin til óþarfa verði takmörkuð, og hin einfalda náttúra notist betur í Guðs ótta og iðjusemi. Kunnstir og vísindi (sízt í sambandi með loptsins sterku verkunum) eiga og ei að verða sæla Kristí þúsund ára ríkis, heldur guðsótti iðjusemi, auðmýkt og varúð; eg gjæti freistast til að trúa, að hitt loptmaskínu-verkið, einsog núverandi feiknarlegi frelsis andi, fèlli með dýrinu, og hins falska spámanns himna-elds furðuverkum. Að öll nytsöm vísindi útbreiðist og fullkomnist, læknislist, túngumálavísi til að útbreiða guðsríki, sannur skilnínur ritníugarinnar, heilnæm atjórnarvitska, samkvæm kristinndóminum, og grundvölluð historíu-fræði, með fleiru, mun verða víst.

En það sýnist sem allir hinir ensku útleggjendur, sem þó (ekki lengur einsog hinir gömlu rètttrúar-menn í seytjándu öld) fallast á þúsund ára ríkið, haldi — að fráteknum Faber, sem eg þekki ei — að þetta þúsund ára ríki leiði beint af mannlegum viðburðum í því, að útbreiða Guðs orð, og falli páfadómsins, hvað mèr sýnist að vera harla skammsýnn þánki, er eg þykist hafa rekið, og biskup Hofkin einn hefir verið mèr þarí að miklu samdóma. Svo hugsuðu líka pietistarnir, að þeir mundu

verða Guði þóknanlegir stendur þó hvergi; að mennirnir fæðist til mæðu, er að sönnu víst; en að guðhræddir líði ofsókn-

byrja að reisa upp þúsund ára ríkið; en bókin seigir, að Kristur gjöri það sjálfur og einnsaman, og hans herar horfi einúngis á, þegar hann með sterkum og áður óséðum guðdómlegum aðferðum steypir dýrinu, og öllum þess áhángendum í einu. Þó — það, að manneskjur géta svo þenkt, gjæti sýnst tilgéfanlegt; en ekki hitt, að trúa því, að jörðin sé vel undir búin til að taka á móti Krists þúsund ára ríki strax, sem páfadómurinn fellur. Þetta sýnist mér vitna um óafsakanlegan þekkíngar-skort á manneskjunnar spillíngu (líkan þeirri, sem finnst hjá Ratiónalistunum). Þar er lángt frá, að hjátrú og páfadóms afguðadýrkun géti verið Krists ríkis seinasti og sterkasti óvinur. Þetta veikist af sjálfu sér daglega, og maður gjæti jafnvel trúað, að sú tíð kjæmi um síðir, að það yrði að engu, þó engar yrði kröptugar aðgjörðir af Kristó; páfadómsins íllska útkrefur að eins hefnd — vantrúin er enn eptir með öllum sínum afleiðíngum; hún lifir eins og eldur í ösku á jörðunni, og brýzt út á mörgum stöðum. Hún mun, undir eins og hún fær sterka kveikju, verða eptir eðli sínu miklu sterkari enn páfaleg hjátrú, því hún hefir meðhald í allra manna höfuðspillíngu, (hofmóð og sjálfsbyrgíngsskap). — Við papiska trúarfall er svo lángt frá að veröldin betrist almennt, að fjöldinn af Prótestantum mun þá forsmá hjátrúna takmarkalaust, og gánga í sínum hugmyndum mikils til of víðt, verða enn andvaralausari, og því vantrúaðri; og fjöldinn af þeim fráföllnu óupplýstu papistum, hverra einasti átrúnaður nú hefir brugðist, munu ekki strax verða evangeliskir sannkristnir, sem færstar manneskjur, jafnvel meðal hinna upplýstu, því miður! eru lagaðir, heldur bæði að meiníngum og líferni sannir guðleysíngjar; þetta er nærri óumflýanlegt; allareiðu Lúther hefir grunað það í formálanum fyrir Daníel, að þvílíkt mundi koma á eptir páfadómsins fall; og það er nóg til að sanna, þó menn hefði engan spádóm þarum, að vantrúarinnar ríki er enn þá eptir, og að þetta verður sá eiginlegi sanni Anti-Kristur — það verður þá á sinni tíð að upprykkjast með rótum, sem ekki gétur skéð öðruvísi, enn við allrastórkostlegustu byltíngar (rétt eins og bókin lýsir), og Krists sjálfs guðdómlega innverkun; áður enn hann uppreisir sína hvíld á jörðunni — sjá Opinber. bók. 19, 19. 20. 21. — Eg elska og virði af hjarta alla útleggjara bókarinnar, hversu sem þeir mistaka til, þegar guðsótti og náúngans kjærleiki knýr þá; en hvar mér sýnast skaðlegir hleypidómar sem hér, gét eg ei hlíft, og verð þá máské of harðorður.

ir í þau þúsund ár, mótmælir bókinni og öllum líkindum. Drottins dómar eru útfærðir og á enda; það hefir bókin sagt (hinum almennilega dómi undanteknum), og allir þáverandi óvinir undirlagðir, fyrir utan dauðann; að hinar síðustu tíðir verði hinar verstu; þá muni upprísa spottarar, mannsins sonur muni varla finna trú á jörðu í sinni tilkomu, o. s. frv., er allt eptir bókstafnum uppfyllt í dýrsins tíð; og þó finnur Kristur í áðurnefndri tilkomu ennþá nokkra sèr trúa, sem enn nú skal sýnt; því aldrei er sú tíð á jörðunni, að hann kannist ekki við nokkra, og þeir við hann. Þar voru þó 7000 guðsdýrkendur í Ísrael á Achabs dögum.

§. 239.

Samt sem áður hafa rètttrúarmenn byggt á þessum veiku ástæðum, en þó ekki viljað mótfalla Opinber.bókinni, sem þeir hèldu Guðs orð, og sem útþrykkilega kènnir um þessi þúsund ár. Þeir hafa þessvegna fallið uppá allrahanda sèrlegar útleggíngar, hvar af tvær eru helztar (en uppsprottnar þó í miðöldunum, sem Bengel hefir sannað); hin fyrri er, að drekinn hafi verið bundinn ár 324, þá Constantínus var kristinn einvaldsstjóri, og þá byrji þau þúsund ár, en þau taki enda eptir 1300, þá Osmannarnir komu inní Norðurálfu, því þá villti satan Gog og Magog, það er: Tyrki; hin önnur er, að þau þúsund ár merki þúsund mánuði, nefnilega frá Lúthers trúarendurbótar upphafi 1517 til 1598, þá páfinn, sem eptir þessari á að vera Gog og Magog, tók að verka kröptuglega aptur. En hver sèr ekki, að hin eina er fjarstæðari enn hin önnur? Því hvað hina fyrri áhrærir, þá — hverninn skyldi þeir heilögu ríkja með Kristó á þeirri tíð, þá villur og þrætur fyrst spilltu öllum kristinndómi, og þarnærst hóran formyrkvaði hann með öllu, og stjórnaði vegna tíðanna blindni rètt í sínum mesta styrk, allt til þess Mikligarður var inntekinn; því síðan kom þó glampi af ljósi. Og hvað varð úr Gogs og Magogs eyðileggíngu? Ekki að tala um hið ónáttúrlega í þessari útleggíngu, og bókarinnar afmálunum ólíka í öllu tilliti, sem eru kröptugar og greinilegar. Og þar á ofan á að

draga Opinberunarbókina til að hverfa lángt aptur á bak í tíðina, eptir það hún er búin að framtelja alla sína niðurröðun, og dýrið er fallið. Hvílíkt rugl í þánkagángi, ef líka svo þetta tímabil á að kallast Krists þúsund ára ríki, sem þarfyrirutan er hreint ómögulegt. Þegar þetta enganveginn gat komist heim, voru menn neyddir til að falla uppá hina aðra meiníngu, sem — ef mögulegt er — var ennþá fjarstæðari. Því, hver líkindi gètur það haft, að Opinberunarbókin, sem eptir spámannastíl reiknar híngaðtil dag fyrir ár, gèti nú í einu tekið fyrir sig öldúngis þverstæðan, ruglaðan reikníngshátt, sem aldrei finnst í neinum spádómi, og kallað mánuð ár? og þó ásamt hlaupa til baka til trúarendurbótar tímanna, eptir það hún hafði fullendað alla sína niðurröðun, og dýrið var fallið, hvert menn hèldu þó vera páfadóminn, og síðan þareptir gjöra svo veglega útmálun yfir allrahanda smámuni í Þýzkalandi; og þaráofan gjöra páfadóminn að Gog og Magog? Menn gèta varla komið í hug sèr, hvílíkt rugl er í þessum þánka; hvar við enn bætist, til að auka það, að allir umspáðir tilburðir á jörðunni taka enda strax eptir Gogs og Magogs fall, og djöfulsins fulla straff, sem eptir þessari vitlausustu útleggíngu hefði átt að skè nálægt 1598, þá í raun hinir mikilvægustu tilburðir voru ókomnir.

§. 240.

Dankell hefir sèð, hver fjarmæli þvílíkt voru, og þess vegna gjört öldúngis nýa útleggíngu yfir drekans fángèlsistíma; en af því hann hafði sama hleypidóm, sem hinir aðrir, í móti því, að þúsund árin væri ókomin, hefir hann vafið sig í sömu ólíkindum. Hann heldur, að drekinn hafi verið bundinn, þegar Mahómeth annar Tyrkja keisari gaf kristnum trúarfrelsi í sínum löndum 1453, nefnilega í austurlöndum; en í vesturlöndum á öðrum tíðum, og svo til skipta híngað og þángað í kristninni, hvar ofsóknaranda þraut; en aldrei á allri jörðunni, og að þetta band muni enda taka þegar skrifast 2453. En hversu þvíngað, og veikt og ómerkilegt, er ekki allt þetta hjá þeim stóru atriðum, sem Opinber.bókin fram-

setur, þarsem þó þetta á að vera hið stærsta? Hversu líkindalaust, að bókin hverfi um aldir til baka, eptir að hafa útfært sína heilu miklu niðurröðun, og sýsla um ómerkileg tímabil af villuráfandi kristinna ómerkilega trúarbragðafrelsi í Grikklandi, og síðan til skiptis híngað og þángað um veröldina? Hverninn gat höggormurinn kallast að vera fleygður í afgrunnið og innsiglað yfir honum, þó lítil ofsókn tæki enda á einum eða öðrum stað? Og hversvegna átti Krists fullkomni sigur að málast svo hátignarlega yfir öllum kyrkjunnar óvinum; hans brúður að kallast tilreidd; hans kvöldverður að vera kominn, og ríkið að vera inntekið (unnið) af Guði og honum yfir öllum heiðíngjum (þjóðum); og þó hlaupast aptur á bak í tímanum til ómerkilegra hluta og tilburða, og útfallið á öllu því að verða þrætur og kyrð til skiptis á Þýzkalandi og Grikklandi? Nei — það er ekki svo! Allir kristinndómsins óvinir eru fallnir; satans íllska öldúngis hindruð, og Kristur vill gèfa jörðunni hvíld eptir svo marga og skèlfilega tilburði, og sinn svo dýrðlega sigur, og halda sinn hvíldardag á jörðunni eptir sína aðra krossfestíngu, einsog hann hvíldi sjöunda daginn í gröfinni eptir sína pínu. Og nú skiljum vèr hvað hinn forni hvíldardagur og hvíldarár áttu að merkja, og líka Ðan. 7, 27.; en að rètt þetta gángi til eptir því, sem Pietistarnir hafa meint, er þarfyrir ekki sagt. Vèr viljum heyra hvað bókin segir.

## §. 241.

Að hèr standa þúsund ár (þar annarstaðar er vant að kalla ár daga) með sínu rètta nafni, gètur bæði verið vegna þess, að bílæta-málverkið á jarðarinnar tilburðum átti nú að hætta, þar Guðs leyndur dómur eptir engilsins eiði var uppfylltur, og vegna hins, að þar er nú engin orsök lengur til að dylja tímans sönnu lengd, þar og engin bílæti koma framar fyrir; en einkanlega af því það á að sýna hèr sè talað um sjöunda part manneskjutímans á jörðunni, veraldarinnar sanna mikla hvíldardag, sem einúngis kann að eignast brúkun Guðs ófalsaða orðs. Talan gètur annars verið sett viss í

staðinn fyrir óvissa; en sýnist þó að vera þúsundartölunni nærst, og heldur meiri enn minni, þar svo er aðkveðið: þegar þau eru fullkomnuð.

§. 242.

„4. v.: Og eg sá hásæti, og þeir settu sig á þau, sem dóms-
„vald var gèfið; og þeirra sálir, sem voru hálshöggnir fyrir
„Jesú vitnisburð og fyrir Guðs orðs sakir; og þeir, sem
„ekki höfðu tilbeðið dýrið, ei heldur hins sama bílæti, og
„ekki höfðu tekið kènnimerki þess í sín enni og á sína
„hönd; og þeir lifðu og ríktu með Kristó í þúsund ár."
„5. v.: En hinir aðrir dauðu lifnuðu ekki aptur, þángaðtil þau
„þúsund ár verða fullkomin; þessi er hin fyrsta upprisa."
„6. v.: Sæll og heilagur er sá, sem hefir hlutdeild í hinni
„fyrstu upprisu, yfir þessum hefir hinn annar dauði ekki
„vald; en þeir skulu vera Guðs og Krists prestar, og skulu
„ríkja með honum í þúsund ár."

Hèrum er nú mikið talað og skrifað, og þetta er það eiginlega þúsund ára ríki. Vèr viljum nokkuð hræra við þessu efni.

§. 243.

Hásæti eður stólar voru settir, sem dómendur settust á; þessir verða að hafa verið Jesú meðkènnendur; en hverjir? þarum er ekki talað. Mun það ekki vera mögulegt, að það sè sagt sem fyrirfram um þá, sem strax áttu að upprísa og ríkja með Kristó? þar veit eg þá ekkèrt um, eða neinn; þó held eg að þetta sè það sama, sem Paulus talar um, þegar hann segir: vitið þèr ekki, að heilagir skulu dæma veröldina?

§. 244.

þeirra sálir lifnuðu, heitir það, sem hálshöggnir voru fyrir Jesú vitnisburð o. s. frv., nefnil. þeirra, sem urðu píslarvottar undir heiðíngjunum og hórunni. Hvarfyrir nefnast einúngis hálshöggnir? Menn kynni ætla af því þeir voru flestir, en

Rómverjum títt að hálshöggva sakfelda menn með öxi; en ef þessum var slíku launað, þá er víst um hina, sem meira voru píndir til dauðans. Og þeir, er sagt, sem ekki höfðu tilbeðið dýrið o. s. frv.[1] Þeir máttu ekki heldur hafa með-

[1]) Í tilliti þess, að dýrið er enn nefnt, og þess, að Williams talar um ákvörðun þess tíma, er þessir hlutir skulu skè, vildi eg gjarnan hafa lokið því umtalsefni; hann segir mikið rèttilega, að það komi uppá, hvenær þau 1260 ár byrja, og ásamt, að hann hafi borið saman marga ritsmiði um það, hvaraf eg sè, að þeir lærðu menn ekki hafa komist mikið lengra í því enn eg, sem hefði þó hlotið að verða, ef hleipidómurinn um páfadóminn hefði ekki staðið þeim fyrir ljósi, hvað með mörgu öðru sýnir, að sèrhvert í Opinberunarbókarinnar útleggíngu, sem leiðir í vandræði, er ekki það rètta. Hann tilfærir meðal annars eptir Fyller einn reikníng frá árinu 34, þá Kristur uppreis, — hvert þessi vill (sem ærið er sèrlegt) gjöra að byrjun opinberunarinnar, bætir þarvið 666, dýrsins tölu, sem hann heldur sèu ár, og þareptir 1260, svo að útkèmur 1960; og nærri sömu tíð tjázt Lowmann og Bogue að setja þessa tímans fyllíngu; hvar af Williams ræður, að þúsund ára ríkið eigi að undirbúast í 40 ár. Hèr sýnist mèr nú, að þessir áðurnefndu útleggjendur hafi, ekki síður enn eg, sem ekkèrt afgjöri um tímann, borið sig að ákveða tíðina í þeim hlutum, sem oss ríður lángtum minna á að vita, enn hvenær vottarnir verða deyddir. En þar sè líka lángt frá, að eg trúi, eða nokkur skynsamur muni trúa því af alvöru, að það sè ofdirfd að gètska, án þess að ákveða, þar Guð hefir sjálfur með tölunni gèfið í bókinni tilefni til þeirrar gátu. Þó veit eg ekki betur, enn að þessara útleggjenda ætlunar-undirlag sè harla óvisst, og lítið grundvallað; því fyrst sýnast þeir ekki gjöra neinn tíðarmun á dýrsins uppkomu, vottanna deyðíngu, og þess endalokum, hvað dýrið sè; og þarnærst er það mikið ófært að sanna, að innihald Opinberunarbókarinnar byrji með árinu 34, heldur enn með 96, þar 2000 ætti að koma út, þegar það steypist, eptir þeirra reikníngi; og þó ennþá óvissara, þegar á að bæta við 666 (tölu, sem þarf vísdóm og ekki gátu til að skilja) og gjöra hana að árum fyrri enn þau 1260 byrja; þetta er allt einúngis byggt á fyrirfram smíðuðum gátum (Forudsætninger), hverri dýngdri ofaná aðra. Eg veit og ekki betur, enn að þeir reikníngar, sem eg hefi fylgt í minni tilraun, og sem gjöra ráð fyrir fyrsta undirbúníngi til dýrsins (reikni menn frá 607, en ekki 622 eða seinna) nálægt ári 1830 eður 1848, þess uppkomu 1849 eða 1867, og þess endalokum nokkru eptir 2000 (sjálfsagt allt óafgjörðar undirlags gátur (hy-

tekið þess kènnimerki. Þar má vera nokkuð sèrlegt við þetta kènnimerki, og yfirhöfuð við fráfall til dýrsins, því ekkèrt er

---

potheser) sèu líklegri. Og sèrlegt er með sex-töluna allstaðar; þrisvar 600 ár hefir kristinndómurinn verið lítils virðtur af fjöldanum árið 1830 eða 1831; 18 eða þrisvar sinnum sex innihaldast 70 sinnum í 1260; sextíu sinnum 18 eru þrisvar sinnum 360 eður 1080, það er þrjár tíðir, þá einn sjöundi partur af þeim 1260 (hálf tíð) er til baka. Árið 1789, þá byltíngin hófst á Frakklandi, er hið 1200. frá 590, þá páfadómsins afl jókst mest, og bæti menn þarvið 18 eður þrisvar 6, sem er $^1/_{70}$ partur af 1260, hvaraf 69 partar eru umliðnir 1831, fá menn út 1849; það er 1849 frá dregið 1260 — eptir $589^1/_2$. Merkilegt líka, að túnglaldir, hver 19 ár, koma þanninn út á 1260 árum, að þær verða 66, og 6 ár betur, og að 1260 samanstanda af 21. sinni 60, eður, sem er sama, þrisvar 7 sinnum 60 — ennframar, að frá árinu 1849 til 1867 — 1260 árum eptir páfans sèrlegu upphefð af Phocasi — eru þrisvar 6, það er 18 ár. Þetta gjæti allt saman þènað til eptirþánka framvegis, en ekki til að ákveða neitt víst. Merkilegra er það, sem eptirkèmur:

Opinberunarbókin er nokkurveginn af öllum meðkènnd að vera í mörgu uppfyllt til vorra daga, og hinn helzti ágreiníngur milli útleggjendanna er um Anti-kristinn. Eg bið, að skynsamir og lærðir menn, sem lesa hvað eg skrifa, ekki taki til greina stífleikann og ófullkomlegleikann í mínum ritshætti; heldur aðgjæti einkum tvo hluti. Það sèrlega í því, að sá svo mikilvægi Anti-kristur (fyrir hvers komu kristnir hræddust í ofsókninni mikiu í þriðju öld, þá Decius var keisari, meir enn fyrir þeirrar ógnarlegu ofsóknar kvalíngum sjálfum) er ennþá ekki af Krists sönnu áhángendum samstemma og ómótsegjanlega þekktur í veröldinni, og hvert það þá gètur verið líklegt, að hann sè allareiðu búinn að vera í mörg hundruð ár; og hitt, hvert röksemdirnar fyrir mínu áliti vega ekki upp í móti þeim gömlu, sem heimfæra allt uppá páfadóminn; einsog sannur kristinndómur hefði engan höfuð óvin, sem er verðt að vara við, eða Kristur gjæti sèð, að nokkurntíma fengi skaðað hans kyrkju, nema páfann. Þó — tíminn mun bráðlega kènna allt, og eg fyrir mitt leiti gèt ekki sèð rèttara, enn að menn verði að vera blindir í mannþekkíngu, ef ei gèta sèð, að allareiðu nú, miðt undir hins evangeliska engils hrópi, Prótestanta lærdómur úrkynjast til jafngildis-trúar, og sællífi, eigingirni og samvizkuleysi drottnar. Ekki að tala um, að við þá meiníngu, sem Guldberg sýnist að hafa haft um dýrið af afgrunninu, og eg hefi, vinnur Opinber

talað um fráfall til heiðinndómsins undir hinum fornu ofsóknum, eður heiðninnar kènnimerki, sem þeir fráföllnu urðu að

---

bókarinnar guðdómlega álit, og hennar mjög miklu gagnsmunir í því, að útmála dýrið svo sterklega og ýtarlega, ósegjanlega mikið; þar þetta málverk hefði verið til lítilla nota til að vara við páfans og hjátrúarinnar fyrstu tælíngum, sem innleiddust mikið smámsaman.

Til þess að nota eptir tækifæri og megni allt hvað hinn guðhræddi og lærði Bengel hefir skrifað í ritgjörðum sínum bak við hans útleggíngu Opinber.bókarinnar, að því leiti sèrlega nytsamlegt sýnast kynni, vil eg með fáum orðum innfæra hèr hin helztu merki rèttrar spádóma-útleggíngar, sem hann telur:

1., að menn fylgi nákvæmlega grundvallar - textanum í spádómsins orðtækjum.

2., að menn beri saman spádóminn og uppfyllínguna.

3., gjæti að tíðinni frá Jóhannesar dögum til veraldar enda, og millirúmum veianna.

4., láti þau tímarúm gánga braðt, sem engin tíð er ákveðin um.

5., deili skynsamlega í milli spádóma-orðtækja og eðlilegra og venjulegra.

6., gjæti deilíngar á básúnunum.

7., setji ekki eptir sjálfshugmynd samanburðartölu inní spádómstöluna.

Fyrir utan þessi telur hann nokkur önnur, sem þykja mèr að sumu leiti miður viss; en að öðru leiti leiða til ofsmægilegra (ómerkilegra) ransókna; en öll hin framantèðu og fleiri, sem finna má, við að gègnumlesa skynsamlega tilraun mína, vænti eg að eg hafi til athuga tekið, eins vel og hver annar útleggjari, sem eg þekki.

Menn munu af öllu hèr að framantöldu, og allri minni útleggíngartilraun, gèta sèr til minnar ímyndunar, um bókarinnar höfuðinnihald, og hvað af því einkum á nærverandi tíð muni þurfa helzt að aðgjæta, og það á þann hátt, sem eg ekki gèt vel neitað að sè; er það þetta, að eg haldi: a) að engillinn með hið eilífa evangelíum sè nú í veröldinni á fyrra helmíngi 19. aldar; og hinn annar, sem úthrópi Babýlonar fall, muni bráðum koma; og þará eptir hinn þriðji með hið hræðilega hróp á móti dýrsins tilbiðjendum.

b) Að dýrið sè fætt, eður þó þess forspil allareiðu komið til sjónar (í hverju landi, sem höfuð-aðsetur þess verður), og hið sama meigi halda um hinn falska spámann, hvers upphaf sèu Theophilanthroparnir, St. Simonistarnir (hvorutveggi uppkomnir á Frakklandi, og þeir ráng-

sýna, ekki heldur fráfall til hórunnar, og þessi voru þó ekki sjaldgjæf. þeir, sem þanninn höfðu staðið á móti dýrinu, áttu einninn að upplifna aptur, og hvorutveggi ríkja með Kristó í þúsund ár[1]. . Hvað er þetta?

§. 245.

Lærðir og upplýstir og guðhræddir menn hafa skrifað mikið með og mót í þessu efni, eptir því, sem þeim hefir skilist það ýmislega. — Ein af hinum helztu röksemdum í móti verulegri (líkamlegri) upprisu er, að einúngis sálir nefnast, en nái allt annað til verulegrar heillrar manneskju, er þessi talsháttur til engrar hindrunar, því öll manneskjan kallast opt sál bæði í ritníngunni og daglegu tali; og sýnast kynni, að ekki væri gott að deyfa kraptinn í fyrirheitisorðinu til þeirra, sem höfðu verið trúir í hinni miklu freistíngu — fyrir Guði er annars enginn munur á mögulegleika til að uppreisa á síðasta degi og fyrri — Kristur hefir aldrei neitað, að það kynni að verða optar enn einusinni, og hèr lofar hann því. Að þetta sè hin fyrsta upprisa, hafa að sönnu ýmsir á fleiri hætti út-

---

nefndu Philalethar (sannleiks-elskendur) uppkomnir í Holsetulandi 1830), og frekir Rationalistar, og máskè aðdragandi að því bílæti, sem hann býr til eptir dýrinu, en þetta sè ekkèrt ennþá fullgjört. c) Að þaráмóti dýrsins nafns tala, og þess kènnimerki, sem það vill uppá alla neyða, sè enn ókunnugt; og d) að þær sjö síðustu plágur og Babýlonar eyðileggíng, sem einninn fyrirmyndast með haust- og vín-yrkjunni, einsog Kristí votta deyðíng, og fullkomin upprisa, dýrsins seinasta stríð við lambið, satans fángèlsi, og Krists þúsund ára ríki, með fleiru til þessara hluta heyrandi, allt er enn ókomið.

Guð gèfi hvað eg með hans orðs og anda aðstoð hefi rètt hitt á, verði hans heilaga nafni til dýrðar, og hans dýrkeyptu manneskjum til viðvörunar og sannra nota, en satans og vantrúarinnar ríki til niðurdreps.

[1]) Mótsagnir hinna ensku útleggjenda og annara í móti því, að hin fyrsta upprisa eigi að skiljast eiginlega, hefi eg allar, fyrir laungu, annaðhvort gjört ónytsamlegar, eður dregið mátt úr þeim, í fylgjandi 245., 246., 247. og 248. §§., svo þær þurfa ei að nefnast hèr einusinni; þær eru þarfyrirutan að litlu marki.

lagt enn einn; en að þeirra útleggíng sè órètt, er sýnilegt, sem láta þessa fyrstu upprisu vera upprisu til andlegs lífs í Kristó, og þá sama, sem endurfæðíngu og byrjun betri lifnaðar. Hvað á það að vera? Eiga þeir dauðu í Kristó, þeir burtförnu í trúnni, og sem höfðu yfirunnið allar freistíngar, yfirunnið dýrið og drekann, og hinn falska spámann, og lifðu í himninum með Guði og lofuðu hann, nú fyrst að endurfæðast, upprísa andlega og taka að lifa betra líferni? Hverninn á jörðin að verða þess vör, þó þeirra sálir gjörist dýrðlegar fyrir Guði? Og þess átti hún þó vör að verða. Hverninn komumst vèr útaf þessu?

§. 246.

Þeir skulu lifna upp og ríkja með Kristó í þúsund ár; en þeir aðrir dauðu skulu ekki upprísa fyrri enn á þeim almennilega dómsdegi. Merkir það þeirra sáluhjálp? Eða verða engir sáluhólpnir nema þessír píslarvottar? Eða verða þeir allir fordæmdir, sem ekki rísa upp fyrrenn á allsherjardómsdegi? Uppá þennan hátt komast menn ekki útúr þessu völundarhúsi; menn hljóta endilega að fallast á, að þeir fái ósiðvanalega vegsemd framyfir aðra sáluhólpna, og að þessi vegsemd verði gjörð opinber fyrir mönnunum á jörðunni, bæði til að auglýsa hana fyrir öllum, og líka til að staðfesta aðra í hinu góða.

§. 247.

Guldberg finnur, að þessa þarf við ef spádómurinn á að verða sannur, en hann er of varasamur til að fallast á um líkamlega upprisu, og það vegna þess, að Kristur og postularnir kènni ekki nema um eina; en hèrum kynni menn að segja, að þó Kristur tali ei um nema eina upprisu, nefnilega þá almennu, þá neitar hann hvergi (heldur jafnvel staðfesti með verkun sinnar eigin upprisu, þó bæði væri það máskè nokkuð heldur lítilvægt til að teljast með, og allareiðu skèð áður Opinberunarbókin var skrifuð, á þeim, sem þá risu upp), að hún gjæti optar skèð á færrum, og hèr má kalla, að hann hafi opinberað það. Og hvað postulana áhrærir, veit

eg ekki betur, enn að Paulus öldúngis samstemmi, að hèr verði sannarleg upprisa 1. Kor. 15, 23. 24., þegar hann segir: allir verða lífgaðir í Kristó, en hver í sinni röð; frumgróðinn er Kristur, þarnærst þeir, sem eru Krists í hans tilkomu — það sama orð, sem hann brúkar um Anti-kristsins eyðileggíngartíð. þareptir — þessvegna ekki þá — kèmur endirinn. Að sönnu útfærir Guldberg sína meiníngu svo vel, með því, að hann lætur upprisuna vera innifalda í þeirri vegsemd og virðíngu, sem þessir Kristí vottar fá hjá öllum, svo þeir taki hlutdeild í Krists heiðri, að menn gjæti vel látið sèr það nægja; en mèr sýnist, að þar þeir dauðu heilögu rísa upp með Kristó sjálfum, og ekki eru taldir fyrir það, en bókin segir þetta svo ljóslega, og ekki einúngis að þeir upprisu, heldur og, að þeir ríktu með Kristó í þúsund ár, og þeir voru til þess hæfir og verðugir fundnir framar öllum öðrum, og nokkuð óvenjulegt varð að framkoma á þeim fyrir mannasjónir; og þar dýrið og hinn falski spámaður fengu sinn eilífa dóm, einsog hinir allra verstu, og þurfa ekki að dæmast á ný, en þessir þarámóti voru hinir allra heilögustu, sem gátu verið settir til eptirdæmis rètt öndvert þeim, og þessvegna sýnist eiginlegast að vera talað um, að þeir komi ekki til dómsins, nefnilega: hins almennilega, og það svo miklu framar, sem Guð er ekki síður reiðubúinn (viljugur) til að launa enn straffa óvenjulega, og þareð Paulus sýnist að segja það sama; verður allra rèttast og náttúrlegast að þenkja hèr á verulega (fullkomna) upprisu til eilífs lífs, hvar ekkèrt verulegt af ritníngunni verður sagt á móti. Bengel og fleiri hafa fallist á þetta. þó trúi hver um það, sem hann vill, að eins með virðíngarótta fyrir Guði og hans orði.

## §. 248.

þeirra ríki með Kristó gèta menn ímyndað sèr á hvern hátt, sem þeir vilja, bókin segir ekkèrt um það; einúngis trúi eg, að ef þeir verulega upprísa, sem eg víst ætla, takist þeir í burt, að minnsta kosti frá fastri veru við jörðina, svo lengi, sem hún á að vera í ófullkomnu tilstandi. því

fyrir utan það, að góður kristinndómur mun að mestu leiti hafa yfirráð á jörðunni, og Guðs blessun mun vera yfir henni, máskè ogsvo fleiri lönd uppkomi af hafinu, mun hún væntanlega verða einsog hún hefir verið. Engir heilagir, sem búa á jörðunni, ríkja eiginlega með Kristó, þó þeir verði ráðandi jarðarinnar, enn síður lifa í sællífi; frá synd verða þeir og ekki öldúngis fríir; en fríir verða þeir frá ofsóknum, lofa frjálslega þeirra Guð og frelsara, og ná miklum fullkomlegleika í allslags vísdómi, þó þeir væntanlega haldi sèr frá þeim vísdómi, sem leiðir til óþarfa brúkunar, óhófs og hofmóðs, hverja forsjálni væntanlega sjálfir hinir í minna lagi dygðugu munu verða búnir að festa sèr í hjarta, þartil uppmentaðir af hinum undanförnu hræðilegu eptirdæmum. Jesús mun þá og heiðraður verða á mest allri jörðunni, máskè af öllnm þjóðum, því spámennirnir sýnast að vitna þarum efalaust. Ótölulegt fólk mun og umvendast til kristinndómsins, undirbúið þartil fyrirfram á vorum dögum, þegar það hefir nú sèð hórunnar og dýrsins hræðilegar útfarir, og Jesú meðkènnenda mikla sigur; en seinast allir Gyðíngar. Því eptir það heiðíngjanna fyllíng er innkomin, á allur Ísrael að hjálpast, segir ritníngin; og þeir fyrstu skulu verða hinir síðustu, segir Kristur. Samt sem áður sýnist að þeir muni verða hinir allra kristilegustu og sælustu af öllum þjóðum. Hverninn það gengur með stjórn og stjórnar-atferli (Politi) gèta menn ekki vel sagt, nema að kristinndómurinn verður það, sem ræður fyrir anda laganna. Þanninn ímynda eg mèr þúsund ára ríkið, og þar í er ekkèrt frekjutrúarlegt, svo eg viti (nema það sè frekjutrú, að trúa bókinni), og ekkèrt ómögulegt, að bókin segir ekkèrt þarum, sem ei gètur komist saman við þessar hugmyndir.

## §. 249.

Eg sagði Gyðíngarnir mundu almennt umvendast til kristinndóms á þessum tímum; en strax eptir dýrsins fall skèður það máskè varla; því fyrst eptir það munu víst margar þjóðir meðkènna Kristum, og þó ekki allar í einu, en Gyð-

íngarnir eiga samt að verða seinastir almennt. Eptir það þeir eru umvendtir, er það að sjá af öllum fornum spádómum, og Móses sjálfum 5. bók 30, 5., að þeir muni samansafnast, og flytja til þeirra forna lands, sem þá má verða orðið endurbætt áður (væntanlega af Norðurálfubúum), en af þeim mun verða ennframar betrað, hvartil Guð mun gèfa sèrlega blessun. Allt þetta sýnist að verða sannað með fjölda samstemmandi ritníngargreina. Og þegar þeir nú eru búsettir í landinu, sýnist af hinum sömu spádómum, að þeir verði mikið góðir og sælir kristnir, og þeir muni uppreisa Jesú helgidóm í meðal sín, í því landi, hvar hann kènndi, píndist og uppreis; og þetta eru nú engar frekjutrúar ímyndanir, eða líkar þeim, sem sumir aðrir hafa gjört sèr, heldur stilltar eptir því líklega, að því leiti saman gètur komist við spádómana, og hvað öldúngis er væntanlegt. Sá helgidómur meina eg það sè, sem engillinn talar um Dan. 8, 14—26. að skuli rèttlætast eptir marga daga, eður 2300 dögum eptir helgidómsins niðurtroðslu. Hver ef skiljast á fyrir þá, sem Antiochus Epiphanes gjörði 166 árum fyrir Krists burð, þá — með því lærðir telja á þessu ári 1829, máskè rèttara 1832 eða jafnvel 1835 frá áðurnefndri Krists fæðíngu, ætti að koma út, þegar allt þetta væri umliðið, eptir vorum reikníngi, Krists árið 2134, eður eptir mánareikníngi fá ár yfir 2100; víst sèrlegt nærri hundrað ár, eða lángur mannsaldur eptir það, sem oss hefir grunað um dýrsins eyðileggíngartíma. Þetta skrifast til ýtarlegri eptirþánka, ekki til að þreyngja neinum til að trúa.

§. 250.

„7. v.: En þegar þau þúsund ár eru fullkomnuð (á enda) „á satan að losna af sínu fángèlsi."

„8. v.: Og hann mun gánga út til að tæla heiðíngjana (þjóð-„irnar), sem eru á fjórum hornum jarðarinnar, þeim Gog „og þeim Magog, til að safna þeim til stríðs, hverra tala „er sem hafsins sandur."

„9. v.: Og þeir uppstigu (hèldu áfram) á breidd jarðarinn-

„ar, og umkríngdu herbúðir hinna heilögu, og hinn elskaða „stað, og eldur fèll niður af himninum frá Guði, og for- „tærði þeim."

Hèrum eru nokkrir hlutir athugaverðir.

§. 251.

Vèr höfum áður fallist á, að djöfullinn ei hafi verið fánginn (bundinn) fyrri enn dýrið var slegið, og náttúrlega hafi ekki gètað orðið það fyrri, sumpart af því mennirnir svo lengi fylgdu hans vilja, og urðu þessvegna á tilfinnanlegasta hátt að sannfærast um Kristí vald yfir honum og hans ríki, ef þeir ætti að læra að þjóna Guði í hjarta, og meðkènna (þekkja) hans endurlausnarráð; sumpart af því menn ljóslega sjá, að hafi djöfullinn nokkurntíma haft innflot (innverkun) í veröldina, hefir það einkanlega verið á þeim tíðum, þá manneskjurnar mest samþykktust hans lærdómi, og sýndu sig sem verstar. Þessvegna verða menn að trúa, að ritníngin hafi hvergi kènnt, að hann hafi verið bundinn fyrri, annars yrði hún að mótmæla sjálfri sèr. Að sönnu játa eg, að sýnist sem maður gèti fundið slíka mótsögn 2. Pèt. 2, 4. (sè pistillinn ótvílugt hans), hvar talað er um bundna fallna engla; þó — gètur ekki þessi mótsögn, sem sýnist, auðveldlega aftekist með því að hugsa: mörgum föllnum englum kunni Guð ekki leyfa að tæla manneskjurnar, þeir urðu þarfyrir að innilykjast þar, sem nú satan var lokaður inni þessi þúsund ár (hvarvið mikilleiki straffs þeirra varð nokkuð að linast), en honum, sem sýnist hinn straffssekasti, mátti Guð leyfa að gánga lausum um tíma, bæði til að sýna vanmátt sinn í móti syninum, sem endurleysti mennina frá honum aptur, og líka til að auka sök sína, samkvæmt sínum vondum vilja; að nokkru leiti af því, að mennirnir þurftu að stríða við hann ef þeir ætluðu að umvendast, fyrst þeir lètu hann tæla sig, og þó þeir verðskulduðu að freistast af honum, gátu þeir þó haft Krist til aðstoðar sèr, og að nokkru vegna fleiri orsaka, sem Guð þekkir? Vèr vitum annars ekkèrt greinilegt um hann og hans samband við hina föllnu engla, því það gagnar oss ekkèrt, og

mikið af því þarum er sagt, eru manna-smíðar, sem ekki standa í ritníngunni; hún segir oss að eins hvað oss viðkèmur, og gètur notað oss, að hann sè mannanna sáluhjálpar illgirnisfullur umsitjandi spillari, en megni ekkèrt í því tilliti við þá, sem eru Jesú trúir. Þeir djöfullegu andar, sem í menn settust, og um er talað í Nýa Testamenntinu, og máskè fleiri slags, sem kallast íllir eða óhreinir andar, leggja engin drög til manneskjunnar eilífu fordjörfunar af sjálfum sèr; þeir kallast að vera í satans þjónustu; en fyrir fallna engla gèt eg ekki haldið þvílíka, þartil eru þeir alltof lítilsháttar; og annars þekkjum vèr lítið til þeirra. Með ritníngunni trúum vèr, að þeir sèu til; einúngis dárar neita öllu því, sem þeir þekkja ekki sjálfir, jafnvel sjá og þreifa á. Eg trúi þess vegna, að þeir föllnu englar, fyrir utan þann eina, sèu inniluktir, til þess að bera ekki jörðina ofurmagni, og hann verði inniluktur með þeim þessi þúsund ár; en á þar ekki um orðastríð við neinn.

Uppá víst trúi eg bókinni, að hin forna slánga ekki sè bundin fyrri enn hún segir.

§. 252.

En hvarfyrir varð nú satan laus, og ekki geymdur til dómsins? Það gètum vèr ekki vitað, þar vèr ei þekkjum Guðs ráð; þó kynni menn gètska á, að meðorsakir væri einkum tvær. Önnur sú, að kynkvislir þjóðanna á jarðarinnar útkjálkum, Asíu og sumum Afriku-ríkjum, hvar Móhammeds lærdómur forðum ríkti, hafi í hinni laungu kyrð tekið til að gjörast heldur heiðínglega sinnaðar (því öldúngis ókristnar held eg þær varla), og sjálft Guðs helgaða fólk, hinir andlegu Ísraelítar, hvar á meðal voru Gyðíngarnir, sem bygði miðju jarðarinnar, allareiðu hafi tekið að gjörast miður árvakurt að gjæta síns kristinndóms, þurft þessvegna aðvörunar við, og hinir refsíngar. Þartil kynni menn ætla hafi stuðt, að Asía (Austurálfan) allareiðu fyrir laungu síðan varð að hafa tekið á móti nýrri siðalögun (Cultur) máskè frá Vesturálfu (sem þanninn hefði þá gengið í kríngum jörðina) og

fengið mikla mannfjölgun; og að hennar þjóðir, sem frá Tyrkjum og öðrum Móhammedanum voru komnir, hafi tekið að verða hernaðargjarnar, meðan aðrar enn kristilegri manneskjur lifðu í djúpum og öruggum friði, og enganveginn höfðu búið sig undir hernaðarins ógnir. Þarum sýnist Ezechiel að tala í 38. og 39. kapítulum, því hann segir, að það muni skè eptir mjög lángan tíma, á hinum síðustu dögum, að Gog muni yfirfalla hina sönnu Ísraelíta, og einkum Ísraels blómlega land (væntanlega þessvegna er hann svo margorður um það efni), til hvers Tyrkjum kynni sýnast að þeir hefði kröfu. Og sèrlegt er það, að flestar þjóðir, sem hann (Ezechiel) telur Gog fylgisama, eru Móhammedanar á vorum dögum, bæði á Afriku og Asíu, þó að Gog væri á hans dögum all-ókunnug þjóð í Tatara löndum. Samt sem áður sjá menn, að ef Tyrkja afkomendur meinast einkum, þó margar þjóðir aðrar kunni vera þarmeð, að þeir munu þá ekki hafa neitt höfuð-aðsetur í Norðurálfu. Þetta fólk er það, sem satan fær leyfi til með einum eður öðrum brögðum að framhvetja til að veita ófriðar-ágáng velkristnum og friðsömum þjóðum, hverjar og ásamt eiga þarmeð að varðveitast frá hálfvelgju, sem innlæddist, þó ekki væri það satans tilgángur. Hann sýnist að vænta, að þessir síðarnefndu yrði eyðilagðir, svo hann síðan gjæti reist upp nýtt ríki meðal hinna; og Guð leyfir ekki heldur þessum ofstopaþjóðum að draga yfir sig eins mikla syndaskuld og satan ætlaði til, en eyðileggur þær fyrri. Hin önnur orsök til þess að satan losnaði, sem hèr sýnist þekkjanleg, er sú, að hann á, eptir þessa frelsis-vanbrúkun, ekki að fá leyfi til að bíða hins almennilega dóms, heldur einsog dýrið og hinn falski spámaður, strax eptir sínar vanheppnuðu ráðagjörðir, að kastast í hinn eilífa kvalastað. Ef að þetta ekki væri nokkurnveginn ljóst í bókinni, og ennþá þarfyrirutan, sem eg meina, fyrirsagt hjá Ezechiel, gjætum vèr mjög lítið gètskað á þessa oss fjarlægu seinni öld.

§. 253.

Það er ljóst, að þessi mikli fjöldi hermanna,[1] sem verða mun til skèlfíngar hinni friðsömu jörð, á bráðlega að eyðileggjast, og það framar fyrir Guðs sèrdeilis tilhlutun, enn mannlega vörn; og að satan orkar engu með þessari tilraun, öðru enn að flýta sínum dómi.

§. 254.

„10. v.: Og djöfullinn, sem tældi þá, varð varpaður í elds- „og brennisteins-sjóinn, þar sem var dýrið og hinn falski

---

[1]) Í 34. Lection við þennan kapítula, talar Williams um Gog og Magog, og heldur þeir verði norðurlendskt fólk og heimspekíngar eptir 2. Pèt. 3, 4. (af því menn halda hin mikla spillíng verði rètt fyrir veraldar endann, þó afmálunin enganveginn líkist neinni almennilegri trúarspillíngu). Mig hefir grunað það um dýrsins spámann, þar tímateikn vorrar aldar sýnast ekki þurfa nærri 1200 ár til að sýna sig kröptuglega framkomin; og hitt er æði lángt einúngis gètskað fram í tíðina. Eg meina að eg hafi á þekkjanlegri hátt sýnt ofaná, hver sú tilkoma er, þá Kristur varla finnur trú á jörðunni, og hefi nú tilfært allt, hvarí Williams og annara, í raun guðhræddum og í mörgu tilliti uppbyggilegum athugasemdum, ber hið minnsta á milli við tilraun mína, og sem eg vona, henni til einkis niðurdreps; allt annað kèmur saman; þó má þess gèta um Bengel, sem eg hefi seinna sèð, að hann vill líka koma því saman við spádóm Krists, og að vestni undir heimsendann; að Gog og Magog hafi svo fljótt spillst, og mennirnir kunni af eigin náttúru-fordjörfun að dirfast þegar satan er hreint frá, og hann ei að óttast, en eg læt það í sínu gildi, og tel ekkèrt vera fyrir því, enda ætla eg ei verða lángan tíma um að gjöra frá því satan kèmst í kvalastaðinn til heimsenda; hvarámóti Bengel heldur, hans stutti tími, og allt til enda verði nokkur hundruð ár, eða veröldin komist hátt á áttunda þúsund ára, og færir til Habac. 4, 2. að Kristur muni komið hafa á miðjum heimsaldri. Eg held við mína meiníngu, fyrst hann uppreis snemma á 8. degi, en Hab. spádómur gètur þó sannast á því, að hann hafi komið í miðja tölu mannkynsins, sem ei mun fleira til hafa orðið á fjórum þúsundum ára fyrir hans fæðíngu, enn á rúmum eður vel rúmum þremur þúsundum eptir hana, og er það víst í miðjum öldum, sem er í miðju mannkyninu.

„spámaður, og þeir eiga að pínast dag og nótt um alla „eilífð.“

Nú er djöfullinn, sem nú er hèr svo kallaður, og ekki lengur drekinn, hreint frá; og allir óvinir undirlagðir Kristó, nema dauðinn.

Dauðinn, segir Paulus, er hinn síðasti óvinur, sem á að undirleggjast; og það verður nú bráðlega.

§. 255.

Hjá Ezechiel stendur þar, eptir Gogs eyðileggíngu, um ágjæta Guðs þjónustu og stjórnar-stand hjá Gyðíngunum, útmálað mjög nákvæmlega. Menn vita ekki hvort það á að miða til sèrlega ypparlegs ástands í kristninni, og einkum hjá Gyðíngum, sem þó gjæti sýnst mikið trúlegt; eður það hefir tillit til Guðs eilífu stjórnar meðal manneskjanna, sem Opinberunarbókin lýsir hèreptir. Hvort heldur, sem er, mun það ekki vara lengi, frá þeim áður umgètnu síðustu tilburðum, til þess hinn síðasti dómur verður haldinn, við alls holds upprisu. Opinber.bókin talar ekkèrt um þá tíð, og hún á efalaust að verða dulin; því nú strax kèmur á eptir lýsíng þessarar almennu upprisu, veraldarinnar umbreytíngar og síðasta dóms. Guð hafði á hinni laungu tíð síðan hina miklu hefndardóma aukið við sitt himneska ríki borgurum, mörgum þúsundum þúsunda, og manneskjan var nú fullþroskuð til að umbreytast frá sínu fyrra ástandi. Að upprisan annars verði í byrjun áttundu þúsundar ára af mannkynsins tilveru á jörðunni, ellegar við, eða nokkuð eptir Krists-árið 3034 að vorri tölu, óvíst hvað laungu eptir, samstemmir undrunarlega því, að Kristur reis upp snemma á hinum fyrsta degi í vikunni. Þvílíkar samstemmur finnast ótölulegar í Guðs stjórn, og þó dárar hlæi að þeim, sem leggja merki til þessháttar samlíkínga, svo er það þó þekkjanlegt, að Guð brúkar þessháttar líkíngar til að gjöra skèpnur sínar athugasamar um hans verk. Hann er þarhjá niðurröðunar- og reglunnar-Guð, en þar gèta dárar ekki fellt sig við; þeir vilja sveima frekt og taumlaust.

§. 256.

„11. v.: Og eg sá eitt mikið hvítt hásæti, og þann, sem sat
„þar á, frá hvers augliti jörðin og himininn flýði, og staður
„varð ekki fundinn fyrir þau.“

Hèr útmálast miklu stærri byltíng í náttúrunni enn nokkur var fyrri; Jesús kèmur í guðdóms hátign til að dæma, þarfyrir kallast hann nú á sama hátt sem Guð af virðíngu, nafnlaust, sá, sem situr á hásætinu, því hásæti, sem samansett er af skínandi skýum; himin og jörð flýa; þau álítast af skèpnunni sem ekkèrt við hans nærveru.

§. 257.

„12. v.: Og eg sá hina dauðu, smáa og stóra, sem stóðu fyrir
„Guði, og bókum var upplokið; og annari bók var lokið
„upp, sem er lífsins, og hinir dauðu voru dæmdir eptir
„þeim hlutum, sem skrifaðir voru í þeim bókum, eptir
„þeirra verkum.“

Sèrhver er skrifaður í dómarans bók, og hans framferði á jörðunni; engum gètur því gleymt orðið; lífsins bók er sèrílagi, í hverja þeir eru skrifaðir, sem álítast verðir eilífs lífs; allt bílæti eptir hinum fornu stjórna borgara registrum; en dómarans alvitska er allt. Hèr talast alls ekki um, að hans heilagir dæmi með honum; hann mun og einnsaman dæma þennan dóm.

§. 258.

„13. v.: Og hafið gaf (hafði gèfið fram) hina dauðu, sem
„voru í því, og dauðinn og helvíti (dauðra uppihaldsstaður)
„gáfu (fram) þá dauðu, sem voru í þeim, og þeir urðu
„dæmdir hver eptir sínum verkum.“

Þetta er nú allt málverk. Meiníngin er: allir hinir dauðu, á hvern hátt, sem þeir dóu, verða viðverandi. Eptir sínum verkum verður hver dæmdur, þó hann verði hólpinn við sína trú, því meðtekníng trúarinnar, og viðleitni góðra verka vegna trúarinnar, og kjærleiki til Guðs og síns endurlausnara, eru líka verk; þarhjá er trúin dauð án verka. En að hver einn

verði dæmdur, en síðar rèttlættur, eptir sínum útvortis — ekki hjartans — verkum, án trúarinnar, stendur hvergi. þessvegna er bæði guðfræðismannanna þræta sín á milli, og líka Ratiónalista við þá, um trú og verk, öldúngis ónýt, og á hvergi heima.

§. 259.

það sýnist sèrlegt, að hèr er ekkèrt talað um skèlfíngu á jörðunni fyrir þessum dómi. Sú ímyndan held eg sè órèttilega híngað leidd frá þeim fyrri dómum, yfir Jerúsalem, og kristinndómsins óvinum. það er sjálfsagt, að þvílíkur stór tilburður gètur ei án skèlfíngar hjá hverjum, sem lifir, komið yfir jörðina; en það sýnist sem þessarar tíðar manneskjur ekki almennt hafi svo mikla orsök að hræðast herrans komu; þar þeir lifendu eru orðnir umbreyttir, og allir íllir andar, fyrir utan satan sjálfan, sem áður fyrri hafði fengið sína fordæmíngu, verða þá dæmdir.

§. 260.

„14. v.: Og dauðinn og helvíti (dauðra uppihaldsstaður) urðu „fleygð í eldsjóinn; þessi er hinn annar dauði.“

„15. v.: Og ef nokkur ekki varð fundinn skrifaður í lífsins „bók, þeim varð fleygt í eldsjóinn.“

Nú var dauðinn, hinn sterkasti óvinur, undirlagður, og allt íllt með honum, og öllum vondum vísað til þeirra eiginn staðar, án alls innflots á góða hluti og góðar manneskjur um alla eilífð. þeir, sem ekki voru skrifaðir í lífsins bók, eru þeir, sem ekki álítast að gèta orðið sælir fyrir frelsarann; þeir hafa allir hlutdeild í eldsjónum, en mjög misjafnt, nefnilega: hver eptir sínum verkum. Víst eru þeir allir orðnir í mestalagi ósælir; en þó talast ekki um aðra sèrílagi enn dýrið, hinn falska spámann og djöfulinn, og þeirra tilbiðjendur, sem eiga að pínast nótt og dag um alla eilífð.

Nú eptirfylgir að tala um þá, sem skrifaðir voru í lífsins bók.[1]

---

## Sjöunda Deild.
### Sjón inní eilífðina.

---

## 21. kapítuli.
### §. 261.

„1. v.: Og eg sá nýan himin og nýa jörð, því hinn fyrsti „himin og hin fyrri jörð forgengu, og hafið er ekki framar.“

„2. v.: Og eg, Jóhannes, sá hinn heilaga stað, hina nýu „Jerúsalem, sem fór ofan frá Guði af himninum, sem „eina brúði, prýdda móti manni sínum.“

---

[1]) Það kann að sýnast einhverjum undarlegt, sem hèr og víðar stendur, að þeir einir verði sáluhólpnir, hverra nöfn skrifuð sèu í lambins lífsbók frá veraldar upphafi, og þeir, hverra nöfn ei standi þar, eigi að hafa hlutdeild í eldsjónum, rètt einsog margir væri frá eilífð ákveðnir til fordæmíngar, þar þó allt Nýa Testamentið vitnar, að Jesús hafi endurleyst alla. Þeir afneita Drottni, sem þá hefir endurkeypt, segja postularnir, um spottarana sjálfa, og brèfið til Ebr. 10, 29. segir, að sjálfur sá óumvendanlegi afneitari trúarinnar, haldi testamentisins blóð óhreint, með hverju hann sè þó helgaður. Þessi mótsögn, sem sýnist að Opinberunarbókin hafi, fellur af sjálfri sèr, þar Kristur fyrri í henni segir um hinn trúaða: eg skal ekki útdraga hans nafn af lífsbókinni, og aptur í 22. kap. 19. v., hvar um falsara bókarinnar stendur, að Guð muni burttaka hans hlutdeild af lífsins bók; hvað fullkomlega sannar, að orsökin til þess, að eins nafn stendur ekki í henni, er ei, að það aldrei hafi verið þar skrifað, sem væri hið sama, sem einn hefði aldrei verið endurleystur, heldur að það hafi verið útdregið, og slíkra fordæmíng sè þessvegna bygð á rèttvísum dómi, en ekki á fortakslausri útskúfun frá eilífð. Að þar stendur: frá veraldar upphafi, gètur ekkèrt merkt í móti svo ljósum röksemdum, því það þýðir ei annað, enn að Guð varð að sjá fyrir og sá líka fyrir frá veraldar upphafi, hverra nöfn útdragast ætti úr lífsins bók, og hverra ekki. Og þarhjá er samlíkíng tekin af bókum fornaldarmanna, í hverjar þeir í raun (sannlega) skrifuðu allra borgara nöfn, en drógu síðan út aptur (nöfn) hinna óverðugu.

Jóhannes segir nú frá fyrst yfirhöfuð, sem hann er vanur, til þess að mála nákvæmlegar síðan ástand hinna sáluhólpnu. Hann sá nýan himin og nýa jörð; hið forna var ekki lengur sýnilegt, víst ekki á sama hátt. Haf var til einkis lengur, og var (því) ei til. Hin nýa Jerúsalem kom frá Guði, sem Jesú brúður, nefnilega: þeir sáluhólpnu sjálfir, dýrðlegir gjörðir. Þeir komu frá dómstólnum til þeirra nýtilreidda vegsamlega bústaðar, sem sýnist að eigi að verða á hinni forklárumðu jörðu.

§. 262.

„3. v.: Og eg heyrði mikla rödd af himninum, sem sagði: „sjá Guðs tjaldbúð hjá mönnunum, og hann mun búa hjá „þeim, og þeir skulu vera hans fólk, og hann, sem er Guð, „skal vera með þeim, þeirra Guð.“

„4. v.: Og Guð mun afþerra allan grát af þeirra augum, og dauðinn skal ekki vera framar, ei heldur sorg, ei heldur „óp, ei heldur pína skal vera framar, því þeir fyrri hlutir „eru horfnir.“

Þetta þarf engrar útleggíngar.

§. 263.

„5. v.: Og hann, sem sat á hásætinu, sagði: sjá! eg gjöri „alla hluti nýa; og hann sagði til mín: skrifa þú, því þessi „orð eru sönn og viss.“

„6. v.: Og hann sagði (enn) til mín: það er skèð: eg er „(orðinn) alpha og omega, upphafið og endíngin; eg vil „gèfa hinum þyrstu af lífsins vatnsuppsprettu, óverðskuld-„að.“

„7. v.: Sá, sem yfirvinnur, skal erfa alla hluti, og eg vil „vera honum einn Guð, og hann skal vera mèr einn son-„ur.“

„8. v.: En þeir óttagjörnu (rögu), vantrúaðir og andstyggi-„legir (svívirðulega fráfallnir) og morðíngjar og hórkarlar „og töframenn og afguðadýrkarar, og allir lygarar, þeirra

„hlutskipti skal vera í sjónum, sem brennur með eldi og „brennisteini, hvað að er hinn annar dauði."

þetta talar Drottinn Jóhannesi og jarðarinnar manneskjum eður dauðlegum til eptirtektar. Hinir óguðlegu, sem hèr er umtalað, eru að sönnu allir þvílíkir menn á öllum tíðum, og meiga vænta sèr þvílíkrar hegníngar, ef þeir betrast ekki, en hefir sèrdeilis tillit til þeirra, sem bókin talar um undir drekanum, hórunni og dýrinu. Hinir óttagjörnu eður rögu eru þeir, sem óttast mennina, en ekki Guð; hversvegna þeir falla frá; o. s. frv.[1]

[1]) Menn sjá, að hinir vantrúuðu setjast í flokk með þeim allramest gjörspilltu, og þar nefnast með tilgángi allir lygarar; það er þarfyrir undarlegt með vorrar tíðar Liberalista (fríþenkjara og taumlauss frelsis elskara), þó þeir ekki vilji bera þessi nöfn, og þeirra áhángendur, að þeir vilja ekki þekkja brestina í þeirra lærdómi. þó þar væri enginn rök fyrir, sem ótal eru, að sjálfhyggin (ekki rètt brúkuð) mannleg skynsemi leiðir í ógjæfu, svo er sú eina nóg, að rètt hún tilreiðir breiða veginn, sem svo margir gánga, sem er þvert á móti alvöru-viðburðum og þollyndi, og gètur því ekkèrt sannarlegt gott áunnið í tímanum, því síður í eilífðinni, heldur spillt því. Menn skyldi þó ekki trúa, að einkanlega morð, meinsæri og aðrir höfuð glæpir sèu breiði vegurinn fyrir fjöldann. það er ekki breiður vegur, þegar maður með afli og mikilli mæðu, sem þar fylgir, þreyngir sèr inn í töpunina, heldur sú elskaða eigingyrni og sjálf-stollt er það.

það er þó höfuð fordjarfanleg ætlan á vorum dögum, að álit á (meiníng um hluti eða ástæður) ýmsu, þó lýgifullt sè, ekki gèti orsakað straffssekt. Menn vilja ekki láta Guð hafa gefið mönnunum opinberun vegna þess, að þeirra náttúrlega álit (skoðunarmáti) er orðið spillt og þarf að lagast; vilja því ekki heldur, hversu nauðsynlegt, sem það er, haga sèr eptir hans opinberun og hans anda. Sýnir þó ekki heilbrigð skynsemi og öll reynsla, að ástæða þeirra í þessu er raung? Veldur ekki meira eða minna rángt álit, sameinað skorti alvarlegs sannleiks-kjærleika, öllum mannlegum, tímanlegum og eilífum óförum, þar þánka-atferli og athafnir fljóta þaraf? Sèrhver misgjörníngur, sèrhver afguðadýrkun, og sèrhver óguðleiki kèmur af því. Olli ekki Gyðínganna falska álit á sjálfum Guðs fyrirheitum (ólíkt skárra, þegar það er á hans eiginlegleikum) allri þeirra ógjæfu? Er ekki sama tilfellið um alla umvendunarlausa? Hverninn er þá annað möglegt, enn að sá mikli fjöldi í veröldinni, sem forherðir sig í sínu áliti, jafn-

§. 264.

„9. v.: Og einn kom til mín af þeim sjö englum, sem höfðu „þær sjö skálar með sjö síðustu plágur, og talaði við mig „og sagði: kom, eg vil sýna þèr brúðina, sem er lambsins „húsfrú."

Einn af þessum sjö englum hafði áður sýnt honum hóruna í hennar skrauti (hana sá hann eður þekkti líka seinna einsog stað); nú átti hann að sýna honum Jesú brúði, hina himnesku Jerúsalem, hinn sanna söfnuð, í hennar vegsemd, og þann mismun þar var á.

§. 265.

„10. v.: Og hann flutti mig burt í anda á eitt mikið og hátt „fjall, og sýndi mèr þann mikla stað, hina heilögu Jerú- „salem, sem fór ofan af himninum frá Guði,"

„11. v.: sem hafði Guðs dýrð, og hennar ljós var einsog hinn „allra dýrmætasti steinn, sem Jaspis-steinn sá, er skín „sem Chrystall."

Hinn chrystall-skínandi Jaspis, sem Jóhannes sá í frásèrnumníngu, var ekkèrt annað enn Guðs dýrðarljós yfir hans himneska söfnuði. Að hann sá (brúðina) einsog borg (í borgarlíki), ekki sem konu (einsog hún var fyrst), var ei undarlegt, þar hann vissi nú að hóran var líka borg.

§. 266.

„12. v.: Hún hafði mikinn og háan múr og hún hafði tólf „hlið (port), og yfir þeim hliðum tólf engla, og skrifuð nöfn, „hver að eru Ísraels barna tólf kynkvísla."

„13. v.: Móti austri þrjú hlið, móti norðri þrjú hlið, móti „suðri þrjú hlið og móti vestri þrjú hlið (port).

„14. v.: Og borgarinnar múr hafði tólf grundvelli, og í þeim „lambsins tólf postula nöfn."

Múrinn er bílæti óhultleikans; englar á honum teikna allra-

---

vel í móti Guðs þekkjanlega lifandi evangelió, af því það er ekki eptir þeirra ramspillta smekk, gèti komist hjá hinum allra hræðilegustu óhamíngju áföllum?

ríkustu varðveizlu á móti allri saurgun. Hitt annað sýnir reglu og fullkomlegleika í eptirmynd Ísraels herbúða. Þeirra tólf kynkvísla nöfn merkja, að þetta er Guðs fólk; og nöfn hinna tólf Jesú postula á grundvellinum, að Jesú lærdómur í söfnuðinum er grundvallaður fyrir þá.

§. 267.

„15. v.: Og hann, sem talaði við mig, hafði einn gullsprota
„(mælikvarða), að hann skyldi mæla borgina, og hennar hlið,
„og hennar múr."
„16. v.: Og borgin liggur ferstrend, og hennar lengd er (jafn)
„mikil breiddinni, og hann mældi borgina með sprotanum,
„tólf þúsundir akra (stadia), lengðin og breiddin og hæðin
„voru samsvarandi."
„17. v.: Og hann mældi hennar múra, hundrað fjörutíu og
„fjórar álnir, eptir manns máli, sem er mál (mælíng) eng-
„ilsins."

Sú, sem engillinn brúkaði.

Allur samanburðurinn sýnir allra-mestu reglu (niðurröðun); stærðin (borgarinnar) fjölda hinna sáluhólpnu; tólf-talan Ísraels niðurskipun, því hèr er Guðs sanni Ísrael; hvers vegna postularnir sýnast að hafa verið útvaldir tólf að tölu, einsog þeirra forfeður; þessvegna er líka múrsins hæð tólf sinnum tólf álnir, og mannlega mælíngu gat Jóhannes einasta ímyndað sèr.

§. 268.

„18. v.: Og hennar múra byggíng (grundvöllur) var Jaspis,
„og borgin hreint gull, einsog skjær Chrystall."

Sjálfur óhultleikinn er hèr hátignarlegur, og allt hvað jörðin kallar glansandi samankomið í eitt, en allt hvítt, hreint og gagnsært.

§. 269.

„19. v.: Og borgarinnar múra grundvellir voru prýddir með
„allrahanda dýrmætum steinum; hinn fyrsti grundvöllur var

„Jaspis, hinn annar Saphír, hinn þriðji Chalcedon,
„hinn fjórði Smaragð,“
„20. v.: hinn fimti Sardonix, hinn sjötti Sardien, hinn
„sjöundi Chrysolith, hinn áttundi Beryll, hinn níundi
„Topaz, hinn tíundi Chrysopras, hinn ellefti Hya-
„cinth, hinn tólfti Amethyst.“

Allt er himneskt skraut; öll jörðin gjæti ekki komið saman því, sem þar kynni að líkjast við, segir Guldberg.

§. 270.

Það er annars aðgjætandi, að gimstsinar voru ekki í fornöld samir sem nú; Jaspis var purpura-rauður; Saphír að sönnu hinn sami himinblái, en einn með gulldropum var mest metinn; Sardonix var sem manns-nagla litur; Sardien Carniól vor; Chrysolithinn góður Topaz; Beryllinn grænleitur kallast nú Aqvamarin; Topazinn, nú Chrysolith, bleikgrænn; Chrysopras gulgrænn; Hyacinthinn heldur blár enn lifrauður. Þetta er hèr innfært eptir Guldberg.

§. 271.

„21. v.: Og þau tólf port (hlið) voru tólf perlur, og hvert
„port af einni perlu, og borgarinnar torg (stræti) var hreint
„gull, gagnsært sem Chrystall.
„22. v.: Og eg sá ekkèrt musteri í henni, því Drottinn, sá
„almáttugi Guð, er hennar musteri, og lambið.“

Hvar Guð er allt í öllu, þarf ekkèrt musteri.

§. 272.

„23. v.: Og borgin þarf ekki sólar eða túngls, að þau skuli
„skína í henni, því Guðs dýrð hefir upplýst hana, og lamb-
„ið er hennar ljós (logblys),“

Andlega er þetta auðskilið, hvar Guð og lambið er, gètur ei dýrð skort; vildi menn ásamt skilja það náttúrlega, þó einsog verkun Guðs dýrðar, kynni menn gjöra sèr í hug, að hennar sèrleg nærvera gjörði jörðina að sólu.

§. 273.

„24. v.: Og heiðíngjarnir (þjóðirnar), sem hjálpast, skulu um-
„gángast í hennar ljósi, og konúngarnir á jörðunni færa
„þeirra vegsemd og lof (tilbeiðslu og lofsaung) til hennar.“
„25. v.: Og hennar hlið skulu ekki apturlykjast um daga,
„því nótt skal ekki vera í henni.“
„26. v.: Og þeir skulu flytja heiðíngjanna (þjóðanna) frægð
„og lof (lofgjörð og tilbeiðslu) til hennar.“
„27. v.: Og ekkèrt almennilegt (óhreint) skal koma inní hana,
„eður það, sem gjörir andstygð og lýgi; einúngis þeir, sem
„eru skrifaðir í lambsins lífsbók.“
Hèrum er að athuga:

§. 274.

Staður þessi er mikið vandur; hvað er það, að konúngar og heiðíngjar, sem eiga að verða sáluhólpnir, eigi að heimsækja Guðs söfnuð, hina himnesku Jerúsalem á jörðunni, offra þar, o. s. frv.? Guldberg hefir þó furðulega vel komist útaf því, nefnil. þanninn: að þetta sè talað sem aðvörun fyrir núverandi jardar innbúa, og þeir uppörfist, þó þeir sèu í fjarlægð, að gánga í hinu sanna ljósi, sem upplýsir hina himnesku Jerúsalem. Þar er hið sanna musteri, sem Guð og lambið er, og þángað eiga menn að stíla tilbeiðslu sína og lofsaungva. Guðs söfnuður á jörðunni heyrir og til þessarar borgar, og á hennar dýrð, án þess að sjá hana og njóta hennar. Óguðlegir og lastafullir eiga bæði hèr og þar að vera útilokaðir frá þeim söfnuði. Þetta kèmur nákvæmlega saman við það, sem Paulus segir: leitið þess, sem þar uppi er, hvar Kristur er m. m., og aðrar ritníngargreinir. Sè þar nokkuð meira falið undir, sem ei er ótrúlegt, er það enn þá hulið fyrir öllum dauðlegum.

Í því, sem eptirkèmur, hlýt eg, einsog einusinni áður, að fylgja versa-tölunni, þar þeim eittsinn er þanninn skipt, þó að efnið sýni, að það heyrir til þessa sama kapítula og Guldberg hafi skipt kapítulanum náttúrlegar.

§. 275.

„1. v.: Og hann sýndi mèr lífsins vatns hreina vatnsfall, „skjært sem Chrystall, er útgèkk frá hásæti Guðs og „lambsins."

„2. v.: Og miðt á hennar (borgarinnar) götu (torgi) og á báð„ar síður vatnsfallsins stóð lífsins trè, sem bar tólfslags á„vexti, og gaf sinn ávöxt fyrir hvern mánuð, og blöðin af „trènu þènuðu til læknisdóms heiðíngjanna (þjóðanna)."
Hèrum nokkuð fá orð.

§. 276.

Ýmislegt, sem stendur í þessari lýsíngu, hefir líkíngu með 1. Mós. b. 2. og 3. kapít., einkum um trèð; að það beri tólfslags ávexti m. m., á að heita forn-austurlendsk Mythe (eptirlíkínga-sögn); en þó menn hafi blandað með tímanum fleirum ímyndunum saman, er þó þekkjanlegt, að mythisk sögn sjálf yrði að vera af einni rèttri upprás í fyrstunni, og þessi upprás er grundvöllurinn til Mósis frásagnar um vötnin og lífsins trè í Paradís, þó nokkrir á vorum dögum kunni leitast við að blanda heiðnum ímyndunum í allt, og fyrst hið saklausa, og leiða, til að ná sínum tilgángi, aðrar röksemdir að hlutunum, enn hinar rèttu. Svo mikið er víst, að Jóhannes, eður rèttara hans engill, hefir helgað þessa ímyndun í mesta lagi, og bendt til lífsins três í hinni sönnu Guðs Paradís; og vill þarmeð segja, að hinir sönnu himinborgarar sèu vissir gjörðir um eilífan ódauðlegleika sameinaðan eilífri heilsu, og það ekki af þeirra eigin náttúru styrkleika, heldur fyrir Guðs viðvarandi vilja og sameiníngunna með Kristó.

§. 277.

„3. v.: Og engin bölvun skal vera framar (yfir nokkru) og „Guðs hásæti og lambsins skal vera í henni (borginni), og „hans þènarar skulu þjóna honum,"

„4. v.: og sjá hans auglit, og hans nafn skal vera í þeirra „ennum."

„5. v.: Og nótt skal ekki vera þar, og þeir skulu ekki þurfa

„ljóss eða sólarbirtu, því sá Drottinn Guð upplýsir þá, og „þeir eiga að ríkja um alla eilífð.“

Þetta er fá-orð lýsíng hinnar eilífu sælu.

---

# Endíng og innsiglun.

---

## 22. kapituli.

### §. 278.

„6. v.: Og hann sagði til mín: þessi orð eru trúföst og sönn. „Og Drottinn, sá heilagi spámannanna Guð, útsendi sinn „engil, að sýna sínum þjónum þá hluti, sem bráðlega eiga „að skè.“

Engillinn gaf Jóhannesi þessa staðfestíngu. Þanninn er bókin staðfest af Guðs sendiboða bæði fyrst og seinast, og hinn eiginlegi spádómur er nú á enda. — Það er þekkjanlegt hverjum, sem ekki apturlokar augunum, að hann nær allt til eilífðarinnar.

### §. 279.

„7. v.: Sjá! eg kèm bráðlega; sæll er sá, sem varðveitir „þessa spádóms-orð.“

Jesús talar nú sjálfur og staðfestir engilsins orð, og kallar þá sæla, sem gjæta þessarar bókar. Skyldi þó manneskjur halda það fyrir heimsku! Það yrði þá að vera þvílíkir, sem tilbúa veginn fyrir hans óvini, og ófarir fyrir sjálfa sig.[1]

---

[1]) Það er mikið á sig hlaupið, að efa þessarar bókar guðdómlega gildi, eður að hún nái til veraldar enda, fyrir það, að sagt er, að uppfyllíngin komi bráðlega; hún tók þó að koma strax eptir Jóhannesar daga, og hèldt síðan sífeldlega áfram að koma; hún var því áríðandi fyrir hans samtíðis-menn, og síðan fyrir hvern einn á öllum tíðum, og að trúa því, að hún kjæmi bráðlega, og þessir hlutir mundi bráðum skè, því þá nálægðust í raun hinar hættulegustu tíðir, sem nákvæmast eru málaðar í bókinni, hvará eptir mun fylgja hans domur. Þar stendur ekki: það skal allt skè bráðlega; ekki heldur, að Drottinn muni fljótt afljúka sínum dómi. Hann tók allareiðu að koma undir fyrsta innsiglinu sem sigurherra; en hann var

§. 280.

„8. v.: Og eg Jóhannes er sá, sem hefi sèð og heyrt þessa „hluti; og þá eg hafði sèð og heyrt, fèll eg niður til að „tilbiðja, fyrir engilsins fætur, sem sýndi mèr þessa hluti,“

---

ekki þarfyrir kominn til fulls fyrri enn undir sjöundu básúnu. þessi yfirlýsíng er þessvegna, einsog allt annað í hinu guðdómlega orði, löguð til allra tíða, en einkanlegast þeirra, sem hún er nauðsynlegust fyrir. þeir, sem gjæta hennar, verða rètt með því hæfilegir til að komast hjá öllu því hræðilega, sem hinir draga yfir sig. því sagði Jesús til lærisveinanna: vakið, þèr vitið ekki á hverri stundu mannsins sonur kèmur. Sèrlegt er, að menn skuli ekki sjá meiníngnna í því. Undarleg, einsog ásetníngsskammsýni er það þó, sem einkennir nokkra af hinum lærðustu trúarlögunar (breytíngar) mönnum vorum. það er og yfirmáta háskaleg vendíng í tíðarinnar þánkagángi, að menn vilja ekki lengur gjæta spádómanna. Guðs andi (sem maður hlýtur að trúa, ef maður er kristinn) kallar þó orðið spádóms-orð, og það er þess rètta kènnimerki. þar býður hann líka að halda við, þangað til dagurinn upprennur, sem enganveginn er nein Rationalista uppklárun, heldur það ljós, sem skína skal að kvöldinu — Sach. 14, 7. — þegar allt hefir reynst; því þó þá sè komið kvöld hins mikla dags, er það þó heill dagur, að því leiti það er veraldar tímabil, hinn mikli hvíldardagur. þarfyrir svo vissulega sem Guð hefir gèfið mönnunum nokkurt opinberað orð, svo víst er hið sama svo fullkomið, að það upplýsir þá um upphaf þeirrar jarðnesku tilveru, og hvernig ástatt er fyrir þeim við Guð frá upphafi, samt yfirgèfur þá ekki í stærstu háskasemdunum, heldur aðvarar þá til veraldar enda; því svo lengi hefir líka Kristur lofað að vera hjá sínum söfnuði. Enginn kristinn hefir heldur rètt til að útilykja nokkra bók í Nýa Testamentinu. ellegar nokkuð af Jesú lærdómum, eða nokkuð af hans orði, frá sínum sannleikskjærn, alvarlegu og virðíngarfullu athugasemdum. þaraf flýtur efalaust, að það var mín skylda, líka svo að ransaka þessa bók, þó að Jesús hefði ekki útþrykkilega skipað það í hèr að ofan standandi 7. versi; og skylda er það líka, að meðbýta öðrum aðvarandi athugasemdum, þó að það, sem þær standa uppá, komi ekki svo algjörlega eða svo fljótt fyrir sjónir. Sú aðferð, sem þar er á móti, hlýtur vissulega um síðir að draga eptir sèr algjörlegt fráfall (trúarinnar), þá freistíngartíðin verður hörðust; og það er tímanna teikn, að minnsta kosti hið venjulegasta, að trúa því ekki, að herrann komi; hvað ei er talað alleina um síðasta dag og tímans enda.

„9. v.: og hann sagði til mín: sjá til að þú gjörir það ekki,
„því eg er þinn samþjón, og þinna bræðra spámannanna,
„og þeirra, sem varðveita þessarar bókar orð; tilbið þú Guð.“
Sama tilfelli og sama viðvörun sem áður; líka svo aðvörun fyrir kyrkjuna framvegis, óskiljanlegt hvarfyrir hún ekki gjætti þess. Allur lærdómur í þessari bók er öldúngis samkvæmur Jesú og hans postula orðum, á þann hátt, sem enginn frekjutrúarmaður (Sværmer) eður draumamaður hefir nokkurntíma kènnt, eður gètur kènnt. Jesús hefir staðfest hana með öllum mögulegum staðfestíngum, og þá hann þareptir segir: að þeir sèu sælir, sem varðveita hennar orð, og engillinn segir sig að vera þeirra samþjón, sem gjöra það, þá vil eg, hversu óverðugur, sem eg mætti sýnast sjálfum mèr eða öðrum til að meðhöndla slíka hluti, gjarnan varðveita þau; látum hvern hæðast þar að sem vill; eg sem kristinn misann engu skilníngshöfði slíkrar skèmtunar, en sýnist það eins óskiljanlegt, að menn nú ekki aðgjæta þessi Krists orð, einsog kathólskir ekki gjættu hinna.

## §. 281.

„10. v.: Og hann sagði til mín: þú skalt ekki innsigla þessarar bókar spádóms-orð, því tíminn er nærri.“
„11. v.: Hver, sem gjörir órètt, gjöri órètt framar, og hver, „sem er óhreinn, ati sig framar, og hinn rèttláti rèttlætist „(æfi rèttlæti) framar, og hinn heilagi helgi sig framar.“
„12. v.: Og sjá! eg kèm bráðlega, og mín laun með mèr, „að gjalda hverjum sem hans verk eru til.“
„13. v.: Eg er alpha og omega, upphafið og endirinn, „hinn fyrsti og hinn siðasti.“
Hèrum nokkuð.

## §. 282.

Allt sýnir, að Kristur talar nú. Bókin átti að standa opin fyrir hverri komandi kynslóð; hin sama bók að aðalinnihaldi, sem Kristur meðtók af sínum föður innsiglaða með sjö innsiglum. það í 11. versi stendur, hefir ei þá merkíngu, að

hinn óguðlegi eigi að halda áfram í íllu, og umvendast ekki. Guð hefir þóknan í því, sem er þvert á móti, og tekur þá til náðar, sem umvendast; heldur merkir þvílíkt: hinn forherðti guðleysíngur, sem ekki vill láta sèr segjast, verður að halda áfram í íllu, það er að ofurgèfa hann sinni íllsku og forherðíngu einsog Pharaó; einsog Kristur sagði við lærisveinana, þá þeir vildu verja hann í Gethsemane: leyfið þessum að gjöra enn meira að. Þarámóti er það verðt og nauðsynlegt, að hinir góðu styrki sig í góðu meir og meir; það leiðir af sannri dygð, einsog forherðíngu af íllskunni; og einkum hefir þetta orðtak tillit þess, að á þann hátt muni gánga vondum og forherðtum kristinndóms-óvinum, sem bókin talar um; þeir muni fara vestnandi; sömuleiðis muni trúfastir kristnir styrkjast jafnan framar, og sigra seinast.

§. 283.

„14. v.: Sælir eru þeir, sem gjöra að hans boðorðum, svo
„þeir hafi vald yfir lífsins trè, og þeir skulu gánga gègn-
„um hliðin inní borgina.“

„15. v.: En þar fyrir utan eru hundarnir, og fjölkýngis-
„mennirnir og hórkarlarnir, og morðíngjar og afguðadýrk-
„arar, og hver, sem elskar og fremur lýgi.“

Nú talar engillinn aptur, að menn halda; en það mun vera eitt af því, sem vorrar aldar vitríngar kynni þykjast gèta sett út á spámennina, að þeim sýnist ræðan koma fyrir í svo mikilli óskipan, að menn verði stundum að gèta sèr til frá hverjum hún komi. Að ekki spámaður við hvert skilnaðarmerki hrópi: sagði eg; þá svaraði engillinn; þetta sagði Kristur; og fleira þvílíkt heimta þeir að vísu, heyrandi til tíðar-smekksins, og mælskulegrar ræðu í óbundnum stíl, en fyllt með orðalengíngar, óviðkomandi hjartans-túngumáli, þessvegna ekki einsog það verður að vera hjá frásèr-numdum (án hvers að vera manneskjan ekki gètur sèð andleg málverk) og óhæfilegt til að hrífa eðli tilfinnínganna (Fölelse-Ævnen) hverjar, að því leiti þær hræra hjartað, vanvirða mikið í öllu öðru enn þeirra eigin smá-viðkvæmni (smaae Fölerie), sem

þeir elska. Upp yfir öðrum slíkum smámunum liggja þeir gjarnan, en hlaupa yfir allt hið mest verða.

§. 284.

Hundarnir, sem nefnast, eru án efa þeir fyrir utan sanna og heilaga tilfinníngu lifandi sældargirndarmenn (Epicuræar), sem vanvirða Jesú lærdóm, og ofurselja sig andvaraleysi; þeir nefnast hèr fyrst af þessum óguðlegu, því allir hinir hafa lært sínar dygðir í þeirra skóla, og andvaraleysið er grundvöllur alls ílls. Lygarar og lyga-elskendur nefnast alltíð seinast, því með þeirra nafni einkènnast allir óguðlegir, sem ekki eru kunnir að neinum öðrum vissum glæp. Viti menn að eins, að nokkur elski eður frami lýgi, hversslags lýgi sem er; og viti menn einúngis, að hann ekki sè sannfærður um, að það sèu sannindi, sem hann heldur með (frammfylgir fast); heldur gèti verið lýgi, þá kann maður efalaust að halda hann fyrir guðlausan, þó að hluturinn sè hinn lítilsverðasti; enn þótt maður vissi enga ákveðna ódygð um hann.

§. 285.

„16. v.: Eg, Jesús, hefi sendt minn engil að votta þessa „hluti fyrir yður í söfnuðunum; eg er Davíðs rótargrein „og ætt (afkomandi), hin fagra stjarna, morgunstjarnan.“

Jesús, sem hinn fyrirheitni Messías, staðfestir sífeldt spádómsbókina með sínu aðkvæði, ásamt englinum.“

§. 286.

„17. v.: Og andinn og brúðurin segja: kom! og sá, sem „heyrir, segi: kom!“

Engillinn heyrist nú ekki lengur, hans eyrindi er á enda. En Jóhannes talar þetta í frásèrnumníngu andans.

Hèr verður versið að skiptast, því það er frásèrnumið samtal Jóhannesar við Krist, hvar svörin mætast iðuglega. Annars er versunum ílla skipt frá fyrri tíð, vegna misskilníngs á samhengi í ræðunni, og þetta má vera hin rètt-

asta orsök; sjá Guldberg, „hver, sem er þyrstur, komi, og „hver, sem vill, taki lífsins vatn óverðskuldað.“

„18. v.: Því eg votta (með) fyrir hverjum, sem heyrir þessa „spádóms orð: ef nokkur eykur þar nokkru við, þá skal „Guð leggja á hann þær plágur, sem skrifaðar eru í þess-„ari bók.“

„19. v.: Og ef nokkur tekur nokkuð frá þessarar spádóms-„bókar orðum, skal Guð burttaka hans hlutdeild af lífsins „bók og af hinni heilögu borg, og af þeim hlutum, sem „skrifaðir eru í þessari bók.“

„20. v.: Hann, sem vottar (gèfur til kynna) þessa hluti, seg-„ir: já, eg kèm bráðlega.“

Hèr er aptur versinu deilt.

§. 287.

Sá, sem þyrstur er, komi; það er Jesú náðarfulla svar til þeirra, sem ákalla hann, einsog í guðspjallinu. Hann einn gat og lagt við hótunina, ef nokkur bætti við eða tæki frá spádóminum, og vildi á þann máta gjöra Guð að ljúgara; þetta gat hvorki engill eða manneskja gjört, eða hefði dirfst að gjöra, og aldrei hafa menn reynt nokkurt dæmi þess, að nokkur hafi verið svo ofdirfðarfullur, að gjöra sín orð svo dýrmæt, og aldrei mun nokkur reyna það; því spottarar (guð-lastarar), jafnvel ekki þeir frekustu, leitast ekki við á þann hátt að styrkja lærdóm sinn, heldur með því, að vilja gjöra Guðs orð að lygi. Kristur setur hèr innsigli á Opinberunar-bókina, og jafnframt alla heilaga ritníngu, því sú er hin mesta guðlöstun, að taka þar nokkuð frá eða auka þar nokkru við, og það er að yfirlýsa berlega, að Guð skuli ljúga og ei gèta ann-að. Enginn hefir heldur verið svo fíbldjarfur híngaðtil, að brjóta þetta innsigli; en það sýnist einsog hèr liggi hul-inn spádómur undir; og sè svo, mun dýrið, eður hinn falski spámaður, á sínum tíma, eður og þeirra fyrirrennarar, fyrir-taka sèr þessa athöfn, og þá mun Kristur vissulega uppfylla sína hótun á þeim.

§. 288.

„Já, amen, kom Drottinn Jesú!"
„21. v.: Vors Drottins Jesú Kristí náð veri með yður öll-
„um. Amen!"

Já, amen, kom Drottinn Jesú! eru Jóhanesar og safnaðarins kveðju-orð til Drottins vors, og hverfur hann honum nú. Síðan, í 21. versinu, endar Jóhannes án allrar frásèrnumníngar bókina, að því leiti, sem hún er brèf til safnaðanna, með postullegri kveðju til þeirra, í öldúngis kyrrum anda og stíl, ofurgèfandi allt Drottins forsjá. Þanninn eigum vèr allir að vera skapi farnir, ef vèr viljum Guði þóknast; gjæta vor við hinu ílla samkvæmt Jesú aðvörunum, og biðja oss hjálpar í náð; en fela honum á vald, að sjá fyrir öllu öðru. Þar ekkèrt verður betra sagt enn þetta, og margt annað, sem Guldherg hefir sagt, innfæri eg það hèr eptir honum. Hans seinustu gullvægu orð í hans almennilegu athugasemdum við Opinberunarbókina, allt frá þessum: en — mennirnir verða hèrí m. m., þarf eg ekki að innfæra; það nægir, að eg vísa til þeirra. Vorir uppklárendur og Rationalistar hafa enn þá ekki rekið eitt einasta af þeim, og munu aldrei gèta það; mögulegt þeir kynni líka ekkèrt vita af þeim, eða þeirra innihaldi, og gjörði þeir þá vel í að lesa þau sjálfir. Jafnvel þó nú bókin sè gègnumgengin af mèr eptir megni, og allt hið merkilegasta sagt, sem eptir minni meiníngu segjast á til að reka órètt álit eður ætlanir, vil eg þó bæta fáum orðum við, þó eitthvað kunni verða upp aptur tekið af því, sem eg fyrri hefi hreift.

§. 289.

Hverninn stendur þó á því, að veröldin aldrei vill trúa Guðs opinberaða orði? Bæði í lærdóminum og verkinu er ætíð haft á móti því, af hverju þánkafari allar mannanna óhamíngjur fljóta. Menn kífa sífeldt um trú og líferni til dæmis, og margir vilja ekki fallast á, að trúin sè neins verð, líferníð á að vera allt. — Já, hver veit það ei, að trú, fyrir utan kristilegt líferni, dugir ekki? En það er ei umtalsefn-

ið; það er höfuðatriðið, sem ei er skeytt, að sinnið sè lagað eptir Guðs vilja og hans opinberun, þá verður trúin fyrst bæði til lærdómsins og lifnaðarins, og til þess þurfti manneskjan Guðs orð. Skynsemin gat máskè leiðt hana í öllu öðru, já, jafnvel rètt brúkuð sýnir hún hvað Guðs orð er. Þó — hún bregðst líka opt í veraldlegum efnum. Menn segja, að andinn og holdið, sem stríða hvort í móti öðru, sè skynsemin og skilníngarvitin; og þetta er eptir Guðs orðs vitnisburði ekki þann veg. Menn óvirða allar hjartans (sinnisins) tilfinníngar (Fölelser), hverjar þó eru af Guði gèfnar, þegar þær brúkast á rèttan hátt, til að gjöra manneskjuna sæla, og eru máskè í sjálfum sèr enn minna spilltar enn skynsemin, þó að þær gjöri hana ósæla, ránglega brúkaðar. Menn upphefja (með lofi) einúngis skynsemina; en hvaða skynsemi, þessa eður hins, rèttgángandi eður rángt leidda? Á það að vera loflegt, að hafa hjartans hluttekníngu (föle) fyrir föðurland, vini o. s. frv., einúngis ekki fyrir Guði? Eg tala ekki um frekjutrúar hjartans hluttekníngu, sem er í móti heilbrigðri skynsemi, heldur samkvæma Guðs orði. Mun ekki sæla vera í því, að hafa hluttekníngu fyrir Guði og hans kjærleika í Kristó? Og segir ekki ritníngin, að Guð dæmi eptir hjartanu? Á allt þetta að verða rækt? Finni nú maðurinn til Guðs kjærleika í Kristó (sem ekki gètur skèð án þess maður þekki sína spillíngu af syndinni), leitast maður við að festa skynsemina á hans andlegu velgjörníngum, þá verður skynsemin andleg, og öll manneskjan andlega sinnuð. En finni maður ekki til þessara hluta, ekki sína syndaskuld, sinn óverðugleika fyrir Guði, ekki hans velgjörnínga í Kristó, þá leitar maður eptir, að festa skynsemina á einum saman holdlegum hlutum, og á þann hátt verður sinnið holdlegt, og þá líka skynsemin og öll manneskjan holdleg; og þegar nú manneskjan innvortis leitast við að laga skynsemina, með því, að snúa henni frá hinu ránga holdlega ásigkomulagi til hins rètta andlega, það er stríðið milli holdsins og andans, hvaraf þessa heims börn ekkèrt vita, en ekki milli skynseminnar og skilníngarvitanna, því stríði gèta veraldar hyggindi lagt sig eptir án alls Guðs

ótta. — Hinni andlegu lögun skynseminnar fylgir auðmýkt, trú til Guðs, þóknan á hans verkum, lyst til að hlýða honum og taka hlutdeild í hans orði. Hinni holdlegu þarámóti, dramb (sjálfbyrgíngskapur), sem hafnar og að nokkru leiti hatar Guðs opinberun, vantrú til Guðs, þóknun á veraldarinnar girndum og sjálfs-uppgötvunum, lyst til ódygða, hvar af helzt vissar, sem maður hefir enga sèrlega freistíngu til, undirþrykkjast, nefnilega: fyrir eigin virðíngar og velferðarsakir í tímanlegum efnum, og loksins skortur á virðíngu fyrir Guðs orðs lærdómum. Þessi hugarfarsins mismunur er ekki svo lítilsverður sem mennirnir ímynda sèr. Sè villan í skilníngiuum, þá er hún sjálfráð (sjálfsköpuð), því hún kèmur af því, að manneskjan virðir ekki Guð. Hin fyrri sinnislögun umskapar þarfyrir manneskjuna til góðrar í grundvellinum fyrir Guði, því hún virðir hann, og auðmýkir sig fyrir honum, og þessvegna hefir þvílík manneskja orsök til að vænta fyrirgèfníngar af honum, þó hún syndgi í móti vilja sínum, og eins þó hún frá ásetníngs syndum áður hafi snúist til hans, og sè orðin umvendt og helguð af hans kjærleika, og þessvegna önnur ný manneskja í trúnni á hann, og í tilhaldi til hans frelsismeðals í Kristó, og siðferðislegrar (móralskrar) sameiníngar við hann þessvegna.

Hin síðari (sinnislögun) umskapar manneskjuna til vondrar í grundvellinum, af því hún forsmáir Guð, og gètur þessvegna ekki haft orsök til að vænta fyrirgèfníngar af honum, jafnvel ekki fyrir smá bresti, sem hún kallar, og ekki fyrir sjálft hugarfar sitt, sem gjörir henni allt að synd, svo lengi það viðvarir (óbreytt); en að allt verður henni að synd, kèmur náttúrlega af því, að allar hennar athafnir, jafnvel þær, sem í augum skína, fljóta af raungu sinnisfari, og fremjast þessvegna, annaðhvort í óhreinum tilgángi, eða af hræsni, og án kjærleika til Guðs, sem þó er skèpnunnar sjálfsagða skylda, án hvers líka ekkèrt hennar verk gètur haft minnsta gildi; og þessi kjærleiki, ef hann á að vera nokkurs verður, hlýtur að vera grundvallaður í tilfinníngunni af því, að mannsins er ekkèrt, enn Guðs allt, og hans stærsta velgjörníngi:

endurlausninni. þetta er nú mismunur trúar og vantrúar; og einkènni hins vantrúaða, er misþóknan á Guðs orði, sem manneskjunni er gèfið til sáluhjálpar, og það stærilæti, að mikla sig af sinni holdlegu skynsemi, er eg kalla. Orðatiltæki mitt það, hæði þeir, sem vilja, eg hefi þó fært rök til þess, og þarf ekki að læra af neinum, að aldrei verði skynsemin hold í sjálfri sèr, þó holdleg sè, þegar hún festir sig einúngis á veraldlegum hlutum. þar nú manneskjan aldrei gètur staðið við sama (óumbreytt), þá fljóta með tímanum af þessu drambi í móti Guði allir glæpir, og um síðir hlýtur það að segja Guði stríð á hendur, einsog dýrið af afgrunninu. þvílíkur andi, sem á engan hátt lætur sig sannfæra, þegar hann hefir fengið algjörva yfirhönd, verður þá með hinum skèlfilegustu eptirdæmum að þvíngast út af veröldinni, áðurenn Guð gètur gjört mannkynið sælt á þann hátt, sem samkvæmur er hans niðurskipun og möguleglcikanum.

§. 290.

Loksins verð eg, bæði til að afstýra, að því leiti í mínu valdi stendur, allri óþarfri, og í tilliti til mín ávaxtarlausri útásetníngu (Kritik) þessarar lítilvægu tilraunar; en þarámóti til að uppörfa og framhvetja þá aðfinnslu hennar, sem gètur verið grundvölluð, að hræra við því í stuttu máli, sem helzt gètur þarvið heitið umtalsefni. Menn kynni fyrst að spyrja: hví eg hafi tekið fyrir mig þetta verk? þar gjæti eg gèfið ærnar röksemdir til, teknar frá hjartans innsta, en þær skulu vera þetta stutta: af því eg er kristinn, og trúi Guðs orði, og held Opinberunarbókina vera Guðs orð, með fleiru, sem eg hefi áður tilfært, einkum í 280. §., og það er nóg svar hèr uppá. þarnærst gjæti menn haldið, að minn ritsháttur sè nokkuð beiskur (því þó hann sè kallaður ófullkominn, eða ekki í móðsins stíl, þykir mèr lítilsvert). Í þessu tilliti má eg meðkènna, að hafa máskè gengið lengra enn eg vildi, því mögulega er fundið að þeim gömlu góðu útleggjendum á sumum stöðum allt of mjög, og yfirlýsi eg því, að eg hafði alls ekki þann tilgáng, að niðurdrepa þeim, þó þeir hefði mikið

af vegi farið, miklu framar virði mikils alla þá þanninn nefndu menn, af því Guðs dýrð og náúngans kjærleiki hefir knúð þá, en mig til að prófa, og þaraðauki hafa þeir ísinn brotið, og að gánga útaf rèttasta vegi, helzt þá maður gjörir það, er mikið mannlegt og náttúrlegt, hvarfyrir þeir líka í mínum augum eru miklu virðuglegri, enn þeir, sem aldrei höfðu hrært við því efni. Þegar nú hèr við bætist, að eg veit með vissu, að líka gèta betur upplýstir menn uppgötvað hjá mèr margar feilteikníngar, og að jafnvel enginn mun fá hitt á allt hið rèttasta fyrri enn á sínum tíma, yrði það ósanngirni af mèr, ef eg vildi gjöra lítið úr þeim. Alleina vissar, fyrirfram inndrukknar, meiníngar (þeirra), sem mèr sýndust ekki góðar, kunna að hafa gjört mig nokkuð frjálsorðan, án þess að vilja rífa þá sjálfa. Það skal annars ekki iðra mig, sem eg gjört hefi, ef þarmeð yrði bætt einu grani (minnsta vigtarþúnga) á metaskálir útleggínganna, og aðrir fengi síðan þaraf tækifæri til betri þekkíngar, af hverjum eg þá gjarnan tæki á móti leiðrèttíngu. Samt sem áður eru það ekki nema útleggjendurnir, sem eg hefi á nafn nefnt. En hvað hinum öðrum viðvíkur, Naturalistum, fríþenkjendum, Ratiónalistum, eða hvað þeir herrar eru kallaðir, hefi eg engan nefnt, svo að hver af þeim, sem finnur sèr í móti gjört, verður þessvegna fyrst að segja sjálfur til sín. Að eg hefi verið harðorður í móti þessum, neita eg ekki; þó eiginlega haft það augnamið, að niðurdrepa þeirra lærdómi, sem eg álít í mesta lagi skaðlegan, og þá hefi eg ekki gètað komist hjá stundum, að stínga að sjálfum þeim (þó án þess, að meina nokkurn sèrílagi); því eg ætla, að bókin, sem eg hafði fyrir mèr, sè allt of alvarleg til þess, að nokkur gèti gjört útleggíngar-tilraun yfir hana, og haldið við það jafngildissömum, fínum eða að aldarmóð löguðum stíl, með köldu blóði. Að þessir líka, ef þeir af hófmóð, og án þess, að vilja taka lagfæríngum af Guðs orði, en útbreiða sinn lærdóm, ekki sèu sjálfir hlífni verðugir, meina eg einninn kunni að þèna mèr til rèttlætíngar; einkum þá eg yfirlýsi, að enginn, sem einúngis er tældur af þeim til líkra ætlana og þeir

hafa, en lætur sig við sannfæríngar leiða aptur á rèttan veg, þarf í minnsta máta til sín að taka það eg hefi sagt um hina. Áhrærandi það eg stend á, að dýrið af afgrunninu sè ekki komið (einsog von er á því) og versta tíðin verði því að vera eptir, þá er náttúrlegt eg haldi við það, þángaðtil menn með sterkari rökum enn mín eru, sanni það, sem þar er á móti. Sá almáttugi Guð varðveiti í náð oss norðurbúa frá því, að tilbiðja það, ellegar taka við þess kènnimerki, eða þess nafns tölu, og hafi í minni í tilliti til vor sitt fyrirheit til engilsins í Phíladelphíu Opinberunarbókin 3, 10., svo að þó sem flestir af oss meigi yfirvinna það, þó allt jarðneskt yrði þarfyrir útgèfið! — Hvað þarhjá viðkèmur mínum í þessari tilraun á sèrlegu áliti eða líkindum bygðu eigin gátum um tíðar-ákvörðun og þvílíkt, vil eg enganveginn, að nokkur skuli hafa trú á eða binda sig þarvið, öðruvísi enn tíðin framleiðir allt. Þær eru hvergi kallaðar óbrigðular, og spádómurinn kèmur víst fram, þó þær bregðist, og mun þá vissulega sína það, að hann hafi hitt á, sínum orðum enn þá samkvæmari, tímapúnkta enn þá, sem nú sýnast líklegastir fyrir vorum augum. Hinn sami Guð hjálpi mèr til hans ríkis útbreiðslu óverðugum öldruðum, og veiklegum manni, til að njóta sinnar guðdómlegu miskunar eilíflega, í Jesú nafni! amen!

Framar veit eg ekkèrt hèr á að minnast. Friður veri með öllum þeim, sem elska vorn Drottinn Jesúm Krist! hver í oss verði prísaður fyrir sinn anda, sínum himneska föður til dýrðar, amen!

---

## Litil eptirskript i tilliti 14. kap. 6. til 12. v. inclus.

---

Einsog þeir, sem ekki trúa Guðs alvizku og Jesú fyrirsjón fyrir sinni kyrkju til þess, að spádómur Opinberunarbókarinnar gèti náð lengra enn til Constantíns daga, eru engra svara verðir, og skilja aldrei eitt orð í bókinni, hver sjálf segir til, hvað lángt hún nái; svo hefir og líka vantrú, sem flýta hefir viljað öllum spádómum, orsakað alla hleypi-

dóma og vanskilníng á henni á öllum tíðum; og eins undarlegt er, að menn ekki enn þá í öndverðri 19. öld, sjá menn ekki með opnum augum og eyrum þrjú höfuðteikn tímanna, sem ljósari eru enn öll, sem híngaðtil hafa sèzt í heiminum, fráteknum máskè kènnimerkjum Krists sjálfs; og þessi eru nú svo að segja sýnileg öll undir eins og hvert fylgir eptir annað. Hróp hins fyrsta engilsins er hið fyrsta kènnimerki, sem allir sjá og heyra á vorum dögum, sem ei loka augum og eyrum, og það teikn hefir aldrei verið svo berlegt sem nú. Hins annars engils hróp er sjáanlega í vændum nú, þá páfadóminum er með öllu móti niðurdrepið; og hið þriðja bregðst þá heldur ekki, einkum þá menn sjá nú líka undirbúníng þess, á híngaðtil, síðan kristni kom, dæmalausri Irreligion og niðurdrepi ritníngarinnar hjá mesta fjöldanum, svo ekkèrt af þessum kènnimerkjum hefir híngaðtil verið svo bersýnilega í vændum sem nú, þó hið fyrsta sè áþreifanlegast komið fram. Þvilíkt sjónleysi, að gjæta ekkèrt að öllu slíku, hlýtur enn að orsaka óteljandi hleypidóma, og er öldúngis óskiljanlegt, gètur því ekki valdið annað enn sú sterka vantrú, sem ætíð hefir sett sig í móti því, að gjæta sinnar tíðar og heimfæra uppá hana, og ákafleg, svo að segja, brennandi girnd til að rengja spádómana. Þekkíngarleysið er ætíð af vantrú hjartans.

## Eptirmáli.

Þannig birtist þá verk þetta Yður á prenti, ástkjæru Landar! óbreytt eptir höfundarins frágángi — og að efni og innihaldi eptir því, sem hann gat þá framast af hendi leyst. — En hvað stílinn áhrærir, er að svo miklu leiti öðru máli að gègna, að höfundurinn snaraði bókinni í mesta flýti af dönsku máli á æfikvöldi sínu, og mundi því hafa bætt úr þesskonar bresti, ef honum hefði endst aldur til; því Árbækur hans og fleira bera vitni um, hversu hann ritaði bókastíl; mundi og máskè hafa umbreytt verkinu og við það aukið, ef honum hefði orðið lángs lífs auðið. Hvað aðal-tilgáng ritgjörðar þessarar snertir, gètur slíkt ekki skèrt gildi hennar, utan máskè hjá nokkrum smámuna-mönnum, sem sjá mýfluguna, en svelgja úlfaldann, en í sinni röð mun hún hèr sem utanlands af trúmönnum öllum álítast sem verk það, er varla eigi sinn líka. Hvað rèttritun snertir, hefir eg falið á hendur herra umboðsmanni A. Sæmundsen, sem lesið hefir prófórkin, að laga hana eptir vild sinni, því eg meina, að síðan seint á næstliðinni öld sèu hèr á landi orðnir tíðkaðir þrír eða fjórir rèttritunarmátar, svo ekki er allra að dæma um, hver rèttastur er.

Eg vona, að tíðin á þessum mannsaldri, og svo hinum komanda, fái sannfært alla sannleikselskendur um, hvers verð bókin sè. Tíminn kèmur, þá allt mun augljóst verða, sem

